# Handbók presta,

innihaldandi

# Guðspjöll og Pistla,

með tilheyrandi

## kollektum og bænum,

sem í Íslands kirkjum lesast árið um kring á sunnu- og helgi- dögum.

Svo fylgir einnig

## vegleiðsla

um barnaskírn, hjónavígslu, vitjun sjúkra og greptrun framliðinna, m. fl.



---

**Reykjavík 1852.**

Prentuð í prentsmiðju Íslands

af **Einari Þórðarsyni**.



# Á fyrsta sunnudag í Adventu.

Kollektan.

Látum oss alla biðja!

Heyr, herra guð! vér biðjum þig auðmjúklega: uppvek þína makt og kom til vor, svo vér mættum frelsast af þeim háskasemdum, sem yfir oss hánga vegna vorra synda, og að vér mættum fyrir þína hlífð verða frelsaðir og sáluhólpnir; þú, sem lifir og ríkir með syni og heilögum anda, sannur guð um aldir alda.

Pistillinn.

(Róm. XIII, 11. — 14.).

Kærir bræður! Og með því að vér vitum einkum þá stund, það tími er upp að rísa af svefninum, af því að vor heilsa er nær, heldur en þá vér trúðum. Nóttin er umliðin, en dagurinn tekur að nálgast. Leggjum því af verkin myrkranna og íklæðumst herklæðum ljóssins, svo að vér gaungum siðsamlega, svo sem á degi; ekki í ofáti eður of-

drykkju; ekki í legukofum og munaðarlífi; ekki í þráttun og øfundsýki; heldur íklæðizt þér drottni Jesú Kristi, og látið ekki eptir holdinu þess girndir að rækja.

## Guðspjallið.

(Matth. XXI, 1.—9.).

Í þann tíma. Og þá er þeir tóku að nálgast Jerúsalem, og komu til Betfage við fjallið Olíveti, útsendi Jesús tvo sína lærisveina, og sagði til þeirra: farið þið í það kauptún, sem gagnvart yður er, og strax munuð þið finna øsnu bundna og folann hjá henni, leysið hana og leiðið til mín. Og ef einhver segir nokkuð til ykkar, þá segið: að herrann hafi þeirra þörf, og jafnsnart mun hann láta þau laus. En það skeði, svo að uppfylltist, hvað sagt er fyrir spámanninn, er svo segir: segið dótturinni Zíon: sjá! þinn konungur kemur til þín hógvær, sitjandi á øsnu og á fola klifbærrar øsnu. En lærisveinarnir geingu á burt, og gjørðu svo sem Jesús bauð þeim, og leiddu með sér øsnuna og folann, lögðu sín klæði yfir þau og settu hann þar upp á. En margt fólk breiddi sín klæði á veginn, og aðrir hjuggu kvistu af trjánum og dreifðu þeim á veg-

inn; en það fólkið, sem fyrir þeim gekk og eptir fylgdi, kalladi og sagdi: Hósianna syni Davids! blessadur sé sá, sem kemur í nafni drottins! Hósianna í hærstum hædum!

---

# Á annan sunnudag í Adventu.

---

### Kollektan.

Heyr herra gud, almáttgur fadir! virztú ad uppvekja vor hjørtu, ad tilbúa þinum eingetnum syni veginn, svo ad vér fyrir hans tilkomu mættum þjóna þér med hreinu hjarta. Fyrir þann sama þinn eingetinn son, Jesúm Krist, þú sem lifir og ríkir, etc.

### Pistillinn.
(Róm. xv, 4.—13.).

Kærir brædur! En hvad, sem skrifad er, þá er þad skrifad oss til lærdóms, svo ad vér, fyrir þolinmædi og huggun ritninganna, hefdum vonina. En gud þolinmædinnar og huggunarinnar gefi ydur þad, ad þér séud samlyndir ydar á milli, eptir Jesú Kristi, svo ad þér mættud samhuga med einum munni dýrka gud og fødur vors drottins Jesú Krists. Þar fyrir annizt hver annan innbyrdis, líka svo sem Kristur annadist ydur gudi til heidurs. En

eg segi Krist hafa verid þjónustumann umskurn-arinnar, fyrir guds sannleika sakir, til stadfestu fyrirheitanna, sem til fedranna hafa sked. En þad, ad heidinn lýdur heidrar gud, þad er fyrir miskunsemina ordid, eptir því sem skrifad er: fyrir þad vil eg, drottinn! vegsama þig á med-al heidinna þjóda, og þínu nafni sýngja lof. Og í annad sinn segir hann: fagníd þér, Heid-íngjar! med hans fólki. Og enn aptur: lofid þér drottinn allar þjódir, og prísi hann allur lýdur. Og enn aptur segir Esajas: þad mun ske, ad rót Jesse og hann, sem upprís til ad stjórna heidnum þjódum, þad á hann munu heidn-ir menn vona. En gud vonarinnar uppfylli ydur med øllum fagnadi og fridi, svo ad þér yfirgnæfid í voninni, fyrir krapt heilags anda.

## Gudspjallid.

(Lúk. XXI, 25. — 33.).

Í þann tíma. Jesús sagdi til sinna læri-sveina: þar munu ske teikn á sólu, tungli og stjørnum, og á jørdu kvaluing þjóda og ør-vilnun; sjór og bylgjur munu hljóda, og menn munu af hrædslu uppþorna, og af eptirbid þeirra hluta, sem ad koma skulu yfir allan heiminn; því kraptar himnanna munu hrærast, og þá munu þeir sjá mannsins son komanda í skýun-

um med makt og miklu veldi. En nær þetta tekur ad ske, þá litid upp, og upphefjid ydar höfud, af því ydar endurlausn tekur ad nálægjast. Og hann sagdi þeim þessa eptirlík-íngu: skodid þér fíkjutréd og öll önnur tré, nær þeirra aldin tekur út ad springa, þá vitid þér, ad sumarid er nálægt; svo líka nær þér sjáid þetta ske, þá vitid, ad guds ríki er nálægt. Sannlega segi eg ydur: ad þessi kynslód mun ekki forgánga, þángad til allt þetta sker; himin og jörd munu forgánga, en mín ord forgánga eigi.

---

## Þridja sunnudag í Adventu.

---

### Kollektan.

Heyr, herra gud! vér bidjum: hneig þú eyra þitt til vorra bæna, og upplýs myrkur vorra hugskota med vitjun þinnar nádar. Þú sem lifir og ríkir, etc.

### Pistillinn.

(1. Kor. IV, 1.—5.).

Þar haldi oss hver madur fyrir, einkum fyrir guds þénara og verkstjórnara yfir guds leyndardóma. En nú heimtist ekki meira af verkstjórnurunum, en þad þeir finnist trúir.

Því er mér það fyrir minsta kosti, að eg skuli af ydur dæmast, eda af mannlegum degi; en þó dæmi eg ekki sjálfur mig. Því eg er mér einskis hlutar medvitandi, en af því em eg þó ekki réttlátur; drottinn er sá, sem dæmir mig. Fyrir því dæmid ekki fyrir tímann, þángad til ad drottinn kemur, sá er auglýsa mun, þad í myrkrunum er hulid, og opinber gjøra ráð hjartnanna, og þá mun hverjum sem einum løfstír ske af gudi.

## Gudspjallid.

(Matth. xi, 2.—10.).

Í þann tíma. En þá ed Jóhannes heyrdi í bondunum verkin Krists, sendi hann út tvo af sínum lærisveinum, og lét segja honum: ertú sá, sem koma skal, eda eigum vér ad vænta eins annars? Jesús svaradi og sagdi til þeirra: farid aptur og kunngjørid Jóhannesi, hvad þér sjáid og heyrid: blindir fá sýn, halltir gánga, líkþráir hreinsast, daufir heyra, daudir upprísa og fátækum verda gudspjøllin bodud, en sæll er sá, sem ekki hneykslar sig á mér. En ad þeim í burtu geingnum, hóf Jesús ad segja til fólksins af Jóhannesi: hvad fórud þér út á eydimørku ad sjá? reyr þann, sem af vindi er skek-

inn? eda hvad fórud þér ad sjá? mann mjúkklæddan? sjáid! þeir, sem mjúkan klædnad bera, eru í konúnganna húsum; eda hvad fórud þér ad sjá? einn spámann? Eg segi ydur fyrir satt: hann meiri er en nokkur spámann; því þessi er sá, um hvern skrifad er: sjá þú! ad eg sendi minn eingil fyrir þinni augsýn, sá er þinn veg skal tilreida fyrir þér.

---

## Á fjórda sunnudag í Adventu.

---

**Kollektan.**

Almáttugi, eilífi gud! vér bidjum þig, ad þú komir og látir þitt almætti skína yfir oss, aumar manneskjur, ad hvad helzt, sem vorar syndir iduglega forhindra og hamla, þad sama mætti þá oss veitast, fyrir hjálp þinnar nádar og miskunar. Fyrir þinn son, Jesúm Krist, sem med þér lifir og ríkir, etc.

**Pistillinn.**

(Filipp. IV, 4.—7.).

Elskulegir brædur! Gledjid ydur í drottni alla tíma, og enn aptur segi eg: gledjid ydur! Ydar hógværd sé kunnug öllum mönnum; því ad drottinn er nálægur. Verid ekki hugsjúkir, heldur látid ydar bænir í öllum hlutum, í bænahaldi og ákalli med þakkargjörd fyrir gudi kunn-

ar verda. Og fridur guds, sá hærri er öll-um skilningi, vardveiti ydar hjörtu og skilningar-vit í Kristi Jesú!

### Gudspjallid.

(Jóh. 1, 19.—28.).

Þessi er vitnisburdur Jóhannesar, þegar Gydingar sendu af Jerúsalem presta og Levíta, ad þeir skyldu spyrja hann ad: hver ert þú? Og hann medkenndist og neitadi því ekki. Og hann medkenndist, segjandi: ekki em eg Kristur. Þeir spurdu hann enn þá ad: hvad þá? ertu Elías? hann sagdi: ekki em eg. Ert þú þá spámadur? Og hann svaradi: nei, ekki! Þá sögdu þeir vid hann: hver ert þú þá? svo ad vér megum andsvar gefa þeim, er oss útsendu; hvad segir þú af sjálfum þér? Hann sagdi: eg em hrópanda rödd í eydimörku, greidi þér götu drottins, eins og sagdi Esajas spámadur. En þeir sem út voru sendir, voru af Fariseis. Þeir spurdu hann ad og sögdu til hans: því skírir þú þá, fyrst þú ert ekki Kristur, ekki Elías og ekki spámadur? Jóhannes svaradi þeim og sagdi: eg skíri í vatni, en sá stód í midid hjá ydur, hvern þér þekktud ekki; hann er sá, sem eptir mig mun koma, hver ed var fyrir mig,

hvers skóþveingi eg er ekki verdugur upp ad leysa. Þetta skedi í Betabara, hinu megin Jórdanar, þar sem Jóhannes skírdi.

# Á jóladaginn.

## Kollektan.

Heyr, almáttugi, eilífi gud! vér bidjum: veit þú oss, ad þins einka sonar nýa fæding mætti frelsa oss, hverjum sá gamli þrældómur heldur undir syndarinnar oki. Fyrir hann, etc.

## Pistillinn.

(Hebr. 1, 1.—5.).

Elskulegir brædur! Med því ad gud hefir fordum margfaldlega og med mørgum háttum talad til fedranna fyrir spámennina; en nú hefir hann allra sídast á þessum døgum til vor talad fyrir soninn, hvern hann setti erfingja yfir alla hluti, fyrir hvern hann hefir einnig verøldina skapad, hver helzt — med því hann er ljómi hans dýrdar og ímynd hans veru — berandi er alla hluti med ordi síns kraptar, gjørandi hreinsun vorra synda fyrir sig sjálfan, setti sig til hægri handar tigninni á hædum, svo miklu ædri ordinn englunum, sem hann

hefir miklu framar þeim erft hærra nafn; því til hvers af einglunum hefir hann nokkurn tíma svo sagt: þú ert minn sonur í dag ól eg þig?

### Guðspjallið.

(Lúk. II, 1.—14.).

Það bar til á þeim dögum, að það boð gekk út frá keisaranum Agústó: að allur heimurinn skyldi skattskrifast. Þessi skattskript hófst fyrst upp, þegar Cýrenius var landstjórnari í Sýría. Og þeir fóru allir að láta skattskrifa sig, hver til sinnar borgar. Þá fór og Jósep frá Galíleu úr borginni Nazaret upp í Júdeu, til Davíðs borgar, Betlehem, af því hann var af húsi og kyni Davíðs, svo hann ljeti skattskrifa sig þar, með Maríu sinni festarkonu ólèttri. En það skeði svo, þá er þau voru þar, að þeir dagar fullnuðust, að hún skyldi fæða, og hún fæddi sinn frumgetinn son, vafði hann í reifum, og lagði hann niður í jötuna; því hún fékk ekki annað rúm í gesta-herberginu. Og fjárhirðarar voru þar í sama bygðarlagi um grandana við fjárhúsin, sem geymdu og vöktu yfir hjörð sinni um nóttina. Og sjá! að eingill drottins stóð hjá þeim, og guðs birta

ljómadi um kring þá, en þeir urdu mjøg ótta-slegnir. Eingillinn sagdi til þeirra: hirdid þér ekki ad hrædast, sjáid! eg boda ydur mikinn føgnud, þann er ske ollu fólki; því í dag er ydur frelsarinn fæddur, sá ad er Kristur drottinn í borginni Davids, og hafid þad til merkis, ad þér munud finna barnid í reifum vafid og lagt vera í jøtuna. Og jafnsnart var þar hjá einglinum mikill fjøldi himneskra hersveita, sem lofudu gud og søgdu: dýrd sé gudi í upphædum, fridur á jørdu og mønnum gódur vilji!

---

# Á annan jóladag.

---

### Kollektan.

Heyr, herra gud! gef oss ad eptirfylgja hans dæmum, hvers hátíd vér í dag høldum, svo vér mættum læra ad elska vora óvini, líka sem hann bad fyrir sínum ofsóknarmønnum. Fyrir þinn son, Jesum Krist, sem med þér lifir og ríkir, etc.

### Pistillinn.

(Post. Gb. VI, 8.—15; VII, 54.—60.).

Á þeim døgum. Og Stephanus fullur af trú og styrkleika tók ad gjøra stórmerki og tákn mikil á medal fólksins. Þá stódu upp nokkrir af þeirri samkundu, sem kallast Liber-

tinórum, Cyrenórum og Alexandríuórum, og þeirra sem voru af Cilicíu og Asíu, þreytandi spurningar vid Stephanum; en þeir gátu ekki mótstadid þeirri speki né þeim anda, af hverjum hann taladi. Þá sendu þeir út menn, sem segja skyldu sig heyrt hafa hann mæla hádungar-ord á móti gudi og Móse, og æstu svo upp lýdinn og oldúngana og ena skriptlærdu; hlupu ad og gripu hann, burtleiddu fyrir rádid og settu til ljúgvotta, sem segja skyldu: þessi madur lætur ekki af ad tala hádyrdi gegn þessum heilaga stad og logmálinu; því vér heyrdum hann segja: ad Jesús af Nazaret mundi þenna stad nidurbrjóta og umhverfa þeim setningum, er Móses hefir oss gefid. En allir þeir í rádinu sátu, horfdu á hann og sáu, ad hans ásjána var eins og eingils ásjána; en þá þeir heyrdu þetta, skárust þeir í sínum hjortum og gnístu tonnum yfir honum. En med því ad hann var fullur af heilogum anda, hóf hann upp augu sín til himins, og sá guds dýrd, en Jesúm standa til hægri handar gudi og sagdi: sjáid! eg sje himnana opna og mannsins son standa til guds hægri handar. Þeir kolludu þá upp hárri roddu og samanbyrgdu sín eyru, gjordu honum árás med einum samdrætti,

hnepptu hann út af borginni og grýttu hann. En vottarnir lögdu sín klædi til fóta úngmennis nokkurs, er Sál hét, og lömdu Stephanum med grjóti. Hann kalladi og sagdi: Herra Jesú! medtak þú minn anda! Þá kraup hann nidur og kalladi hárri röddu: Drottinn! legg þeim ekki til þessa synd! En er hann hafdi þetta sagt, sofnadi hann.

## Gudspjallid.

(Matth. XXIII, 34.—39.).

Í þann tíma. Jesús sagdi til Gydinga fólksins og kennimanna höfdíngjanna: sjáid! eg sendi til ydar spámenn, spekinga og skriptlærda, nokkra af þeim munud þér aflífa og krossfesta, en suma munud þér húdstrýkja í samkundu húsum ydar, og af einni borg í adra munud þér þá ofsækja, svo ad yfir ydur komi allt réttlátt blód, sem á jördina úthellt er í frá blódi Abels réttláta, allt til blóds Zachariæ, sonar Barachiæ, hvern þér drápud á millum musteris og altaris. Sannlega segi eg ydur: ad allt þetta mun koma yfir þessa kynslód. Jerúsalem! Jerúsalem! þú, sem aflífar spámennina, og grýtir þá, er til þín eru sendir! hversu opt hefi eg viljad samansafna sonum

þinum, líka sem hænan samansafnar úngum sínum undir vængi sér, en þér hafið ekki viljað? Sjáið! ydar hús skal ydur í eydi látið verda; því eg segi ydur: ad þér munuð ekki sjá mig upp frá þessu, þángad til þér segið: Blessadur sé sá, sem kemur í nafni drottins!

## Á sunnudaginn milli jóla og nýárs.

### Kollektan.

Heyr, almáttugi, eilífi guð! stjórna oss og öllu voru framferði eptir þínum vilja, svo vér mættum, í nafni þíns elskulega sonar, verða auðugir í góðum verkum. Fyrir hann sama drottinn vorn, etc.

### Pistillinn.

(Gal. IV, 1.—7.).

Elskulegir bræður! En eg segi: á medan erfinginn er barn, þá er á milli hans og þjónsins eingi̇nn greinarmunur, þótt ad hann sé herra alls góżins; heldur er hann undir forsvars- og fjárhaldsmönnum til ásetts tíma af födurnum. Líka vér einnig, þegar vér vorum börn, vorum vér þrælkaðir undir þessa heims setníngum. En þegar uppfylling tímans var komin, sendi guð son sinn, fæddan af kvinnu

og lögmálinu undirvorpinn, til þess hann frelsadi þá, sem undir lögmálinu voru, svo ad vér medtækjum sonarleifdina. En af því þér erud börnin, hefir gud sent anda sonar síns í ydar hjörtu, kallandi: Abba! kæri fadir! Svo er hér nú einginn þræll meir, heldur börn ein; en ef þér erud börn, þá erud þér og einnig arfar guds fyrir Krist.

## Gudspjallid.

(Lúk. II, 33.—40.).

Og hans fadir og módir undrudust þad, hvad af honum sagdist. Og Simon blessadi þau, og sagdi til Maríu módur hans: sjá þú! þessi er settur til falls og upprisu margra í Israel, og til merkis, hverju í móti mun mælast: sjálfrar þinnar önd mun og sverd ígegnum smjúga, svo ad augljós verdi hugskots hjörtu margra. Þar var þá Anna spákona, dóttir Fanúels af kyni Asser; hún var komin til ára sinna, og hafdi lifad sjö ár med sínum eignarmanni frá meydómi sínum. Þessi ekkja hafdi nær fjóra vetur um áttrætt, hver ed ekki gekk úr musterinu, þjónandi gudi nótt og dag med föstum og bænahaldi. Þessi gekk samstundis þángad ad, og prísadi drottinn,

og sagdi af honum til allra þeirra, sem end-urlausnarinnar bidu til Jerúsalem. Og er þau hofdu allt fullgjørt eptir løgmáli drottins, snéru þau aptur í Galíleu, til borgar sinnar Nazaret. En sveinninn vóx upp og styrktist í anda, fullur vísdóms, og guds náð var med honum.

---

# Á nýársdag.

## Kollektan.

Heyr, herra, himneski fadir! sem lézt þinn eingetinn son verda løgmálinu undirgefinn, og umskerast á áttunda degi, løgmálid upp ad fylla vegna þeirra, sem løgmálsins bølvun voru undirgefnir. Vér bidjum þína miskunsemi, ad þú viljir andlega umskera vor hjørtu, frá øllum vondum girndum. Fyrir þann sama, etc.

## Pistillinn.

(Gal. III, 23. — 29.).

En ádur en trúin kom, vorum vér vard-veittir undir løgmálinu, inniluktir upp á þá trú, sem opinber skyldi verda. Þar fyrir var løgmálid vor tiptunarmeistari til Krists, svo ad vér réttlættumst fyrir trúna. En nú, sem trúin er komin, þá erum vér ekki leingur und-ir tiptunarmanninum; því allir erud þér nú

guds børn fyrir trúna á Krist; því svo margir af ydur, sem erud skírdir, þér hafid íklædzt Kristi. Hér er ekki Gydingur né Grískur, ekki þræll né frelsingi, ekki karl né kvinna, því allir erud þér eitt í Jesú Kristi. En fyrst þér erud Krists, þá erud þér sædi Abrahams, og eptir fyrirheitinu erfingjar.

### Gudspjallid.

(Lúk. II, 21.).

Eptir ad átta dagar voru lidnir, og barnid skyldi umskerast, var hans nafn kallad Jesús, hvad er kallad var af einglinum, ádur en þad hann var getinn í móburkvidi.

---

## Á sunnudaginn milli nýárs og þrettánda.

---

### Kollektan.

O herra gud, himneski fadir! þú, sem lézt þinn kæra son, Jesúm Krist, verda framandi og útlendan í Egyptalandi fyrir vora skuld, og færdir hann heilan heim aptur til síns födurlands. Vér bidjum þig: gef oss þína nád, ad vér aumar manneskjur, sem erum framandi og útlendir í þessum hásksama heimi, mættum snarlega komast til himnaríkis, og heim í vort rétta födurland, þar ad lifa í dýrd og gledi eilíflega. Fyrir hann sama, etc.

## Pistillinn.
(Róm. III, 19.—22.).

En vér vitum, ad hvad helzt sem lögmálid segir, þad segir þad þeim, sem eru undir lögmálinu, ad sérhver munnur tilbyrgist, og allur heimurinn verdi vid gud sakadur. Fyrir því getur af verkum lögmálsins ekkert hold réttlátt vordid fyrir hans augsýn; því fyrir lögmálid kemur þekking syndarinnar. En nú er, án lögmálsins, réttlæti guds opinberad, um hvert vitnad er af lögmálinu og spámönnunum. Já, réttlæti guds fyrir trúna á Jesúm Krist, til allra og yfir öllum, sem trúa.

## Gudspjallid.
(Matt. II, 16. — 18.).

Þegar Heródes sá, ad hann var gabbadur af vitringunum, vard hann reidur, sendi því út, og lét drepa öll sveinbörn til Betlehem og í öllum hennar endimörkum, tvævetur og þadan af yngri, eptir þeim tíma sem hann hafdi útspurt af vitringunum. Þá uppfylltist, hvad sagt er fyrir Jeremías spámann, sem segir: á hædum hefir heyrzt kall mikillar kveinunar, óps og ýlfrunar; Rachel syrgdi sonu sína, og vildi ekki huggast láta, því þad var med þeim úti.

# Á fyrsta sunnudag eptir þrettánda.

### Kollektan.

Heyr, herra himneskur fadir! vér bidium þig: veit þú girnd þins bidjanda lýds, ad hann mætti sjá og skilja, hvad rétt er, og ad geta þad sama gjört og framkvæmt med verki. Fyrir þinn son, Jesúm Krist, sem med þér, etc.

### Pistillinn.

(Róm. XII, 1. — 5.).

Kærir brædur! Fyrir því beidi eg ydur, fyrir miskunsemi guds, ad þér gefid ydar líkami til þess offurs, sem lifandi er og heilagt og gudi þakknæmt, hvert ad er ydar skynsamleg þjónusta. Hegdid ydur ekki eptir þessum heimi, heldur umbreytid ydur í endurnýúngu ydvars hugskots, svo ad þér megid reyna, hver ad sé gódur, þægur og algjørdur guds vilji. Því ad eg segi fyrir þá nád, sem mér er gefin, hverjum sem einum ydar á milli, ad einginn haldi meira af sér, en honum byrjar af sér ad halda, heldur haldi hann af sér hóflega, eptir því sem gud hefir útskipt hverjum og einum mælir trúarinnar. Því líka sem vér hofum marga limu á einum líkama, en allir limirnir hafa þó ekki líka hegdun, líka svo erum vér

margir einn líkami í Kristi, en vor á milli erum vér hver annars limur.

### Guðspjallið.

(Lúk. II, 42. — 52.).

Þegar Jesús var tólf ára gamall, fóru foreldrar hans upp til Jerúsalem, eptir siðvenju hátíðardagsins. En er þeir dagar voru liðnir, og þau fóru heimleiðis, varð barnið Jesús eptir í Jerúsalem, en hans foreldrar vissu það ekki, og meintu, að hann væri hjá selskapnum, voru svo komin eina dagferð, og leituðu hans meðal frænda og kunningja; en þá er þau fundu hann ekki, sneru þau aptur til Jerúsalem, og leituðu að honum. En það skeði svo eptir þrjá daga, að þau fundu hann í musterinu, sitjandi mitt á millum lærifeðranna, heyrandi þeim og aðspyrjandi þá; en allir þeir, sem hann heyrðu, undruðust yfir hans skilningi og andsvörum. Og er þau sáu hann, hnikkti þeim við; en móðir hans sagði til hans: Sonur minn! því breyttir þú svo við okkur? sjá þú! faðir þinn og eg leituðum harmþrúngin að þér. En hann sagði til þeirra: Hvað er það, að þið leitið að mér? vissuð þið ekki, að mér byrjar að vera í þeim hlutum, sem míns föðurs

eru? En þau undirstódu ekki þetta ord, sem hann mælti til þeirra. Og hann fór med þeim ofan, og kom til Nazaret, var þeim og hlýdinn. En módir hans geymdi øll þessi ord í hjarta sínu. Og Jesú jókst aldur og vizka og nád hjá gudi og mønnum.

---

## A annan sunnudag eptir þrettánda.

### Kollektan.

O þú almáttugi, eilífi gud! sem stjórnar øllum hlutum á himni og á jørdu, heyr þú mildilega bænir þíns lýds, og gef frid um vora daga. Fyrir vorn herra, Jesúm Krist, sem med þér, etc.

### Pistillinn.
(Róm. XII, 6. — 16.).

Elskulegir brædur! En vér høfum margháttadar gjafir, hver eptir þeirri nád, sem oss er gefin. Hafi nokkur spádóm, þá sé hann eptir réttri trúarinnar reglu. Hafi nokkur embætti, þá gæti hann þess embættis. Kennir nokkur, þá vakti hann þá kenningu. Áminnir nokkur, þá hyggi hann ad þeirri áminningu. Hver sem gefur, þá gefi hann í einfaldleika.

Hver sem stjórnar, þá stjórni hann með áhyggju. Fremur nokkur miskunsemi, þá gjori hann hana með góðfýsi. Elskan sé flærðarlaus. Hatið hið vonda, en loðið á enn góða. Bróðurlegur kærleiki sé ástúðlegur yðar á milli. Hafi hver annan sér í virðingum æðra. Verið ekki latir í því, sem þér eigið að vina. Verið glóandi í andanum, drottni þjónandi. Hegðið yður eptir tíðinni. Verið glaðir í voninni, en þolinmóð-ir í kvølinni. Staðfastir í bæninni og annizt nauðþurftir heilagra. Kostgæfið að vera gest-risnir. Blessið þá, sem yður ofsækja. Bless-ið en bølvið eigi. Fagnið með fagnendum, en grátið með grátendum. Verið samhuga inn-byrðis. Stundið ekki á það, sem hátt er, heldur lútið að því, sem lágt er.

## Guðspjallið.

(Jóh. II, 1. — 11.).

Í þann tíma. Þar gjørðist brúðkaup í Kana í Galíleu, og móðir Jesú var þar; en Jesús og hans lærisveinar voru og boðnir til brúðkaupsins. Og er þá þraut vín, sagði móðir Jesú til hans: þeir hafa ekki vín. Jes-ús svaraði og sagði til hennar: þú, kvinna! hvað hefi eg með þig? mín stund er enn þá

ekki komin. Módir hans sagdi til þjónustumannanna: hvad helzt hann segir ydur, þá gjörid þad. En þar voru sex steinker sett, eptir venju hebreskra manna, til hreinsunar þeim, og tók hvert þeirra tvo edur þrjá mælira. Jesús sagdi til þjónanna: fyllid upp kerin af vatni. Og þeir fylltu þau allt á barma. Jesús sagdi: hellid nú af og færid kæmeistaranum. Þeir færdu honum; en þegar kæmeistarinn smakkadi vatnid — sem þá var ordid ad víni, og vissi ekki, hvadan þad kom, en þjónustumennirnir, sem vatnid sóktu, vissu þad — kalladi hann á brúdgumann og sagdi: allir menn gefa í fyrstu hid góda vínid, en þegar gestirnir taka ölvadir ad gjörast, þá hid léttara; en þú hefir geymt hid góda allt til þessa. Þetta er hid fyrsta kraptaverk, sem Jesús gjördi til Kana í Galíleu; hann opinberadi sína dýrd, og hans lærisveinar trúdu á hann.

---

## A þridja sunnudag eptir þrettánda.

---

**Kollektan.**

Heyr, almáttugi gud! vér bidjum þig: líttú á vorar

audmjúkar bænir, og útrétt hægri hönd þinnar maktar oss til hlífdar. Fyrir drottinn vorn Jesúm Krist, sem með þér, etc.

## Pistillinn.

(Róm. XII, 17. — 21.).

Elskulegir brædur! Verid ekki sérklókir, gjaldid eingum illt fyrir illt. Leggid kapp á, ad vera sidsamir vid alla menn. Ef mögulegt er, og þad þér megnid, þá hafid frid vid alla menn. Hefnid ydar ekki sjálfir, minir elskanlegir! heldur gefid rúm reidi; þvi skrifad er: min er hefndin, eg mun endurgjalda, segir drottinn. Þar fyrir, ef óvin þinn húngrar, þá gef honum fædu; ef hann þyrstir, þá gef honum ad drekka, þvi þegar þú gjörir þetta, muntú safna glódum elds yfir höfud honum. Lát ekki hid vonda yfirstiga þig, heldur yfirvinn þad vonda med gódu.

## Gudspjallid.

(Matth. VIII, 1. — 13.).

Í þann tíma. Þegar Jesús gekk ofan af fjallinu, fylgdi honum margt fólk eptir. Og sjá þú! ad likþrár madur kom, tilbad hann og sagdi: Herra! ef þú villt, þá getur þú hreinsad mig. Jesús rétti út höndina, áhrærdi hann og sagdi: eg vil, vertú hreinn! og jafnsnart

vard hans líkþrá hrein. Jesús sagdi til hans: sjádú til, ad þú segir þad ekki neinum, heldur far þú og sýn þig kennimanninum, og offra þeirri gáfu, sem Móses baud, til vitnisburdar yfir þeim. En er Jesús gekk inn i Kapernaum, kom til hans hundradshøfdingi nokkur, bidjandi hann og sagdi: þjón minn liggur limafallssjúkur heima, og kvelst þúnglega. Jesús sagdi til hans: Eg vil koma og lækna hann. Hundradshøfdinginn svaradi og sagdi: Herra! eg er þess ekki verdugur, ad þú gángir inn undir mitt þak, heldur segdú eitt ord, og mun minn þjón heilbrigdur verda; því eg er madur yfirvaldinu undirgefinn, hafandi undir mér stridsfólk, og þegar eg segi þessum: far! þá fer hann; og ødrum: kom þú! og hann kemur, og þræli mínum: gjør þetta! og hann gjørir þad. En þegar Jesús heyrdi þetta, undradist hann og sagdi til þeirra, er honum eptirfylgdu: sannlega segi eg ydur: þvílíka trú hefi eg ekki fundid í Israel; en eg segi ydur: ad margir munu koma af austri og vestri og sitja til bords med Abraham Isaak og Jakob i ríki himnanna, en ríkisins synir munu verda útreknir i hin yztu myrkur, þar sem vera mun óp og gnistr-

an tannanna. Og Jesús sagdi til hundrads-höfdingjans: gakk þú hédan, verdi þér eptir því, sem þú trúdir! og þjóninn vard heill á þeirri sömu stundu.

---

# A fjórda sunnudag eptir þrettánda.

---

## Kollektan.

Heyr, herra gud! sem allra bezt veizt, i hvilikum háska og voda vér erum staddir, þad ad vér, fyrir holdsins breyskleika, kunnum ekki ad vera stadfastir án þinnar sérlegrar nádar og hjálpar; því bidjum vér þig um nád og lukku til lifs og sálar, ad hvad helzt vér lidum vegna vorra synda, mættum vér þad med þolinmædi lida, og med hiálp þinnar nádar yfirvinna. Fyrir Jesúm Krist, sem med þér, etc.

## Pistillinn.

(Róm. XIII, 8. — 10.).

Elskulegir brædur! Verid eingum skyldugir nema þad, ad þér elskid hver annan; því hver hann elskar annan, sá hefir lögmálid uppfyllt; því þar sem segist: þú skalt ekki hór drýgja; ekki mann vega; ekki stela; ekki ljúgvitni mæla; ekki girnast, og ef þar er nokkud annad bodord, þá felst þad i þessum ordum: elska skaltú náúnga þinn, eins og sjálfan þig. Elskan gjörir

ekki náúnganum illt; þar fyrir er nú elskan lögmálsins uppfylling.

Guðspjallið.
(Matth. VIII, 23. — 27.).

Jesús stè á skip og hans lærisveinar með honum. Og sjá þú! að mikill ókyrrleiki gjörðist í sjónum, svo skipið lá undir áföllum, en hann svaf. Lærsveinarnir vökku hann og sögðu: Herra, hjálpa þú oss! vér forgaungum. Jesús sagði til þeirra: hvað hræðizt þér, litiltrúaðir! þá reis hann upp, hastaði á vindinn og sjóinn, og þar varð logn mikið; en mennirnir undruðust og sögðu: hvílíkur er þessi? því vindur og sjór hlýða honum.

---

## Á fimmta sunnudag eptir þrettánda.

Kollektan.

Heyr, herra guð! vér biðjum: varðveit þú þína kristni með þinni náð og miskun, að líka sem hún ekki hefir nokkurn annan upp á-að vona og treysta nema þig, svo lát hana ætíð fá og öðlast þína hjálp og verndun. Fyrir þinn eingetinn og elskulegan son, etc.

## Pistillinn.

(Kol. III, 12. — 17.).

Elskulegir brædur! Svo íklædizt þér nú, eins og guds útvaldir, heilagir og elskanlegir hjartfólginni miskunsemi, gódvilja, audmýkt, hógværd, þolinmædi. Umlidid hver annan, og ef nokkur hefir kløgunmál móti ødrum, þá fyrirgefid þad hver ødrum innbyrdis; eins og Kristur fyrirgaf ydur, svo skulud þér og einnig. En fram yfir allt þetta, þá íklædizt kærleikanum, hver ad er band algjørlegleikans. Fridur guds ríki í ydrum hjørtum, til hvers þér erud kalladir í einum líkama, og verid þakklátir. Látid Krists ord nóglega byggja medal ydar í allri vizku. Lærid og áminnid ydur sjálfa med sálmum, lofsaungum og andlegum ljúflegum kvædum, og syngid drottni í ydrum hjørtum. Allt hvad þér gjørid med ord og verk, þad gjørid allt í nafni drottins Jesú, og þakkid gudi og fødur fyrir hann.

## Gudspjallid.

(Matth. XIII, 24. — 30.).

Adra eptirlíkingu lagdi Jesús fram fyrir þá og sagdi: Himnaríki er líkt þeim manni, er sádi gódu sædi í akur sinn. En þegar menn sváfu, kom óvinur hans, og sádi illgresi á medal

hveitisins og gekk á burt. En þegar grasid vóx upp, og bar ávøxt, þá auglýstist og illgresid. Þjónustumennirnir geingu til húsfødursins og søgdu: Herra! sádir þú ekki gódu sædi i akur þinn? hvadan kemur honum þá illgresid? Hann svaradi: þad hefir fjandmadurinn gjørt. Þjónustumennir søgdu þá: vilt þú, ad vid førum og útlesum þad? Hann svaradi: nei, svo þér upprætid ekki hveitid undir eins, þegar þér útlesid illgresid. Látid hvorttveggja vaxa allt til kornskurdarins, og á kornskerutimanum skal eg segja til kornskurdar-mannanna: lesid fyrst saman illgresid, og bindid þad saman i bindini, til ad brenna þvi, en samansafnid hveitinu i mina kornhlødu.

---

# A sjøtta sunnudag eptir þrettánda.

---

## Kollektan.

O! miskunsami og eilifi gud, himneski fadir! vér bidjum þig, ad þú viljir uppvekja oss, ad vér med allri kostgæfni mættum gánga kristilega i gódum verkum, og ætid styrkjast fyrir þig, og fundnir verda i allri gudrækni. Fyrir þinn, etc.

### Pistillinn.

(2. Pet. I, 12. — 18.).

Elskulegir brædur! Fyrir því vil eg ekki undanfella ad áminna ydur jafnlega um þetta, þó ad þér vitid þad, og erud styrkvir í nálægum sannleika. Því eg hygg þad réttilegast, svo leingi sem eg er í þessari tjaldbúd, ad uppvekja ydur med áminníngum; því eg veit þad, ad eg hlýt snarlega þessa mína tjaldbúd af ad leggja, svo sem vor drottinn Jesús Kristur hefir mér opinberad. En eg vil kapps um kosta, ad þér — eptir mína útför — jafnan hefdud slíkt til minnis ad halda; því ekki höfum vér dæmafródum frásögnum eptirfylgt, þá vér gjördum ydur kunnan krapt og híngadkomu vors drottins Jesú Krists, heldur höfum vér sjálfir séd hans vegsemd, þann tíma hann af gudi födur medtók dýrd og heidur, þar ed þess háttar raust til hans skedi af mikilli dýrd: þessi er minn elskulegur sonur, ad hverjum mér velþóknast. Þessa raust heyrdum vér af himnum verda, þegar vér vorum med honum upp á fjallinu helga.

### Gudspjallid.

(Matth. XVII, 1. — 9.).

Og sex dögum þar eptir tók Jesús med

sér Pétur, Jakob og Jóhannes, bródur hans, og hafdi þá upp á hátt fjall, og ummyndadist fyrir þeim. Hans ásjána skein sem sól, og klædi hans urdu svo bjørt, sem ljós. Og sjá! ad þeim birtust þeir Móses og Elías, sem tøludu vid Jesúm. Pétur sagdi til Jesú: Herra! hér er oss gott ad vera! ef þú vilt, þá viljum vér gjora hér þrjár tjaldbúdir, þér eina, Mósi eina og Elíasi eina. En í því hann taladi þetta, umskyggdi þá bjart-ský, og rødd úr skýinu sagdi: Þessi er minn elskulegur sonur, ad hverjum mér velþóknast; hlýdid þér honum! En — þegar lærisveinarnir heyrdu þad, féllu þeir fram á sínar ásjánir, og urdu mjøg hræddir. Jesús gekk þá til þeirra, tók á þeim og sagdi: standid upp, og verid ekki hræddir; en þegar þeir litu upp, sáu þeir eingan, nema Jesús einan. En þá er þeir geingu ofan af fjallinu, sagdi Jesús til þeirra: þér skulud eingum segja frá þessari sjón, þar til ad mannsins sonur er upp aptur risinn frá daudum.

---

# Á fyrsta sunnudag í níu vikna föstu.

---

## Kollektan.

Almáttugur, eilífur guð! vér biðjum: heyr mildilega bænir þíns fólks, að vér, sem maklega erum, sökum vorra synda, hirtir, mættum, sakir þíns dýrðarfulla nafns, miskunsamlega frelsast. Fyrir drottinn vorn, etc.

## Pistillinn.

(1. Kor. IX, 24. — 27. X, 1. — 4.).

Kærir bræður! Vitið þér ekki, að þeir sem skeiðið hlaupa, að þeir allir hlaupa, en einn er sá, sem hnossið tekur? Hlaupið nú og, svo að þér höndlið það: en hver, sem slæst, hann heldur sig frá öllu. Þeir að sönnu, upp á það þeir öðlist forgeingilega kórónu, en vér óforgeingilega. En eg hleyp ekki svo sem upp á hið óvísa; eg slæ ekki, eins og sá, er í vindinn slær, heldur þjái eg líkama minn, og læt hann þræl vera, svo eg prédiki það ekki öðrum, og verði sjálfur rækur. En eg vil ekki dylja fyrir yður, góðir bræður! að vorir forfeður voru allir undir skýinu, allir gengu þeir yfir hafið, og allir vorn þeir skírðir af Móse í skýinu og í sjónum. Allir hafa þeir neytt hinnar sömu andlegrar fæðu, og allir hafa þeir

hinn sama andlega drykk drukkid; þeir drukku og af þeirri andlegu hellu, sem þeim medfylgdi, hver hella ad var Kristur. En gud hafdi ekki á flestum af þeim velþókknun; því eru þeir nidurslegnir í eydimørkinni.

## Gudspjallid.

(Matth. xx, 1. – 16.).

Jesús sagdi til sinna lærisveina þessa eptirlíkingu: Himnaríki er líkt þeim húsfødur, sem útgekk snemma morguns ad leigja verkamenn í víngard sinn. Ad gjørdum samningi vid verkamennina, ad daglegu penings gjaldi, sendi hann þá í víngardinn. Nærri þridju stundu gekk hann út, og leit adra standa idjulausa á torginu; hann sagdi til þeirra: farid þér einnig í víngardinn, og hvad réttvíst er, mun eg gefa ydur. En þeir geingu á burt þángad. Hann gekk aptur út um sjøttu og níundu stundu og gjørdi slíkt hid sama. Nærri elleftu stundu gekk hann út, og fann enn adra standa idjulausa. Hann sagdi til þeirra: hvers vegna standid þér hér allan daginn idjulausir? Þeir svorudu: af því einginn hefir leigt oss. Hann sagdi til þeirra: farid þér í víngard minn, og hvad réttvíst er, skulud þér fá. Þegar

kvøld var komid, sagdi víngarðs herrann vid ráðsmann sinn: kalla þú verkamennina, og gjaltú þeim verkkaupid, tak til frá þeim seinustu til enna fyrstu. Þá komu þeir, sem nærri elleftu stundu leigdir voru, og hver þeirra medtók sinn pening. En hinir, sem fyrstir komu, hugsudu, ad þeir mundu fá meira; en hver þeirra medtók sinn pening. Þegar þeir høfdu medtekid hann, mogludu þeir gegn húsfødurnum og søgdu: þessir enn seinustu hafa eina stund ervidad, og þú gjørdir þá jafna vid oss, sem borid høfum hita og þúnga dagsins. Hann svaradi og sagdi til eins þeirra: vinur! ekki gjøri eg þér órétt; ertú ekki ásáttur ordinn vid mig um einn pening? taktú hvad þitt er, og far á burt; en þessum seinustu vil eg gefa eins og þér; eda, leyfist mér ekki ad gjøra af minu, hvad eg vil? ellegar ertú þar fyrir rángeygdur, ad eg er góðgjarn? Svo verda seinastir hinir fyrstu, og fyrstir hinir seinustu; þvi margir eru kalladir, en fáir útvaldir.

# Á annan sunnudag í níu vikna føstu.

---

## Kollektan.

Heyr, herra guð! þú, sem sér, að vér ekki høfum traust á nokkrum øðrum verkum, mætti eður megni. Veit þú oss miskunsamlega, að vér mættum verndaðir verða frá øllum mótstæðilegum hlutum, andlegum og líkamlegum, fyrir þína náðarsamlega hlífð, eins og þú hlífðir Páli postula, kennifeður heiðinna þjóða. Fyrir þinn eingetinn og elskulegan son, etc.

## Pistillinn.

(2. Kor. XII, 2. — 9.).

Eg þekki mann í Kristi fyrir fjórtán árum — var hann í líkamanum, það veit eg ekki, eða var hann fyrir utan líkama, veit eg og ekki, guð veit það — sá sami var rykktur allt upp í þriðja himin, og eg þekki gløggt þann mann — hvert hann var í líkama, eður utan líkama, veit eg ekki, guð veit það. — Hann varð upprykktur í Paradís og heyrði óumræðileg orð, þau sem eingirn maðar fær talað. Af þessu vil eg mér hrósa, en af sjálfum mér vil eg mér ekki hrósa, nema af mínum breyskleika. En þó eg vildi hrósa mér, gjørða eg það ekki fíflslega, því eg vil segja sannleikann. En eg sporna við því þar fyrir, svo að einginn

haldi mig ædra en svo, sem hann á mér sjer, eda af mér heyrir. Og svo ad eg stæri mig ekki af mikilleika þessara opinberínga, er mér gefinn fleinn í holdid, andskotans eingill, hver ad mig med knefum slái, upp á þad eg stæri mig ekki. Um þad hefi eg drottinn þrisvar bedid; ad hann víki burt frá mér. En hann sagdi til mín: lát þér nægjast mína náđ, því minn kraptur er í breyskum máttugur. Fyrir því vil eg sem fegnastur hrósa mér af mínum breyskleika, svo ad kraptur Krists byggi medur mér.

## Gudspjallid.

(Lúk. VIII, 4. — 15.).

Í þann tíma. Þá er margt fólk var samankomid, og þad flykktist til Jesú úr stöddunum, sagdi hann í eptirlíkingu: Sá gekk út, er sádi, til ad sá sædi sínu; en þegar hann sádi, féll sumt utan hjá veginum, vard fótum trodid og fúglar loptsins átu þad. Sumt féll á hellu, en þegar þad spratt upp, visnadi þad, af því þad hafdi ekki vokvann. Sumt féll á medal þyrna, en þýrnirinn spratt upp med, og kæfdi þad nidur. Sumt féll í góda jørd, þad óx upp og bar hundradfaldan ávørt. Þegar Jesús hafdi þetta sagt, kalladi

hann: hver eyru hefir ad heyra, heyri hann! Hans lærisveinar spurdu hann ad, hver væri þessi eptirlíking. Jesús svaradi: ydur er unnt ad vita leyndardóma guds ríkis, en þeim ødrum í eptirlíkingum, svo sjáandi sjái þeir ekki, og áheyrandi skilji þeir þad ekki; en þessi er eptirlíkingin: Sædid er guds ord: en hinir vid veginn eru þeir, sem heyra þad, en eptir þad kemur hinn vondi, og tekur ordid burtu úr þeirra hjørtum, svo þeir skuli ekki trúa og verda hólpnir. Þad, sem á helluna féll, eru þeir, sem medtaka ordid med føgnudi, þegar þeir heyra þad, en hafa einga rót, hverjir um stundarsakir trúa, en falla þar frá á freistingar tímanum. Þad, sem féll á millum þyrnanna, eru þeir, sem þad heyra, og velkjast í sorgum, audæfum og girndum þessara lífdaga, kefjast og færa eingan ávøxt. Þad, sem í góda jørd féll, eru þeir, sem heyra ordid, og geyma þad í gódu og sidsømu hjarta, og færa ávøxt med þolinmædi.

---

## Á sunnudaginn í føstu-inngáng.

Kollektan.

Drottinn gud! vér bidjum: heyr þú miskunsamlega

vorar bærir, og þegar þú hefir leyst oss af vorum synda-böndum, þá varðveittú oss frá öllum mótstæðilegum hlutum. Fyrir vorn drottinn, etc.

## Pistillinn.

(1. Pét. III, 18. — 22.).

Því Kristur hefir og einn sinni fyrir syndirnar liðið, réttlátur fyrir rángláta, upp á það hann færði oss guði: hann, sem var að sönnu deyddur eptir holdinu, en lífgaður eptir andanum; í hverjum hann er og burtfarinn, og prédikaði fyrir öndunum í fángelsinu, sem forðum ekki trúðu, þegar guðs þolgæði eitt sinn eptirbeið á dögum Nóa, þegar örkin var tilbúin, í hverri fáir, það er: átta sálir frelsuðust fyrir vatnið, hverju skírnin svarar, sem gjörir oss nú sáluhólpna, hver ekki er aflegging holdsins saurugleika, heldur sáttmáli góðrar samvizku við guð, fyrir upprisu Jesú Krists, hver að er til hægri handar guði, eptir það hann er uppstiginn til himins, svo að einglarnir og maktarvöldin og kraptarnir eru honum undirgefnir.

## Guðspjallið.

(Matth. III, 13. — 17.).

Í þann tíma. Jesús kom frá Galileu að Jórdan til Jóhannesar, til að skírast af

honum; en Jóhannes varnadi honum þess og sagdi: mér er þörf, ad eg skírist af þér, og þú kemur til mín. Jesús svaradi: láttu nú svo vera; því svo ber oss allt réttlæti upp ad fylla. Jóhannes lét þad þá eptir honum. En þegar Jesús var skírdur, og hann steig upp úr vatninu, þá lukust himnarnir upp yfir honum, en Jóhannes sá guds anda ofanstiga í dúfu líkingu, og yfir hann koma, og rödd af himni sagdi: þessi er sonur minn elskulegur, á hverjum eg hefi velþóknun.

---

# Á fyrsta sunnudag í föstu.

---

## Kollektan.

Heyr, herra gud! vér bidjum: líttu miskunsamlega yfir þitt fólk, og snú frá oss mildilega þinni reidi. Fyrir þinn eingetinn og elskulegan son, etc.

## Pistillinn.

(2. Kor. VI, 1. — 10.).

Elskulegir brædur! en vér áminnum ydur svo sem medhjálparar, ad þér hafid ekki medtekid guds nád til ónýtis; því hann segir: í

þægan tíma bænheyrda eg þig, og á degi hjálp-rædisins hjálpadi eg þér. Sjáid! nú er sá þægilegi tími, nú er dagur hjálprædisins. Látum oss eingum hneykslun í nokkru gefa, upp á þad àd embættid verdi ekki lastad; heldur audsýnum oss sjálfa í øllum hlutum eins og guds þénara í mikilli þolinmædi, í harmkvælum, í naudum, í þreingingum, í húdstrokum, í myrkvastofum, í upphlaupum, í ervidi, í vøkum, í føstum, í hreinlífi, í vísdómi, í bidlundar-gedi, í góðvild, í helgum anda; í falslausum kærleika, í sannleiksins ordi, í guds krapti, fyrir herklædi réttlætisins til hægri og vinstri handar; fyrir vegsemd og vansemd; fyrir last- og lof-yrdi; svo sem falsarar og þó sannordir; svo sem ókunnugir og þó kunnugir; líka svo sem þeir ed deya, og sjáid, þad vér lifum, svo sem hegndir, en ekki líflátnir; svo sem syrgendur, en þó jafnan gladir; svo sem voladir, en þó marga audnga gjørandi; líka sem þeir ed ekkert hafa. og hafa þó alla hluti.

## Gudspjallid.

(Matth. IV, 1: — 11.).

Jesús var leiddur af anda á eydimørku, svo hann yrdi freistadur af djøflinum. Þegar Jesús hafdi fastad fjørutín daga og fjørutín

nátta, húngradi hann. Freistarinn gekk þá til hans og sagdi: ef ad þú ert guds sonur, þá bjód þú, ad steinar þessir verdi ad braudum. Jesús svaradi: skrifad er: madurinn lifir ekki af einusaman braudi, heldur af sérhverju því ordi, sem framgeingur af guds munni. Þá tók djøfullinn hann med sér í þá heiløgu borg, setti hann upp á musteris bustina og sagdi til hans: ef þú ert guds sonur, þá fleyg þér hér ofan af; því skrifad er: ad gud muni bjóda einglum sínum, ad þeir beri þig á høndum, svo þú steytir ekki fót þinn vid steini. Jesús svaradi: enn aptur er skrifad: ekki skaltú freista drottins guds þíns. Djøfullinn flutti hann þá med sér upp á ofurhátt fjall, og sýndi hønum øll ríki veraldar og þeirra dýrd, og sagdi: allt þetta mun eg gefa þér, ef þú fellur fram, og tilbidur mig. Jesús svaradi: far á burt frá mér andskoti! því skrifad er: Drottinn gud þinn skaltú tilbidja, og hønum einum þjóna. Þá yfirgaf djøfullinn hann, en einglar af himnum komu til Jesú, og þjónudu hønum.

---

# Á annan sunnudag í föstu.

### Kollektan.

Heyr, herra guð! sem sér, að vér erum vanmegna til alls góðs; vér biðjum: varðveit þú oss hið ytra í öllum mótgángi, en hreinsa oss hið innra af vorum syndum og vondum hugrenningum. Fyrir þinn, etc.

### Pistillinn.

(1. Tessal. IV, 1. — 7.).

Elskulegir bræður! Vér biðjum yður og áminnum í drottni Jesú Kristi: þar eð þér hafið meðtekið af oss, hvernig þér skuluð gánga og guði þókknast, svo að þér æ meir og fullkomnari verðið: því þér vitið, hver boðorð vér höfum gefið yður, fyrir drottinn Jesúm; því vilji guðs er yðar helgan; að þér haldið yður frá frillulifi, og hver og einn yðar viti að eiga sitt ker í helgun heiðri, en ekki í girndarbruna, eins og Heiðingar, sem ekki þekkja guð. Eingiun niðurþrykki eða sviki sinn bróður í nokkri höndlun; því drottinn er sá, sem hefnir alls þessa, eins og vér höfum áður sagt og yður vottað; því guð hefir ekki kallað oss til óhreinleika, heldur til helgunar.

### Guðspjallið.

(Matth. XV, 21. — 18.).

Jesús gekk burt frá Genezaret, og fór í

landsbygdir Týrusar og Sídónis. En svo bar við, að kanversk kona gekk út af þeim sömu takmörkum, kalladi eptir honum og sagdi: Herra! sonur Davíðs, miskuna þú mér! dóttir mín kvelst illa af djöflinum. Jesús ansadi henni eingu ordi. Lærisveinarnir báðu hann og sögðu: láttú hana fara, fyrst hún kallar eptir oss. Jesús svaradi: eg er ekki sendur nema til fortapadra sauða af húsi Israels. En konan kom, tilbað hann og sagdi: Herra hjálpa þú mér! Jesús svaradi: það er ekki gott að taka brauðið barnanna, og kasta því fyrir hundana. Konan sagdi: satt er það, herra! en þó eta hundarnir af molum þeim, er detta af bordi drottna þeirra. Þá svaradi Jesús: ó kona! mikil er þín trú! verdi þér, eins og þú vilt. Á þeirri sömu stundu varð dóttir hennar heilbrigð.

---

# Á þriðja sunnudag í föstu.

---

### Kollektan.

Heyr, almáttugi guð! vér biðjum: lít þú á vorar auðmjúkar bænir, og útrétt hönd þinnar maktar oss til hlífðar. Fyrir drottinn vorn, etc.

## Pistillinn.

(Efes. v, 1. — 9.).

Elskulegir brædur! Svo verid nú guds eptirfylgjarar, eins og elskuleg børn, og gángid í ástseminni, eins og Kristur hefir oss elskad, og sig sjálfan útgefid fyrir oss, fórnfæring og offur gudi til sætleiks ilms. En frillulifi og allur óhreinleiki edur ágirnd nefnist ekki medal ydar, svo sem heiløgum hæfir. Ekki heldur ótérleg ord og fíflslegt hjal eda keskni, hvad ydur heyrir ekki, heldur miklu framar þakkargjørd. Þvi þad vitid þér, ad einginn frillulifismadur eda óhreinn eda ágjarn — hver ad er skurdgoda-dýrkari — hefir arftøku i guds og Krists riki. Látid eingan villa ydur med ónytsamlegum fortølum; því fyrir þad kemur reidi guds yfir børn vantrúinnar. Af því verid ekki þeirra hluttakendur, því þér vorud fordum myrkur, en nú erud þér ljós í drottni, gángid því eins og ljóssins børn — því ávørtur andans er allsháttud gódgirni, réttlæti og sannleikur. —

## Gudspjallid.

(Lúk. xi, 14. — 28.).

Jesús rak djøfnl út frá þeim, er mállaus var, og þá er djøfullinn var útfarinn,

taladi hinn mállausi, en fólkid furdadi þad. Nokkrir sögdu: .fyrir Belzebúb djöflahöldingja rekur hann djöfla út. Adrir freistudu Jesú, og leitudu eptir teikni af himni. Þegar Jesús sá þeirra hugrenningar, sagdi hann vid þá: hvert þad ríki, sem í sjálfu sér er sundurþykkt, mun eydast, og hvert hús yfir annad hrapa; sé audskotinn í sjálfum sér sundurþykkur, hvernig fær hans ríki þá stadist, fyrst þér segid mig fyrir Belzebúb útreka djöflana? En ef eg útrek þá fyrir hann, fyrir hvern útreka þá ydrir synir? þar fyrir skulu þeir og verda ydar dómendur; en ef eg rek út djöflana med guds fíngri, þá er guds ríki sannarlega til ydar komid. Þegar hinn sterki hervopnadi vardveitir sitt audyri, þá er allt í kyrrdum, sem hann á; en þegar annar yfirsterkari kemur og yfirvinnur, flettir þessi hinn öllum hertýgjum, sem hann treysti á, og sundurskiptir svo herfánginu. Hver, sem ekki er med mér, hann er á móti mér, og hver, sem ekki samansafnar med mér, sundurdreifir. Þegar óhreinn andi fer út af manninum, ráfar hann um þurra stadi, leitar ad hvíld, en finnur ekki; þá segir hann: eg vil hverfa aptur í hús mitt, hvadan eg fór

út; en þegar hann kemur, finnur hann það sópað og prýdt. Þá fer hann og tekur með sér sjö anda honum verri, og þegar þeir eru innkomnir, byggja þeir þar, verdur svo þess manns hið sídara verra hinu fyrra. En þegar Jesús hafði talað þetta, hóf kona nokkur af fólkinu upp raustu sína og sagði: sæll er sá kvidar, sem þig bar, og þau brjóst, er þú mylktir! Jesús svaradi: já, að vísu, en sælir eru og þeir, sem heyra guðs orð, og varðveita það!

---

# Á fjórða sunnudag í föstu.

## Kollektan.

Heyr, almáttugi guð! vér biðjum: veit þú oss, að vér, sem sökum vorra vondra verka maklega erum straffaðir, mættum einnig aptur að nýu, fyrir hjálp og fulltingi þinnar náðar, verða huggaðir. Fyrir þinn eingetinn, etc.

## Pistillinn.

(Gal. IV, 21. — 31.).

Elskulegir bræður! Segið mér þér, sem undir lögmálinu viljið vera: hafið þér ekki heyrt lögmálið? Því skrifað er: það Abraham hafði tvo sonu, einn af ambáttinni og annan af þeirri, sem var frjáls. En sá sem af ambáttinni var,

er fæddur eptir holdinu. En hann af þeirri frjálsu, er fyrir fyrirheitið fæddur, hvað eð hefir annarlega meiningu; því þessi eru þau tvö testamenta, eitt af fjallinu Sína, það er til þrælkunar fæðir, hvert að er Agar. Því að Agar er fjallið Sína í Arabiu, en andsvarar Jerúsalem þeirri, sem nú er, hver að er í þrælkun með sínum börnum. En sú Jerúsalem, sem þar fyrir ofan er, er sú hin frjálsa, hver að er móðir vor allra. Því skrifað er: vertú glöð, þú óbyrja! þú, sem ekki fæðir, brjózt fram, og kalla þú, sem ekki ert jóðsjúk, því hin einsamla hefir miklu fleiri börn, en sú, sem manninn hefir. En vér, kærir bræður! erum fyrirheitisins börn, eins og Isaak. Og líka sem í þann tíma að sá, sem eptir holdinu var fæddur, ofsókti þann, sem eptir andanum var fæddur, svo skeður það nú einnig. En — hvað segir ritningin? rek burt ambáttina og son hennar, því ambáttarsonurinn skal ekki erfa með syni hinnar, sem frjáls er. Svo erum vér nú, kærir bræður! ekki ambáttarinnar börn, heldur frjálsrar kvinnu.

## Guðspjallið.

(Jóh. VI, 1. — 15.).

Jesús fór yfir um sjáfar-hafið í Gali-

leu, sem liggur vid stadinn Tíberías, fylgdi honum þá mikill mannfjøldi eptir; því þeir sáu þau kraptaverk, sem hann gjørdi á þeim, er sjúkir voru. Jesús gekk upp á fjall nokkurt, og settist þar nidur med sínum lærisveinum; en þá var páskahátíd Gydínga nálæg. Jesús leit upp og sá, ad mikill mannfjøldi kom til hans. Hann sagdi þá vid Filippus, lærisvein sinn: hvar kaupum vér braud, svo þessir neyti? En þetta sagdi hann, til ad freista lærisveinsins, því Jesús vissi sjálfur, hvad hann vildi gjøra — Filippus svaradi honum: braud fyrir tvo hundrud peninga nægir þeim ekki, svo hver einn fái nokkud litid. Einn af lærisveinunum, sem hét Andrés, bródir Símonar Péturs, sagdi honum: úngmenni eitt er hér, sem hefir fimm byggbraud og tvo fiska; en — hvad skal þetta á medal svo margra? Jesús sagdi: látid mennina setjast nidur ad borda. Í þeim stad var gras mikid; settust þar nidur ad borda karlmenn ad tolu nær fimm þúsundum. Jesús tók braudin, þegar hann hafdi þakkir gjørt, fékk þau sínum lærisveinum, en þeir feingu þeim, er til bords høfdu setzt, líka af fiskunum, svo mikid sem hver vildi hafa. En þegar þeir voru

mettir, sagdi Jesús til lærisveina sinna: safnid saman þeim leyfum, sem af geingu, svo ad ekkert spillist. Þeir gjørdu svo, og fylltu upp tólf karfir med þessar leifar, af þeim fimm byggbraudum, hverjar vorn auk þess, sem þeir høfdu neytt. En þegar þessir menn sáu þetta teikn, sem Jesús gjørdi, søgdu þeir: þessi er sannarlega sá spámadur, sem í heiminn skal koma. En þegar Jesús formerkti, ad þeir mundu koma og handtaka hann, til ad gjøra hann ad konúngi, veik hann einsamall burt upp aptur á fjallid.

---

# Á Maríu bodunardag.

## Kollektan.

O drottinn! vér bidjum! innhell þú þinni nád í vor hjørtu, svo ad vér, sem medkennumst getnad Jesú Krists, þins sonar, fyrir eingilsins bodun, mættum, fyrir hans pínu og krossins kvøl, komast til dýrdarinnar upprisu. Fyrir þinn eingetinn og elskulegan son, etc.

## Pistillinn.

(Esai. VII, 10. — 15.).

Á þeim degi taladi drottinn enn framar til Achas, og sagdi: bid þér eins teikns af drottni gudi þínum, hvert heldur þad er nidri

í undirdjúpunum edur á hædum uppi. Achas sagdi: ekki skal eg þess bidja, og ekki skal eg freista drottins. Þá sagdi hann: heyrid nú þér, af húsi Davids; hvert er ydur þad of litid, ad þér gjörid mönnunum þvíngun, þad þér viljid og einnig mæda minn gud? fyrir þá skuld mun drottinn sjálfur gefa ydur eitt teikn. Sjá þú! jómfrú mun ólétt verda og son fæda, hann mun hún kalla Immanuel. Smjörs og hunángs mun hann neyta. svo hann kunni ad hafna því vonda, en útvelja hid góda.

## Gudspjallid.

(Lúk. 1, 26. — 37.)

Á hinum sjötta mánudi sendi gud eingilinn Gabriel í borg þá í Galileu, sem nefndist Nazaret, til þeirrar meyar, sem föstnud var þeim manni, er Jósep hét, af húsi Davíds, og heiti meyarinnar var María. Eingillinn gekk inn til hennar og sagdi: heil sértú, nádarfulla! drottinn er med þér! blessud ertú á medal kvenna! En þegar hún sá eingilinn, vard hún hrædd af hans ordum, og hugleiddi, hvílík væri þessi kvedja. Eingillinn sagdi: óttast þú ekki, María! því þú fannst nád hjá gudi. Sjá!

þú munt barn geta í kvidi þínum, og son fæda, og hans nafn skaltú nefna Jesús; hann mun mikill verda, og kallast sonur ens hæsta. Drottinn gud mun og gefa honum sæti Davíds, fødurs hans, og hann mun ríkja yfir Jakobs húsi ad eilífu; endir hans ríkis mun heldur einginn verda. María svaradi: hvernig má þetta ske, fyrst eg hefi eingan mann kennt? Eingillinn svaradi: heilagur andi mun koma yfir þig, og kraptur hins hæsta mun yfirskyggja þig, því hid heilaga, sem af þér mun fædast, skal nefnast sonur guds. Og sjá þú, ad Elizabet, frændkona þín, hefir og son getid í elli sinni, og þessi er sjøtti mánudur hennar, sem kølludvar óbyrja; því fyrir gudi er ekkert ord ómáttugt. María sagdi: sjá! eg er drottins þjónustukvinna, verdi mér eptir ordi þínu! En eingillinn veik á burt frá henni.

---

# Á pálma-sunnudag.

## Kollektan.

Heyr þú almáttugi, eilífi gud! þú, sem hefir látid þinn son taka manndóm, og audmýkja sig allt ad krossins dauda, oss til audmýktar dæmis eptir ad fylgja. Virztú ad auka og margfalda þínar gáfur med oss, svo ad

vér, sem treystum upp á hans pínu og dauda, mættum einnig hans upprisu hluttakarar verda. Fyrir hann sama þinn eingetinn son, etc.

## Pistillinn.

(Filipp. II, 5. — 11.).

Elskulegir brædur! Hver og einn sé svo sinnadar, sem Jesús Kristur var, hver, þó hann væri guds mynd, hélt hann þad þó ekki fyrir rán, gudi líkur ad vera, heldur minkadi hann sjálfan sig, tók á sig þjóns mynd, vard líkur ødrum mønnum, og ad hegdun fundinn, sem madur. Lítillækkadi sjálfan sig, og vard hlýdinn allt til daudans, já, allt til dauda á krossi. Þess vegna hefir gud upphafid hann, og gefid honum nafn þad, sem yfir øllum nøfnum er, svo ad í nafni Jesú skulu øll kné sig beygja, sem á himnum og á jørdu og undir jørdunni eru, og allar túngur skulu vidurkenna, ad Jesús Kristur sé drottinn, til dýrdar guds fødurs.

## Gudspjallid.

(Matth. XXI, 1. — 9.).

(stendur á fyrsta sunnudag í Adventu, sjá bls. 4.).

---

# Á skírdag.

## Kollektan.

Heyr, herra Jesú Kristi! þú, sem hefir látid eptir hjá oss þitt braud, ad eta, og þinn kaleik, ad drekka i minningu þinnar pínu. Vér bidjum þig, ad þú vildir afþvo allan óhreinleika af voru hjarta, en gefa oss þína nád, ad vér mættum medtaka verduglega þetta sakrament þíns sannarlega líkama og blóds, þú, sem lifir ag ríkir med gudi fødur og þeim heilaga anda, etc.

## Pistillinn.

(1. Kor. XI, 23. — 29.).

Gódir brædur! Því eg medtók þad af drottni, sem eg hefi ydur gefid, af því drottinn Jesús á þeirri nátt, er hann var svikinn, tók braudid, gjordi þakkir, braut þad og sagdi: takid og etid, þetta er minn líkami, sá fyrir ydur verdur brotinn: gjørid þad í mína minningu. Sømuleidis og einnig kaleikinn, eptir þad hann hafdi kvøldmáltídina etid, segjandi: þessi kaleikur er nýtt testament i minu blódi; gjørid þetta, svo opt, sem þér drekkid þar af i mína minningu; því svo opt sem þér etid af þessu braudi og drekkid af þessum kaleik, skulud þér kunngjøra dauda drottins, þángad til hann kemur. Hver hann etur nú af þessu braudi og drekkur af þessum kaleik drottins óverdugur, hann er

sekur við hold og blóð drottins. Hver maður prófi sig því sjálfur, og eti svo af þessu brauði og drekki af þessum kaleik; því hver, sem etur og drekkur óverðugur, hann etur og drekkur sjálfum sér dóm, gjörandi ekki greinarmun á drottins líkama.

## Guðspjallið.

(Lúk. XXII, 14. — 20.).

Þegar stundin kom, settist Jesús til borðs og hans tólf lærisveinar með honum. Hann sagði til þeirra: mig hefir af hjarta eptirlángað að eta þetta páskalamb með yður, áður en eg líð; því eg segi yður, að hér eptir mun eg ekki optar af því neyta, uns það fullkomnast í guðs ríki. Hann tók kaleikinn, gjörði þakkir og sagði: meðtakið hann og skiptið honum á milli yðar; því eg segi yður: eg mun ekki drekka af vínviðar-áverti, þar til guðs ríki kemur. Hann tók brauðið, gjörði þakkir, braut það, gaf þeim og sagði: þetta er minn líkami, sem fyrir yður verður gefinn; gjörið þetta í mína minningu. Hann tók einnig kaleikinn eptir kvöldmáltíðina og sagði: þessi kaleikur er nýtt testament í mínu blóði, hvert fyrir yður úthellist.

# A lánga frjádag.

Lesist pislarsagan i stad gudspjalls, sem sídar sést i þessari handbók.

---

# A páskadaginn.

## Kollektan.

Almáttugi, eilifi gud! sem oss þefir opnad og upplátid inngáng til ens eilífa lifs fyrir dýrdarfulla upprisu þins eingetins sonar, Jesú Krists. Vér bidjum, ad vor vilji og sú girnd til ens góda, sem þú sjálfur miskunsamlega hefir med oss uppbyrjad, mætti fá framgáng og aukast i øllum hlutum, eptir því sem þér velþóknast. Fyrir þann sama, etc.

## Pistillinn.

(1. Kor. v, 7. — 8.).

Kærir brædur! Fyrir því hreinsid i burt hid gamla súrdeigid, svo ad þér séud nýtt deig, eins og þér erud ósýrdir; því vort páskalamb er Kristur fyrir oss offradur. Fyrir því høldum hátídina, ekki i gømlu súrdeigi, ekki heldur i súrdeigi vondskunnar og illskunnar, heldur i sætu deigi, skirleiksins og sannleiksins.

## Gudspjallid.

(Mark. xvi, 1. — 7.).

Þegar þvottdagurinn var umlidinn, keyptu

þær María Magdalena, María Jakobs og Salóme dýrmæt smyrsli, ad þær kæmu og smyrdu Jesúm. Snemma morguns einn þvottdaganna komu þær til grafarinnar um sólaruppruna. Þær sögdu sín á milli: hver mun velta fyrir okkur steininum af grafarmunnanum? En þegar þær litu þángad, sáu þær, ad steinninn var afveltur, hver þó var nærsta mikill. Þær geingu ad gröfinni, og sáu úngmenni sitja til hægri hlidar, skrýddan hvítu sídu klædi, vid hvad þær urdu óttaslegnar. Ungmennid sagdi vid þær: ekki skulud þid hrædast! þid leitid ad hinum krossfesta Jesú af Nazaret; hann er upprisinn, en er ekki hér; sjáid þann stad, hvar hann var lagdur. Farid þid á burt, og segid hans lærisveinum einkum Pétri, ad hann muni gánga fyrir þeim í Galíleu; þar munu þeir sjá hann, eins og hann fyrri sagdi þeim.

---

# Á annan páskadag.

## Kollektan.

Heyr, herra gud! sem á páskahátídinni hefir gefid heiminum andlega lækningu. Vér bidjum: lát þína himnesku gáfu fullgjörast med oss, svo vér mættum fá full-

komlegt frelsi, og betra oss til eilifs lifs. Fyrir þann sama, etc.

## Pistillinn.

(Post. Gb. x, 34. — 48.).

Í þann tíma. Lauk Pétur upp sinn munn og sagdi: nú reyni eg í sannleika, ad ekki er manngreinar munur hjá gudi, heldur hver hann óttast á medal alls fólks og gjörir réttvisina, sá er honum þekkur, hvad hann kunngjört hefir sonum Israels, bodandi þeim frid fyrir Jesúm Krist — hver ad er drottinn allra. — Þér vitid, hvad sked er í øllu Gydingalandi og fyrst hófst upp í Galileu, eptir þá skírn sem Jóhannes prédikadi, þad gud hefdi smurt Jesús af Nazaret med heiløgum anda og krapti; hver ed um kríng gekk, og gjørdi gott og græddi alla þá, sem af djøflinum voru undirþrykktir, því gud var med honum. Og vér erum vottar alls þess, sem hann gjordi á Gydingalandi og í Jerúsalem, hvern þeir aflifudu og heingdu upp á tréd. Þann sama uppvakti gud á þridja degi, og lét hann opinberan verda, ekki øllu fólki, heldur oss, sem ádur vorum hans útvaldir vottar af gudi, vér, sem átum og drukkum med honum, eptir þad hann var upprisinn frá þeim daudu.

## Gudspjallid.

(Lúk. XXIV, 13. — 35.).

Tveir af Jesú lærisveinum geingu á hans upprisu-dag til kauptúns nokkurs, sem var frá Jerúsalem sextíu skeidar-rúm, og hét Emaus. Peir voru ad tala um pad sín á milli, sem vid hafdi borid. En pad skedi svo, pegar peir panninn ræddust vid og spurdust á, ad Jesús sjálfur nálægdist pá, og gekk jafnframt peim; en peir pekktu hann ekki. Hann sagdi vid pá: hvad er pad fyrir rædu, sem pid reikandi höndlid um ykkar á milli, og erud hryggvir af? Pá svaradi annar peirra, ad nafni Kleófas: ert pú svo ókunnugur í Jerúsalem, ad pú veizt ekki, hvad á pessum dögum par inni gjörzt hefir? Jesús spurdi: hvad er pad? Kleófas svaradi: pad, ad Jesús af Nazaret, hver ed var spádómsmadur, máttugur í verkum og ordum fyrir gudi og öllu fólki, var af vorum höfudprestum og hofdingjum seldur í fyrirdæmingu daudans og krossfestur; en vér vonudum, ad hann mundi endurleysa Israel; er nú sá pridji dagur í dag, sídan petta skedi. Nokkrar kvinnur hafa og skelft okkur, sem árla höfdu hjá gröfinni verid, en fundu ekki hans líkama, komu og kvadust

séd hafa eingil, sem sagdi hann lifa. Nokkrir af okkur geingu til grafarinnar, og fundu, eins og konurnar høfdu sagt, en Jesúm sáu þær ekki. Jesús svaradi: ó! þér heimskir og tregir í hjarta ad trúa því, sem spámennirnir hafa talad! hlaut Kristur ekki þetta ad lída, og inngánga svo í sína dýrd? Hann tók til frá Móses og øll-um spámønnum, og lagdi út fyrir þeim allar þær ritníngar, sem af honum voru. En þegar þeir tóku ad nálægjast kauptúnid, sem þeir geingu til, lézt Jesús vilja leingra gánga. Þeir neyddu hann og søgdu: vertú hjá okkur, herra! því ad kvølda tekur, og á daginn lídur. Hann gekk inn og var hjá þeim. En svo skedi, þegar hann settist med þeim til bords, ad hann tók braudid, blessadi þad og braut, og rétti ad þeim, þá opnudust þeirra augu, svo þeir þekktu hann, en hann hvarf frá þeim. Þeir søgdu þá sín á milli: brann ekki okkar hjarta í okk-ur, þegar hann taladi vid okkur á veginum, og útlagdi fyrir okkur ritníngarnar? Þeir stódu upp á sømu stundu, og snéru aptur til Jerúsalem, hvar þeir fundu þá ellefu saman-safnada og þá, sem med þeim voru, hverjir ed søgdu: Jesús er sannarlega upprisinn, og hefir

byrzt Símoni. En hinir sögdu frá, hvad gjörzt hefdi á veginum, og ad þeir hefdu þekkt hann, í því hann braut braudid.

---

# Á fyrsta sunnudag eptir páska.

---

## Kollektan.

Almáttugi, eilífi gud! vér bidjum: veit þú oss, ad vér, sem haldid höfum þessa páskahátid, mættum fyrir þína nád komast frá syndarinnar þrældómi til þess andlega frelsis, og med réttri trú og kristilegum kærleika þjóna Jesú Kristi, þínum elskulega syni, vorum herra, sem med þér, etc.

## Pistillinn.

(1. Jóh. v, 4. — 9.).

Kærir brædur! Allt hvad af gudi er fædt, þad yfirvinnur heiminn, og vor trú er yfirvinningin, hver veröldina hefir yfirunnid, en hver er hann, sem veröldina yfirvinnur nema einúngis sá, er trúir, ad Jesús sé guds sonur? Þessi er hann, sem kemur fyrir vatn og blód, Jesús Kristur; ekki í vatni einúngis, heldur í vatni og blódi. Andinn er sá, sem vitni ber, ad andinn sé sannleikur; því þrír eru, sem vitnisburdinn gefa á himni: fadirinn, ordid og heilagur andi, og þessir þrír eru eitt.

Þrír eru og, sem vitnisburdinn gefa á jørdu: andinn, vatnid og blódid, og þessir þrír eru eitt. Ef vér medtøkum mannanna vitnisburd, þá er guds vitnisburdur meiri; því guds vitnisburdur er sá, þad hann hefir vitnad af syni sínum. Hver hann trúir á guds son, sá hefir þenna vitnisburd í sér. Hver, sem ekki trúir gudi, hann hefir gjørt hann ad lygara, af því hann trúdi ekki á þann vitnisburd, sem gud vitnadi um son sinn. Þessi er sá vitnisburdur, ad gud hefir oss þad eilífa lífid gefid, og þetta líf er í hans syni. Hver sem hefir soninn, sá hefir lífid, hver sem ekki hefir guds son, sá hefir ekki lífid.

## Gudspjallid.

(Jóh. xx, 19. — 31.).

Ad kvøldi þess sama þvottdags, þegar lærisveinarnir voru samankomnir ad luktum dyrum, søkum hrædslu vid Gydinga, kom Jesús þar, stód í midid og sagdi vid þá: fridur sé med ydur; en þegar hann hafdi þetta sagt, sýndi hann þeim hendurnar og sína sídu. Lærisveinarnir gløddust vid, er þeir sáu herrann. Jesús sagdi þá enn aptur til þeirra: fridur sé med ydur! Eins og fadirinn sendi mig, svo

sendi eg ydur. En sem hann taladi þetta, blés hann á þá og sagdi: medtakid þér heilagan anda! hverjum helzt þér fyrirgefid syndirnar, þeim eru þær fyrirgefnar, en hverjum sem þér apturhaldid þær, þá eru þeim þær apturhaldnar. En Tómas, einn af þeim tólf, sem kalladist Tvíburi, var ekki med þeim, þegar Jesús kom. Hinir lærisveinarnir søgdu honum: vér høfum séd herrann. Tómas svaradi: nema eg sjái naglaførin i hans høndum, láti fingur minn i naglaførin, og leggi hønd mina i hans sídu, þá trúi eg þvi ekki. Eptir átta daga, þegar lærisveinarnir voru þar inni, og Tómas med þeim, kom Jesús — ad lyktum dyrum — stód mitt á medal þeirra og sagdi: fridur sé med ydur! sídan sagdi hann til Tómasar: réttú fingur þinn hingad, og skoda hendur minar! og lyptu upp hendi þinni, og legg hana á sídu mina! vertú ekki vantrúadur, heldur trúadur, Támas sagdi til hans: Drottinn minn og gud minn! Jesús svaradi: af þvi þú sást mig, Tómas! trúdir þú; en sælir eru þeir, sem ekki sjá, en trúa þó! Mørg fleiri teikn gjørdi Jesús i augsýn sinna lærisveina, hverra hér er ekki getid; en þetta er ritad, svo ad þér trú-

id: ad Jesús sé Kristur, sonur guds, og þér svo trúadir hefdud lífid í hans nafni.

## Á annan sunnudag eptir páska.

### Kollektan.

Heyr, almáttugi, eilífi gud! sem med þíns sonar lægingu hefir uppreist þennan heim, sem fyrir syndina var nidursleginn og fallinn. Vér bidjum: gef þínum réttrúudum eilífa gledi, ad líka sem þú hefir frelst oss frá falli eilífs dauda, ad vér mættum svo njóta eilífrar gledi. Fyrir þann sama, þinn eingetinn og elskulegan son, etc.

### Pistillinn.
(1. Pét. II, 21. — 25.).

Elskulegir brædur! Þar til erud þér kalladir, med því Kristur hefir einnig lidid fyrir oss og oss til eptirdæmis látid, ad þér skyldud eptirfylgja hans fótsporum, hver ed enga synd gjördi, og ekki heldur eru nein svik fundin í hans munni; hver ed ekki lastmælti, þá honum var lastmælt; ekki ógnadi, þá hann leid, en ofurgaf þad honum, sem rétt dæmir. Sá er sjálfur hefir vorar syndir borid á sínum líkama upp á trénu, svo ad vér í frá syndunum daudir lifdum réttlætinu, fyrir hvers benjar þér

erud heilbrigdir vordnir; því þér vorud eins og villuráfandi saudir, en nú erud þér umventir til hirdirs og biskups ydvarra sálna.

Gudspjallid.
(Jóh. x, 11. — 16.).

Jesús sagdi til Gydínganna: eg er gódur hirdir! gódur hirdir gefur sitt líf út fyrir sína saudi; en leigulidinn og hann, sem ekki er hirdir, hvers saudirnir eru ekki eiginlegir, þegar hann sér úlfinn koma, þá yfirgefur hann saudina, og flýr á burt; en úlfurinn grípur saudina, og sundurdreifir þeim, en leigulidinn flýr, af því hann er leíguliði, og gætir ekki saudanna. Eg er gódur hirdir, eg þekki mína saudi, og eg þekkist af mínum, eins og fadirinn þekkir mig, og eg þekki fodurinn; eg legg og mitt líf út fyrir mína saudi. Eg hefi líka adra saudi, sem ekki eru af þessu saudahúsi, þá byrjar mér og hér til ad leida, og þeir munu heyra mína roddu; þar mun þá verda eitt saudahús og einn hirdir.

---

# Á þridja sunnudag eptir páska.

Kollektan.

Heyr, almáttugi, eilífi gud! þú sem tér þitt sannleiks

ljós fyrir þeim, sem viltir fara, svo þeir mættu komast aptur á sannleiksins veg. Vér bidjum, ad þú viljir gefa öllum, sem reiknast kristnir, ad fyrirlíta alla hluti, sem eru á móti kristilegu nafni, en eptir ad fylgja þeim hlutum, sem þad heilaga nafn prýda í augliti drottins. Fyrir þinn, etc.

## Pistillinn.

(1. Pét. II, 11. — 20.).

Allra kærustu! Eg bid ydur líka sem framandi og vegfarendur, ad þér haldid ydur frá holdlegum girndum, hverjar í gegn sálunni strída. Hafid góda umgeingni á medal heidinna þjóda, svo ad þeir, sem hallmæla ydur eins og illvirkjum, sjái ydar gódverk, og dýrki gud á vitjunardegi. Þar fyrir verid undirgefnir allri mannlegri skikkun fyrir herrans sakir, sé þad konúnginum, svo sem hinum ypparsta, edur landstjórnurunum, svo sem af honum útsendum til hefndar yfir illvirkjana, en gódum til lofs; því þad er vilji guds, ad þér med gódum verkum nidurþaggid óviturleik heimskra manna; svo sem frelsingjar, en ekki svo sem hefdud þér frelsid illskunni til yfirhilmingar, heldur eins og guds þrælar. Veitid virdingu hverjum manni; elskid brædurnar; óttist Gud; heidrid konúnginn. Þér, þjónustufólk! verid herrunum undirgefnir med allri óttasemi, ekki einúngis gódum og spakferdugum, heldur einnig sérlundudum; því þad er nád, ef

nokkur fyrir samvizkunnar sakir til guds, þolir hid illa, og umlídur hid óretta. Því hver hrósan er það, ef þér fyrir misgjordanna sakir hnefahøgg lídid? en þegar þér umlídid og þolid ráungindi fyrir velgjordanna sakir, það er nád hjá gudi.

## Gudspjallid.

(Jóh. XVI, 16. — 23.)

Jesús sagdi til sinna lærisveina: innan litils tíma munud þér ekki sjá mig, og þá enn innan litils tíma munud þér sjá mig aptur, því eg fer til fodursins. Þá sogdu nokkrir af lærisveinunum sín á milli: hvad er það hann segir oss: innan litils tíma munud þér ekki sjá mig, og þá enn innan litils tíma munud þér sjá mig aptur, því eg fer til fodursins? Hvad er það hann segir oss: innan litils tíma? vér vitum ekki, hvad hann segir. En Jesús, sem formerkti, ad þeir vildu spyrja hann um þetta, sagdi til þeirra: þér spyrjid ad því ydar á milli, er eg sagdi ydur: innan litils tima munud þér ekki sjá mig, og þá innan litils tima munud þér sjá mig aptur. Sannlega segi eg ydur: þér munud sýta og gráta, en heimurinn mun fagna; þér munud hryggvir verda, en ydar hrygd skal snúast i fognud. Konan, þegar hún skal fæda,

hefir hrygd, af því hennar stund er komin; en þegar hún hefir barnid fætt, minnist hún ekki þess harmkvælis fyrir fagnadar sakir, af því ad madur er í heiminn borinn. Þér hafid nú ad sønnu hrygd, en eg vil sjá ydur aptur; þá skal ydar hjarta fagna, og þann føgnud skal einginn frá ydur taka; á þeim tíma munud þér mig einskis spyrja.

---

# Á bænadaginn.

## Kollektan.

O! nádugi gud! miskunsami kæri fadir! hjá hverjum ad er mikil fyrirgefning, og gjarnan vilt miskuna þig yfir alla þá, sem gjøra sanna ydrun fyrir syndina. Vér bidjum þig hjartanlega, allra kærasti gódi fadir! forlát, forlát oss allar vorar syndir, og gef oss þína nád, ad vér allir, sem ákøllum þitt nafn, mættum í dag og alla tíma víkja frá øllu ránglæti og allri synd, og af øllu voru hjarta svo umvendast til þín, ad vér daglega fyrir krapt þíns anda, finnumst réttskikkadir í trúnni til þín og hlýdninni vid þig, ætíd uppfyltir med réttum idrunar og umvendunar ávøxtum, til þess ad vér í réttri trú og trausti vitjum þín og ákøllum þig, og vér mættum finna þig, sem miskunsaman gud og fødur, og í allri vorri naudsyn vera vissir um þína nádugu hjálp og blessun, bædi fyrir líf og sálu, uns vér um sídir, fyrir þína nád, mættum verda eilíflega sáluhólpnir.

Fyrir þinn eingetinn og elskulegan son, etc.

### Pistillinn.

(Esaj. LV, 6. — 7.).

Leitid drottins, á medan hann er ad finna, kallid á hann, á medan hann er nálægur. Sá hinn ógudlegi láti af sínum vegi og illvirkinn af sinni hugsun, og snúi sér til drottins, þá mun hann miskunna honum, og til guds vors, því ad í hjá honum er mikil fyrirgefning,

### Gudspjallid.

(Matth. III, 8. — 10.).

Svo gjörid nú verdugan ávöxt idraninni, og þeinkid ekki, ad þér vildud segja med sjálfum ydur: Abraham hofum vér fyrir fødur. Eg segi ydur: máttugur er gud ad uppvekja Abraham sonu af steinum þessum. Af því nú er øxin allareidu sett til rótar trjánna; því mun hvert þad tré, sem ekki gjörir gódan ávöxt, upphøggvast og í eld kastast.

---

## A fjórda sunnudag eptir páska.

---

### Kollektan.

Heyr, almáttugi, eilífi gud! sem lætur alla þína réttkristna vera samþykka í huga og vilja. Vér bidjum: lát þitt fólk þad eina vilja, og þad eina elska, sem þú

býdur, og þad eina girnast, sem þú lofar, svo ad vor hjørtu, sem eru stødd i fallvaltri veru þessa heims, mættu vera stadføst, þar sem er sú sanna gledi og føgnudur. Fyrir þann, etc.

## Pistillinn.
(Jak. I, 16. — 21.).

Elskulegir brædur! Øll góð gjøf og øll fullkomin gjøf er ad ofan frá fødur ljósanna, hjá hverjum ekki er umbreyting né umbreytíngar skuggi; því hann hefir getid oss eptir sinni vild fyrir sannleiksins ord, ad vér séum frumburdur hans skepnu. Fyrir því, brædur minir elskulegir! sé hver madur fljótur til ad heyra, en tregur til ad tala, og til reidi tregur; því mannsins reidi verkar ekki guds réttlæti. Þar fyrir afleggid allan óhreinleika og nægd illskunnar, en medtakid ordid med hógværd, þad i ydur er gródursett, hvad ydar sálir kann hólpnar ad gjøra.

## Gudspjallid.
(Jóh. XVI. 5. — 15.).

Jesús sagdi til sinna lærisveina: nú fer eg til hans, sem mig sendi, og einginn af ydur spyr mig ad: hvert fer þú? heldur af því ad eg taladi þetta til ydar, þá uppfylltust ydar hjørtu af hrygd; en eg segi ydur þad satt, ad

það batar ydur, ad eg fari hédan; því fari eg ekki á burt, kemur ekki huggarinn til ydar; en ef eg fer hédan, mun eg senda hann til ydar. Þegar hann kemur, mun hann straffa heiminn um syndina, um réttlætid og um dóminn; um syndina, søkum þess ad þeir trúa ekki á mig; um réttlætid, af því ad eg fer til fødursins, og eptir það sjáid þér mig ekki; en um dóminn, því ad høfdingi þessa heims er dæmdur. Eg hefi enn þá margt ad segja ydur, en þér kunnid ekki ad sinni bera það. En þegar sá sannleiksins andi kemur, þá mun hann leida ydur í allan sannleika; því hann mun ekki tala af sjálfum sér, heldur hvad hann heyrdi, mun hann tala, og hvad eptirkomandi er, það mun hann kunngjøra ydur; hann sami mun og gjøra mig dýrdlegan, því af minu mun hann það taka og kunngjøra ydur. Allt hvad fadirinn hefir, það er mitt; þess vegna sagdi eg ydur: af minu mun hann það taka, og kunngjøra ydur.

---

## Á fimmta sunnudag eptir páska.

---

### Kollektan.

Heyr, almáttugi eilífi gud! sem ert upphaf til alls

góðs, og af hverjum allir góðir hlutir koma; veittu þínum auðmjúkum kristnum mønnum, að vér mættum, fyrir þinn innblástur, hugsa þá eina hluti, sem réttir eru, og það sama að fylla og framkvæma með verkunum. Fyrir þinn etc.

## Pistillinn.

(Jak. 1, 22. — 27.).

Kærir bræður! Verið gjørendur orðsins, en ekki einúngis tilheyrendur, hvar með þér sjálfa yður á tálar dragið. Því, ef nokkur er orðsins tilheyrari en ekki gjørari, sá er líkur þeim manni, sem fyrir sér virðir meðfædda ásjónu sína í spegli; því eptir það hann hafði skoðað sig, gekk hann burt, og gleymdi jafnsnart, hvernig hans yfirlitur var. En sá sem skygnist inn í hið algjørða løgmál frelsisins, og staðnæmist þar inni, og er ekki forgleymanlegur heyrari, heldur gjørníngsins gjørari, sá sami mun hjálplegur í sínu verki. Ef nokkur á meðal yðar lætur sér þykja, að hann sé guðrækinn, en temur ekki túngu sína, heldur villir sitt hjarta, þess guðrækni er hégómi. En skær og óflekkuð guðrækni fyrir guði føður er þessi: að vitja ekkna og føðurlausra í þeirra hørmúngum, og sig sjálfan að geyma flekklausan frá heimi þessum.

## Guðspjallið.

(Jóh. XVI, 23. — 30.).

Jesús sagði til sinna lærisveina: sannlega, sannlega segi eg yður: hvers þér biðjið föðurinn í mínu nafni, það mun hann gefa yður. Híngað til hafið þér einskis beðið í mínu nafni. Biðjið, þá munuð þér meðtaka, svo yðar fögnuður sé fullkomlegur. Þetta hefi eg talað í orðskviðum til yðar: en sá tími kemur, að eg tala ekki lengur í orðskviðum til yðar, heldur mun eg kunngjöra yður opinberlega af mínum föður; á þeim degi munuð þér og biðja í mínu nafni. Ekki segi eg yður, að eg muni biðja föðurinn fyrir yður, því faðirinn sjálfur elskar yður, af því þér elskið mig og trúið, að eg sé af guði útgeinginn. Eg er af föðurnum útgeinginn og kominn í þennan heim; eg yfirgef og þennan heim, og fer til föðursins. Þá sögðu lærisveinarnir: sjá! nú talar þú berlega og mælir einga orðskviðu; nú vitum vér, að þú veizt alla hluti, og þarft ekki, að nokkur spyrji þig; þess vegna trúum vér, að þú sért af guði útgeinginn.

---

# Á uppstigningardag.

## Kollektan.

Heyr, almáttugi, eilífi guð! vér biðjum: veittú oss, að vér, sem trúum, að þinn eingetinn sonur, Jesús Kristur, sé uppstiginn til himins, sitji til þinnar hægri handar og sé vor árnaðarmaður og verndari, að vér einnig mættum hjá honum búa og vera í voru hjarta og hugskoti. Fyrir hann sama, etc.

## Pistillinn.

(Post. Gb. 1, 1. — 11.)

Hinn fyrra bókmála gjörða eg að sönnu, um allt það, ó Teofile! sem Jesús hóf upp að gjöra og kenna, allt til þess dags er hann varð uppnuminn, eptir það hann hafði fyrir heilagan anda, kunngjört postulunum, hverja hann hafði og útvalið, hverjum hann tjáði sig lifandi eptir písl sína, með marghátturðum rök-semdum, lét þá sjá sig um fjörutíu daga, og talaði við þá um guðs ríki. En þegar hann hafði samansafnað þeim, bauð hann þeim, að þeir skyldu ekki fara út af Jerúsalem, heldur bíða þar eptir fyrirheiti föðursins, hvert þér — sagði hann — hafið af mér heyrt. Því sannlega skírði Jóhannes með vatni, en þér skuluð með heilögum anda skírðir verða, ekki lángt eptir þessa daga. En þeir, sem þar til samans voru, spurðu hann að: herra! viltú nú

á þessum tíma upprétta Israels ríki! Hann sagdi til þeirra: það er ekki ydvart ad vita stundir eda hentugleika tímanna, hverja fadirinn setti í sjálfs síns valdi, heldur munud þér ødlast krapt heilags anda, þess er yfir ydur mun koma; þér skulud og mínir vottar vera til Jerúsalem og í øllu Gydingalandi og Samaríu, og allt til ens yzta jardar-enda. Þá er hann hafdi þetta sagt, vard hann þeim ásjáendum uppnuminn, og skýid tók hann í burt frá þeirra augum. En þá er þeir horfdu á eptir honum uppstiganda til himins, sjá! ad tveir menn stódu hjá þeim í hvítum klædum, sem søgdu: þér menn af Galíleu! til hvers standid þér hér og horfid upp í himininn? þessi Jesús, sem uppnuminn er frá ydur til himins, mun svo koma, eins og þér nú sáud hann til himins faranda.

## Gudspjallid.

(Mark. XVI, 14. — 20.)

En seinast, þegar þeir ellefu lærisveinar sátu til bords, opinberadi Jesús sig, og ávítadi þeirra vantrú og hjartans hardúd, ad þeir hefdu ekki trúad þeim, sem hann høfdu séd upprisinn. Hann sagdi til þeirra: farid út um allan heiminn, og prédikid evangelíum allri skepnu.

Hver, sem trúir og verdur skírdur, mun hólpinn verda, en hver ekki trúir, mun verda fordæmdur. Teiknin, er þeim munu fylgja, sem trúa, eru þessi: í minn nafni skulu þeir djøfla útreka, nýar túngur tala, høggorma upptaka, drekki þeir nokkud banvænlegt, þá skal þad ekki granda þeim, leggi þeir hendur yfir sjúka, mun þeim batna. En eptir þad drottinn Jesús hafdi talad vid þá, vard hann uppnuminn til himins, og settist til hægri handar gudi. En lærisveinarnir geingu út, og prédikudu allstadar, drottni samverkanda og ordíd styrkjanda med eptirfylgjandi teiknum.

---

# Á sjøtta sunnudag eptir páska.

### Kollektan.

Heyr, þú almáttugi, eilífi gud! láttú oss jafnan hafa gudrækilegan vilja til þín, og þjóna þinu veldi med hreinu hjarta. Fyrir þinn eingetinn og elskulegan son, etc.

### Pistillinn.

(1. Pét. IV, 7. — 11.).

Elskulegir brædur! Fyrir því verid forsjálir og árvakrir í bæna ákallinu, en umfram alla hluti, þá hafid brennandi kærleika innbyrdis;

því kærleikurinn hylur fjølda syndanna. Verið gestrisnir innbyrðis án møglunar. Hver eptir þeirri náð, sem hann hefir ødlazt, þá sé hann øðrum þjónandi, eins og góðir umboðsmenn margvíslegrar guðs náðar. Ef nokkur talar, þá tali hann það eins og guðs orð. Ef nokkur þjónar, hann þjóni eptir þeim krapti, sem guð gefur, svo í øllum hlutum verði guð dýrkaður fyrir Jesúm Krist, hverjum að er dýrð og vald um aldir alda, Amen!

### Guðspjallið.

(Jóh. xv, 26. — 27.; xvi, 1. — 4.).

Jesús sagði við sína lærisveina: þegar huggarinn kemur, hvern eg mun senda yður frá mínum føður, sem er sannleiksins andi, hver af føðurnum framgeingur, hann mun bera vitni af mér, og þér munuð mér vitni bera, því þér hafið frá upphafi hjá mér verið. En þetta hefi eg því talað til yðar, svo þér hneykslizt ekki; því þeir munu forboða yður, og sá tími kemur, að hver, sem líflætur yður, meinar sig að gjøra guði þægt verk. Þetta gjøra þeir yður, af því þeir þekkja hvorki føðurinn né mig; en þetta tala eg því til yðar, að þegar sú stund kemur, að þér minnizt þess, að eg sagði yður

þad; en þetta sagdi eg ydur ekki i upphafi, af því eg var þá hjá ydur.

---

# Á hvítasunnudag.

## Kollektan.

Heyr þú almáttugi, eilífi gud! sem á þessum degi upplýstir hjörtu þinna heilögu postula og annara rétttrúadra, med kenningu og upplýsingu hins heilaga anda. Vér bidjum: gef þú oss ad skilja í þeim sama anda þá hluti, sem réttilegir eru, og ætíd ad gledjast af hans huggun. Fyrir þinn, etc.

## Pistillinn.

(Post. Gb. II, 1. — 11.).

Þá ed fullkomnadist hvítasunnudagurinn, voru postularnir allir med einum huga í þeim sama stad. Þar vard þá skyndilega þytur af himni, eins og mikils tilkomandi vindar, sem fyllti allt húsid, er þeir sátu inn í. Þeir sáu sundurskildar túngur, álíka sem eldsloga, sem setti sig yfir sérhvern þeirra, og þeir urdu allir fullir af heilögum anda, og tóku til ad tala annarlegum túngum, eptir því sem heilagur andi gaf þeim út ad tala. En þar voru Gydingar byggjandi í Jerúsalem, gudhræddir menn, af allrahanda fólki, sem er undir himninum. En

er þessi rødd skedi, kom mannfjøldinn til samans og hnikkti þeim vid, þegar hver og einn heyrdi þá tala sitt túngumál; en þá stansadi, og féllu i undrun og søgdu: eru þessir ekki allir, sem tala, af Galilen? hverninn heyrum vér nú þá talandi vort túngumál, þar vér erum inni fæddir? Parthi, Medi og Elamitæ og þeir, sem búa í Mesópótamin, Júdeu, Kappadosíu, Pontó og Asíu, Frygin og Pamfilín, á Egyptalandi og i landsálfum Lydíu, hver ad er nærri Cyreníu og útlendir af Róm; Gydingar og þeir, sem Gydingar hafa nýgjorzt, Kretar og af Arabíu, vér heyrum þá talandi vorum túngum guds stórmerki.

## Gudspjallid.

(Jóh. XIV, 23. — 31.).

Jesús sagdi vid sína lærisveina: hver, sem elskar mig, hann mun vardveita mín ord; fadir minn mun elska hann, til hans munum vid koma og hjá honum vistarveru gjora. En hver, sem ekki elskar mig, hann vardveitir ekki mín ord. Pad ord, sem þér af mér heyrdud, er ekki mitt, heldur fødursins, er mig sendi. Þetta taladi eg fyrir ydur, á medan eg var hjá ydur; en huggarinn, sem er hinn heilagi

andi, þann er fadir minn sendir í mínu nafni, mun kenna ydur alla hluti, og minna ydur á allt þad, sem eg sagdi ydur. Minn frid læt eg hjá ydur, minn frid gef eg ydur; ekki gef eg eins og heimurinn gefur. Ydar hjørtu hrædist hvorki né skelfist; þér heyrdud þad eg sagdi ydur: eg fer á burt, og kem aptur til ydar. Ef þér elskid mig, þá gleddust þér vid þad, ad eg sagdi ydur: eg fer til fødursins; því fadirinn er mér meiri. Nú sagdi eg ydur þad ádur, fyrri en þad sker, svo þér trydud því, þegar þad er sked. Hédan af mun eg ekki tala margt vid ydur, því þessa heims høfdíngi kemur, og med mig hefur hann ekkert; heldur svo ad heimurinn þekki þad, ad eg elska fødurinn, og ad eg gjøri, eins og fadirinn hefir mér bodid.

---

# Á annan hvítasunnudag.

## Kollektan.

Heyr, herra gud! sem gafst þínum postulum heilagan anda. Gef þinni heilagri kristni krapt þíns heilaga anda, sem hún umbidur, og gef þeim frid í hjartad, hverja þú kristna gjørt hefir med þínum heilaga anda. Fyrir þinn, etc.

## Pistillinn.

(Post. Gb. x, 42. — 58.).

Á þeim dögum upplauk Pétur munni sínum, og sagdi til Kornelíusar og þeirra, sem voru hjá honum: drottinn baud oss ad prédika fyrir fólkinu og vitni um bera, ad hann væri sá, sem skikkadur er af gudi dómari lifendra og daudra. Af þessum bera allir spámenn vitni, ad fyrir hans nafn skulu þeir, sem á hann trúa, medtaka syndanna fyrirgefníngu. Þegar Pétur taladi þessum ordum, féll heilagur andi yfir þá alla, sem ordid heyrdu, og þeir trúadir, sem af umskurninni voru og med Pétri höfdu komid, undrudust þad, ad heilags anda gjöf væri úthellt yfir heidna menn, því þeir heyrdu þá túngur tala og vegsama gud. Þá svaradi Pétur: hver má fyrirbjóda þeim vatnid, ad þeir skírist ekki, sem medtekid hafa heilagan anda eins og vér, og hann baud ad skíra þá í nafni drottins.

## Gudspjallid.

(Jóh. III, 16. — 21.).

Jesús sagdi vid Nikódemus: svo elskadi gud heiminn, ad hann gaf út sinn eingetinn son, til þess ad allir þeir, sem á hann trúa, fyrirfarist ekki, heldur hafi eilíft líf; því ekki sendi

gud sinn son í heiminn, til ad fyrirdæma hann, heldur ad heimurinn frelsadist fyrir hann. Hver á soninn trúir fyrirdæmist ekki, en hver, sem ekki trúir, er nú þegar dæmdur, af því hann trúdi ekki á nafn eingetins guds sonar. En þessi er dómurinn, ad ljósid kom í heiminn, en menn-irnir elskudu meir myrkrid en ljósid, því þeirra verk voru vond. Hver, sem illa gjørir, hann hatar ljósid, hann kemur og ekki til ljóssins, svo ekki straffist hans verk. En hver, sem sann-leikann elskar, hann kemur til ljóssins, svo hans gjørdir verdi kunnar, því þær eru í gudi gjørdar.

---

## Á trinitatis hátíd.

### Kollektan.

Almáttugi eilífi gud! sem hefir kennt oss þjónustu-mønnum þínum, í sannri játningu trúarinnar, ad med-kenna eilífa dýrd þrenningarinnar, og í makt þíns velds-is ad tilbidja eininguna. Vér bidjum, ad vér mættum í þeirri sømu stødugu trú, frá øllu því oss er á móti vardveitast. Fyrir Jesúm Krist, etc.

### Pistillinn.

(Róm. XI, 33. — 36.).

Gódir brædur! Ó! hvílík dýpt audæfanna, spekinnar og guds vizku. Hversu óransakan-

legir eru hans dómar, og hversu ófinnandi eru hans vegir? því hver hefir þekkt sinni drottins? eda hver hefir hans rádgjafi verid? eda hver hefir honum fyrri gefid, svo ad honum mætti þad verda endurgoldid? því ad af honum og fyrir hann og í honum eru allir hlutir. Honum se dýrd um aldir, Amen!

## Gudspjallid.

(Jóh. III, 1. — 15.).

Madur nokkur af Fariseunum, Nikódemus ad nafni, einn af høfdíngjum Gydinga, kom til Jesú á náttarþeli, og sagdi til hans: Rabbí! vér vitum, ad þú ert lærimeistari kominn af gudi, því einginn getur gjørt þau teikn, sem þú gjørir, nema gud sé med honum. Jesús svaradi: sannlega, sannlega segi eg þér, ad einginn nema hann, sem fædist ad nýu, fær ad sjá guds ríki. Nikódemus spurdi: hverninn fær madurinn endurfædst, þegar hann er gamall? hvort getur hann hvorfid aptur í kvid módur sinnar, og fædzt svo ad nýu? Jesús svaradi: sannlega, sannlega segi eg þér, nema þad nokkur verdi endurfæddur út af vatni og anda, þá kann hann ekki inn ad gánga í guds ríki. Hvad af holdi er fædt, þad er hold; en hvad af and-

anum er fædt, það er andi. Undrast þú ekki það, er eg sagði þér, að ydur byrjar að fæðast að nýu; vindurinn blæs, hvar sem hann vill, og þú heyrir hans þyt, en ekki veiztú, hvadan hann kemur, eða hvert hann fer; svo er sérhver af andanum fæddur. Nikódemus sagði til hans: hvernig má þetta ske? Jesús svaraði: ertú meistari í Israel, og veizt ekki þetta? sannlega, sannlega segi eg þér, að vér segjum, það vér vitum, og vitnum, hvað vér séð höfum, og vorn vitnisburð meðtakið þér ekki. Hafi eg sagt ydur jarðneska hluti og þér trúið ekki, hvernig munuð þér þá trúa, ef eg segði ydur himneska hluti? Einginn uppstigur til himins, nema sá, sem ofan sté af himni, mannsins sonur, sá sem er á himni. En eins og Móses upphóf höggorminn á eydimörkinni, svo byrjar líka mannsins syni upp að hefjast, svo að allir þeir, sem á hann trúa, fortapist ekki, heldur að þeir hafi eilíft líf.

---

# Á 1. sunnudag eptir trinitatis.

## Kollektan.

O herra guð! sem að ert allra þeirra styrkur, er á þig

vona. Virztú mildilega nálægur ad vera vorum bænum; en af því ad vor dauðlegur veikleiki má sér ekkert án þín, þá veit oss fulltingi náðar þinnar, ad vér mættum eptirfylgja þínum boðorðum, og bæði með vilja og verki þér þókknast. Fyrir þinn, etc.

## Pistillinn.

(1. Jóh. IV, 5. — 11.).

Elskulegir bræður! Guð er kærleikurinn, og hver hann blífur í kærleikanum, sá blífur í guði og guð í honum. Í því er kærleikurinn fullkomlegur hjá oss, að vér höfum það traust á degi dómsins, að líka svo sem hann er, svo erum vér og í þessum heimi. Ótti er ekki í kærleikanum, heldur burtdrífur fullkomlegur kærleiki óttann, því óttinn hefir kvöl; en hver hann hefir ótta, sá er ekki algjörður í kærleikanum. Látum oss hann elska, því hann hefir elskað oss fyrr. Ef nokkur segist elska guð, en hatar bróður sinn, sá er ljúgari, því hver hann elskar ekki sinn bróður, hvern hann sér, hvernig getur hann guð elskað, þann er hann sér ekki? Þetta boðorð höfum vér af guði, að hver hann elskar guð, sá skal og elska bróður sinn.

## Guðspjallið.

(Lúk. XVI, 19. — 31.).

Jesús sagði við Faríseana: maður nokkur ríkur var sá, er klæddist perli og purpura, og lifði

hvern dag í vellystingum praktuglega. Þar var og þurfamadur, Lazarus ad nafni, hver ed úti lá fyrir hans dyrum, fullur kauna. Hann girntist ad sedja sig af þeim molum, sem féllu af bordi ens ríka; þá komu hundar og sleiktu hans sár. En það skedi svo, ad hinn voladi andadist, og var borinn af einglum í fadm Abrahams. Hinn ríki andadist líka, og var greptradur. En þegar hann var í helviti og kvolunum, hóf hann upp sín augu, leit Abraham áleingdar og Lazarus í fadmi hans; því kalladi hann og sagdi: O! fadir Abraham! miskuna þú mér! send þú Lazarus híngad, ad hann drepi hinu fremsta síns fíngurs í vatn, og kæli túngu mína, því eg kvelst í þessum loga. Abraham svaradi: sonur! hugleid þú, ad þú medtókst hid góda í lífi þínu, en Lazarus líka hid vonda; því hlýtur hann nú ad huggast, en þú ad kveljast. Fram yfir allt þetta, er á millum vor og ydar svo mikid djúp stadfest, ad þeir, sem hédan vilja fara til ydar, geta það ekki, og ekki þeir heldur þadan frá ydur upp til vor komizt. Hinn sagdi þá: eg bid þig fadir! ad þú sendir hann í míns fødur hús, því eg hefi fimm brædur, svo ekki

komi þeir í þennan kvalastað. Abraham sagði til hans: þeir hafa Móses og spámennina, heyri þeir þeim. Hinn sagði: nei, faðir Abraham! heldur ef nokkur framliðinn færi til þeirra, þá mundu þeir iðrún gjöra. Abraham svaraði honum: ef þeir heyra ekki Mósi og spámönnunum, þá munu þeir ekki heldur trúa, þó einhver framliðinn upprisi.

---

## A 2. sunnudag eptir trinitatis.

### Kollektan.

Heyr, herra guð! lát oss jafnan þitt heilaga nafn óttast og elska; því aldrei yfirgefur þú þá, sem hafa fullkomlegan kærleika til þín. Fyrir þinn eingetinn son, etc.

### Pistillinn.

(1. Jóh. III, 13. — 18.)

Elskulegir bræður! Undrist ekki þó að heimurinn hati yður. Vér vitum það, að vér erum úr dauðanum komnir til lífsins, því vér elskum bræðurna. Hver hann elskar ekki bróður sinn, sá blífur í dauðanum. Hver bróður sinn hatar, sá er manndrápari, en þér vitið, að manndráparinn hefir ekki eilíft líf í sér blífanda. Af því þekkjum vér guðs kærleika, að hann

lét son sinn gefa sitt líf út fyrir oss, því erum vér líka skyldir ad gefa líf vort út fyrir bræd-urna. En þegar einhver, sem hefir þessarar ver-aldar audæfi, sér bródur sinn naud lída, og apturlykur hjarta sitt fyrir honum, hvernig má guds kærleiki vera med honum? Sonakorn mín! elskid ekki med ordi og túngu, heldur med verki og sannleika.

## Gudspjallid.

(Lúk. XIV, 16. — 24.).

Jesús sagdi til eins af Fariseunum þessa eptirlíkingu: nokkur madur var sá, sem gjørdi mikla kvøldmáltíd og kalladi marga þar til. Hann sendi út þjón sinn um kvøldmálstímann, ad hann segdi þeim, sem bodnir voru: komid! því ad nú eru allir hlutir til reidu. En þeir tóku allir í einu hljódi ad afsaka sig. Hinn fyrsti sagdi: akur keypti eg, og hlýt eg fara út ad skoda hann; eg bid þig, afsaka mig. Hinn annar sagdi: fimm por akneyta keypta eg, og fer nú út ad reyna þau; eg bid þig, afsaka mig. Sá þridji sagdi: konu hefi eg mér festa, og fyrir því má eg ekki koma. Þjónustumad-urinn kom og kunngjørdi þetta sínum herra. Þá vard húsbóndinn reidur og sagdi til þjón-

ustumannsins: far þú snarlega út á gøtur og stræti borgarinnar, og leid volada, vanada og hallta hér inn. Þjóninn sagdi: herra! þad er gjort, sem þú skipadir, og þó er enn meira rúm. Herrann svaradi: far þú út á þjódbrautir og túngarda, og naudga þeim hér inn ad gánga, svo mitt hús verdi fullt; því eg segi ydur þad, ad einginn þeirra manna, sem kalladir voru, mun smakka mína kvoldmáltíd.

---

## Á 3. sunnudag eptir trinitatis.

### Kollektan.

O herra gud! vér bidjum, ad þú gódgirndarsamlega heyrir vorar bænir, og þeim, sem þig audmjúklega bidja, gefir þú hjálp og veitir fulltingi þinnar hlífdar. Fyrir þinn eingetinn elskulegan son, etc.

### Pistillinn.

(1. Pét. v, 6. — 11.).

Elskulegir brædur! Fyrir því litillækkid ydur undir volduga guds hond, svo ad hann upphefji ydur á vitjunar-tíma. Allri ydar áhyggju varpid þér upp á hann, því hann ber umhyggju fyrir ydur. Verid sparneytnir og vakid, því ydar mótstandari, djofullinn, geingur um kring sem grenjandi ljón, eptirleitandi þeim,

sem hann má uppsvelgja, hverjum þér öruggglega mótstandið í trúnni, og vitið það, að ydar bræður þeir, sem í heiminum eru, líða slíkt hið sama. En sá guð allrar náðar, sem oss hefir kallað til sinnar eilífrar dýrðar í Kristi Jesú, hann sami mun ydar — þér sem um litla stund líðið — fullkomna, stydja, styrkja og staðfesta; þeim hinum sama sé dýrð og vald um aldir alda, Amen!

## Guðspjallið.

(Lúk. xv, 1. — 10.).

En allir tollheimtumenn og bersyndugir nálægðu sig Jesú, svo að þeir heyrðu honum; en þeir skriftlærðu og Farisearnir mögluðu og sögðu: þessi meðtekur bersynduga menn og etur með þeim. Jesús sagði til þeirra þessa eptirlíkingu: hver sá maður af yður, sem hefir hundrað sauði, og ef hann glatar einum af þeim, yfirgefur hann ekki þá níu og níutíu á eyðimörku, og fer eptir þeim, sem glataðist, þángað til hann finnur hann? en þegar hann hefir fundið hann, leggur hann þann sama með fögnuði sér á herðar, kemur heim og kallar saman vini og nábúa, og segir til þeirra: samgleðjist með mér, því eg hefi minn sauð aptur fundið,

þann er glatadur var. Eg segi ydur: ad líka svo mun fögnudur verda á himnum yfir einum syndugum, sem idrun gjörir, meir en yfir þeim nín og níutín réttlátum, sem ekki þurfa yfirbótar vid. Eda — hver er sú kona, sem hefir tín peninga, ef hún týnir einum, er ekki svo, ad hún kveikir ljós, sópar húsid og leitar vandlega, þángad til hún finnur hann? en þegar hún hefir hann fundid, samankallar hún vinkonur sínar og grannkonur segjandi: samgledjist med mér! því eg hefi minn pening aptur fundid, hverjum eg týnda. Líka svo segi eg ydur, þad fögnudur mun vera fyrir einglum guds yfir einum syndugum, þeim, er yfirbót gjörir.

---

## A 4. sunnudag eptir trinitatis.

### Kollektan.

Heyr, herra gud! vér bidjum: gef oss ad þessa heims tími lidi fridsamlega undir þinni fodurlegri stjórnun, svo ad þín heilög kristni megi því fridsamlegar med allri gudrækni þig dýrka og þér þjóna. Fyrir þinn, etc.

### Pistillinn.

(Róm, VIII, 18. — 23.).

Gódir brædur! Eg held, ad mótlæting

þessara tíma sé ekki verd vid þá dýrd, sem vid oss mun opinber verda; því áhyggjusamleg eptirbid skepnunnar bidur eptir uppbyrtíngu guds barna, med því skepnan er hégómanum undirgefin án hennar vilja, heldur fyrir hans sakir, sem hana hefir undirlagt, upp á vonina, því sjálf skepnan mun frelsud verda af þrælkun fallvaltrar veru, til dýrdarlegs frelsis guds barna. Því vér vitum, ad allar skepnur andvarpa og sampínast allt til þess tíma. Ekki einúngis þær, heldur vér sjálfir, sem höfum andans frumtøk, andvorpum med sjálfum oss, væntandi arfleifdarinnar, endurlausnar vors líkama.

## Gudspjallid.

(Lúk. vi, 36. — 40.).

Jesús sagdi vid sína lærisveina: verid miskunsamir, líka sem ydar fadir er miskunsamur. Eingan skulud þér dæma, svo þér dæmist ekki; fordæmid ekki, svo þér verdid ekki fordæmdir; fyrirgefid, og þá mun ydur fyrirgefid verda; gefid, og þá skal ydur gefast. Góda, samþrykkta, vel skekna og yfirfljótanlega mælingu munu þeir gefa í ydvart skaut; því med þeirri hinni sömu mælíngu, hverri þér mælid

út, mun ydur inn aptur mælt verda. Hann sagdi þeim þessa eptirlíkingu: hvert kann nokkur blindur blindan ad leida? falla þeir ekki bádir í grøfina? Lærisveinninn er ekki yfir sínum meistara; en hver helzt, sem fullkominn er, hann mun vera sem hans meistari. Hvad sér þú ognina í þíns bródur auga, en ad þeim bjálkanum, sem í þínu auga er, gætir þú ekki? eda, hvernig máttú segja bródur þínum: bródir! leyf þú, ad eg dragi í burtu ognina úr þínu auga, þar ed þú sér ekki sjálfur bjálkann í þínu auga; þú hræsnari! drag fyrst út bjálkann úr þínu auga, og sjá þú þá svo til, ad þú fáir útdregid ognina, sem er í þíns bródur auga.

---

# A 5. sunnudag eptir trinitatis.

### Kollektan.

Heyr, herra gud! sem ósýnilega hluti hefir tilbúid þeim, sem þig elska, gef þú í vor hjørtu girnd réttilegs kærleika til þín, ad vér elskum þig í øllum hlutum og yfir alla hluti, og mættum ødlast þad þú hefir lofad, hvad betra og ædra er, en nokkur kann ad óska og girnast. Fyrir þinn, etc.

## Pistillinn.

(1. Pét. III, 8. — 15.).

Kærir brædur! En ad álydtun verid allir einhugadir, sampolugir, bródurlegir, miskunsamir, samlyndir. Endurgjaldid ekki illt, eingin skammarord fyrir skammaryrdi, heldur blessid þar í gegn, og vitid, ad þér erud þar til kalladir, ad þér blessunina erfa skyldud; því hver, sem vill lifa og sjá góda daga, hann stilli túngu sína, ad hún ekkert vondt tali, og varir sínar, ad þær ekki flærd tali. Hann skal hnegja sig frá vondu, og gjøra hid góda. Leiti hann fridarins og eptirfylgi honum; því augu drottins eru yfir réttlátum og hans eyru til bæna þeirra, en auglit drottins er yfir øllum þeim, sem illa gjøra. Hver er sá, ad ydur geti grandad, ef þér fylgid því enn góda? En þótt þér lidid fyrir réttlætisins sakir, þá erud þér sælir. Hrædizt ekki þeirra ógnanir og skelfist ekki, heldur helgid drottinn gud í ydrum hjørtum.

## Gudspjallid.

(Lúk. v, 1. — 11.).

Þad skedi, þegar fólkid flykktist ad Jesú, til ad heyra guds ord, ad hann stód sjálfur vid sjóinn Genezaret, og leit þar standa tvø skip,

en fiskararnir voru af þeim stígnir, og þvodu net sín. Jesús sté upp á annad skipid, sem tilheyrdi Símoni, og bad hann ad draga nokkud frá landi; en Jesús sat og kendi fólkinu frá skipinu. En þegar hann hætti ad kenna, sagdi hann vid Símon: drag þú út á djúpid, og leysid upp net ykkar til fiskidráttar. Símon svaradi: meistari í alla nótt höfum vér erfidad, og feingum ekkert, en eptir þínu ordi vil eg netinu útkasta; en þegar þeir höfdu þetta gjört, inniluktu þeir mikla mergd fiska, svo ad net þeirra rifnudu. En þeir bentu félögum sínum, sem voru á hinu ödru skipinu, ad þeir kæmu þar og hjálpudu þeim, og þeir komu og hlódu bædi skipin full, svo þau sukku ad mestu. Þegar Símon Pétur sá þetta, féll hann til knjánna Jesú og sagdi: gakk frá mér, lávardur! því eg er madur syndugur, af því felmtur var yfir hann kominn og alla þá, sem med honum voru, af þeim fiskidrætti, er þeir feingu til samans, líka yfir Jakob og Jóhannes, syni Zebedeusar, sem voru lagsmenn Símonar. En Jesús sagdi til Símonar: óttast þú ekki, því hédan í frá skaltú menn veida. Þeir drógu

skip sín að landi, yfirgáfu alltsaman og fylgdu Jesú eptir.

---

# Á 6. sunnudag eptir trinitatis.

---

### Kollektan.

Heyr, almáttugi, eilífi guð! hvers það er, sem allra bezt er. Vér biðjum: innplanta í vor hjörtu elsku þíns nafns! auk þú í oss sanna guðrækni, og hvað gott þú verkar í oss, það sama vildir þú styrkja og varðveita. Fyrir þinn, etc.

### Pistillinn.

(Róm. VI, 1. — 12.).

Elskulegir bræður! Vitið þér ekki, að allir vér, sem skírðir erum í Jesú Kristi, það vér erum í hans dauða skírðir? því erum vér einnig með honum greptraðir fyrir skírnina í dauðann upp á það, að eins og Kristur er uppvakinn frá dauðum fyrir dýrð föðursins, líka svo skulum vér gánga í endurnýúngu lífdaganna; af því vér erum innplantaðir í líking hans dauða, svo verðum vér og honum líkir í upprisunni, vitandi það, að vor gamli maður er með honum krossfestur, svo að deyddist líkami syndarinnar; því hver, sem deyddur er, hann er réttlátur orðinn af syndinni. En fyrst

vér erum deyddir med Kristi, þá trúm vér, ad vér munum og einnig med honum lifa; en vér vitum þad, ad Kristur, er uppvakinn frá daudum og deyr ekki meir, daudinn mun og ekki meir drottna yfir honum; því þad hann dó, þad er hann einu sinni syndinni dáinn, en þad hann lifir, þad lifir hann gudi. Svo og líka þér skulud halda ydur sjálfa, ad þér séud deyddir frá syndinni, en lifid gudi í drottni vorum, Jesú Kristi.

## Gudspjallid.

(Matth. v, 20. — 26.).

Jesús sagdi vid sína lærisveina: eg segi ydur, nema svo sé, ad ydvart réttlæti sé betra en skriptlærdra og Fariseanna, þá munud þér ekki inngánga í himnariki. Þér hafid heyrt, hvad sagt er til þeirra gømlu: ekki skaltú mann vega; en hver, sem vegur mann, hann verdur dóms sekur. Eg segi ydur: hver, sem reidist bródur sínum, hann verdur dóms sekur; og hver, sem segir vid bródur sinn: Racha! hann verdur ráds sekur; en hver, sem segir: þú, afglapi! hann er sekur helvítis elds. Þar fyrir, þegar þú offrar gáfu þinni til altaris, og þér kemur þar til hugar, ad bródir þinn

hafi nokkud á móti þér, þá láttu þar þína gáfu fyrir altarinu, og far ádur ad sætta þig vid bródur þinn, og kom þá ad offra gáfu þinni. Vertú snarlega samþykkur þínum mótstödumanni, á medan þú ert enn á vegi med honum, svo ekki selji þig þinn mótstödumadur dómaranum, dómarinn selji þig þénaranum, og verdir svo í dýblissu kastadur. Sannlega segi eg þér, ad ekki muntú þadan útfara, þángad til ad þú hefir borgad hinn sídasta pening.

---

# Á 7. sunnudag eptir trinitatis.

---

### Kollektan.

Heyr, herra gud! í hvers eilífri fyrirhyggju ekkert er, sem bregdast kann. Vér bidjum þig audmjúklega: tak frá oss allt þad, sem oss er skadlegt, og veit oss alla þá hluti, sem oss eru gagnlegir. Fyrir þinn, etc.

### Pistillinn.
(Róm. VI, 19. — 23.).

Elskulegir brædur! Eg hlýt hér mannlega af ad segja fyrir ydvars holds breyskleika sakir. Því líka sem þér hafid ydar limu léd til ad þjóna óhreinleikanum frá einu ránglæti til annars, líka svo skulud þér nú ljá ydar

limu, til ad þjóna réttlætinu til helgunar; því þá er þér voruð þrælar syndarinnar, voruð þér réttlætislausir. Hvern ávöxt höfðuð þér þann tíma, þann þér skammizt yðar nú af? því endalok þeirra hluta er dauðinn. En nú eruð þér frelsaðir frá syndinni, og vorðnir guðs þénarar, og hafið því yðvarn ávöxt til helgunar, en að endalokunum eilíft líf. Því verðlaun syndarinnar er dauðinn, en guðs gáfa er eilíft líf í drottni vorum Jesú Kristi.

## Guðspjallið.

(Mark. VIII, 1. — 9.).

Á þeim dögum var enn margt fólk komið saman, og hafði ekki til matar. Jesús kallaði lærisveinana til sín, og sagði við þá: mig aumkar yfir fólkið, því í þrjá daga hafa þeir hjá mér verið, og ekkert til matar haft; en ef eg læt þá fastandi heim til sín fara, þá vanmegnast þeir á leiðinni — því sumir voru lángt að komnir. Lærisveinarnir svöruðu honum: hvaðan fáum vér þau brauð hér á eyðimörku, að þeir verði mettaðir? Jesús svaraði: hversu mörg brauð hafið þér? Þeir svöruðu: vér höfum sjö. Jesús bauð fólkinu að setjast niður á jörðina, tók þau sjö brauð,

þakkadi, braut og fékk sínum lærisveinum, ad þeir legdu þau fyrir fólkid. Þeir höfdu og fáeina smáfiska, þá hina sömu blessadi hann, og baud fram ad leggja; en þeir neyttu og urdu mettir. Þeir tóku upp þad, er yfir var, sjö karfir med afgángs-leifar; en þeir, sem neytt höfdu, voru nær fjórar þúsundir, og hann lét fólkid á burt fara.

## 8. sunnudag eptir trinitatis.

### Kollektan.

Heyr, herra gud, himneski fadir! Vér bidjum: gef oss anda og nád til ad hugsa þá hluti, sem réttir eru, og sídan fullkomna þá med verkunum; en af því vér megnum ekkert án þín, þá unn oss ad lifa eptir þínum vilja. Fyrir þinn, etc.

### Pistillinn.

(Róm. VIII, 12. — 17.).

Þar fyrir erum vér nú — kærir brædur! — ekki holdsins skuldunautar, ad vér lifum eptir holdinu; því ef þér lifid eptir holdinu, munud þér deya, en ef þér deydid, fyrir andann, holdsins girndir, þá munud þér lifa. Því hverjum helzt sem guds andi stjórnar, þeir eru guds börn; því ekki hafid þér medtekid þræl-

dóms anda, svo þér þurfid nú aptur ad ugga um ydur, heldur hafid þér medtekid sonarlegan anda, fyrir hvern vér køllum: Abba! elskulegi fadir! Þessi sami andi ber vitnisburd med vorum anda, ad vér séum guds børn. En fyrst vér erum børn, þá erum vér erfingjar, sannarlega guds erfingjar og samarfar Krists, ef vér lidum med honum, upp á þad ad vér verdum einnig med honum dýrdlegir.

## Gudspjallid.

(Matth. VII, 15. — 23.).

Jesús sagdi vid sína lærisveina: vaktid ydur fyrir falsspámønnum, sem koma til ydar í sauda-klædum, en hid innra eru þeir glepsandi vargar; af þeirra ávøxtum megid þér þekkja þá. Verda nokkud vínber samanlesin af þyrnum, eda fíkjur af þistlum? svo ber og hvert gott tré gódan ávøxt, en hvert rotid tré vondan ávøxt. Gott tré getur ekki fært vondan ávøxt, og ekki heldur getur rotid tré fært gódan ávøxt: en hvert þad tré, sem ekki færir gódan ávøxt skal upphøggvast og í eld kastast; þess vegna megid þér af þeirra ávøxtum þekkja þá. Þeir munu ekki allir, sem til mín segja: herra, herra! inngánga í guds ríki, heldur þeir,

sem gjöra vilja míns föður, þess á himnum er. Margir munu til mín segja á þeim degi: herra! herra! höfum vér ekki spáð í þínu nafni? höfum vér ekki í þínu nafni djöfla útrekið, og gjörðum í þínu nafni mörg kraptaverk? Þá mun eg játa þeim: aldrei þekkta eg yður: farið frá mér allir illgjörðamenn!

## Á 9. sunnudag eptir trinitatis.

### Kollektan.

Ó þú, almáttugi guð! vér biðjum: lát þín miskunar eyru ætíð vera opin til vorra auðmjúkra bæna. Og svo þú gefir oss, það vér girnumst, þá gef þú oss þína náð að girnast það eina, sem þér vel þóknast. Fyrir Jesúm Krist, þinn eingetinn og elskulegan son, etc.

### Pistillinn.

(1. Kor. x, 6. — 13.).

Elskulegir bræður! Þetta er skeð oss til fyrirmyndar, að vér skulum ekki girnast það illt er, eins og þeir girntust. Gjörizt og ekki skurðgoða þénarar, eins og nokkrir af þeim urðu, eptir því sem skrifað stendur: fólkið settist niður að eta og drekka, og stóð upp að leika. Drýgjum og ekki saurlifi, eins og nokkrir af þeim drýgðu saurlifi, og féllu á einum degi þrjár

þúsundir og tuttugu. Freistum og ekki Krists, eins og nokkrir af þeim freistudu, og fyrirfórust af høggormum. Møglid og ekki, eins og nokkrir af þeim møgludu, og fyrirfórust af eydileggjaranum. Þetta allt er uppáfallid þeim til fyrirmyndar, en er skrifad oss til vidvørunar, yfir hverja þessa heims endi er kominn. Fyrir því, hver hann lætur sér þykja þad hann standi, gaumgæfi sá, ad hann falli ekki. Ydur hefir enn þá ekki inntekid nema mannleg freistni; en gud er trúr, sem ekki lætur ydur freistast yfir megn fram, heldur gjørir hann þad, ad freistingin fái þann enda, ad þér getid stadist.

## Gudspjallid.

(Lúk. XVI, 1. — 9.).

Jesús sagdi vid sína lærisveina: madur nokkur audugur var sá, sem hélt rádsmann; hinn sami var ófrægdur vid hann, eins og hefdi hann eitt hans gózi. Hann kalladi því rádsmanninn til sín og sagdi: hvad heyri eg þetta af þér? gjør þú reikningsskap fyrir rádsmennsku þína, því hana mátt þú ekki leingur hafa. Rádsmadurinn sagdi med sjálfum sér: hvad skal eg til gjøra, þegar minn herra sviptir mig rádsmennskunni? Eg dugi ekki til ad grafa, en eg

skammast mín ad bidja. Eg veit, hvad eg skal gjøra, þegar eg verd settur frá rádsmennskunni, svo þeir medtaki mig í sín hús. Hann samankalladi því einn og sérhvern skuldamann síns herra, og sagdi vid þann fyrsta: hversu mikid ert þú skyldugur mínum herra? Sá svaradi: hundrad tunnur vidsmjørs. Rádsmadurinn, sagdi til hans: tak bréf þitt, sezt nidur og skrifa snarlega f i m m t í u. Þarnæst spurdi hann hinn annan: en — hversu mikid ert þú skyldugur? Sá sagdi: hundrad mælikerhøld hveitis. Hann svaradi: tak bréf þitt, og skrifa áttatíu. En herrann lofadi þennan rángláta rádsmann fyrir þad, hann hafdi breytt svo forsjállega; því þessa heims børn eru kænari sonum ljóssins í þeirra kynslód. En eg segi ydur: gjørid ydur vini af þeim ránfeingna mammóna, svo þegar ydur þrýtur, þá medtaki þeir ydur í eilífar tjaldbúdir.

---

# Á 10. sunnudag eptir trinitatis.

---

Kollektan.

Heyr, almáttugi gud! sem audsýnir þinn mátt í því,

þú þyrmir og miskunar oss. Vér biðjum: auk og margfalda við oss þína miskun, svo að vér, sem stundum eptir því sem þú hefir oss lofað, mættum verða hluttakarar þinna himneskra gæða. Fyrir þinn elskulegan son, etc.

## Pistillinn.

(1. Kor. XII, 1. — 11.).

Elskulegir bræður! Þér vitið það, að þér voruð heiðnir og gengnð burt til mállausra skurðgoða, svo sem þér voruð tilleiddir. Fyrir því kunngjöri eg yður, það einginn sá, sem fyrir guðs anda talar, formælir Jesú, og einginn fær drottinn Jesúm kallað, nema fyrir heilagan anda. Gjafirnar eru marghattaðar, en hinn sami er andinn. Þar eru og marghattuð embætti, en hinn sami er drottinn. Þar eru og marghattaðar verkanir, en hinn sami er guð, sem verkar alla hluti í öllum. En í sérhverjum einum auðsýna sig gjafir andans til almennilegrar nytsemdar. Einum verður gefið, fyrir anda, að mæla af vizku, en öðrum verður gefið að tala af skynsemi af hinum sama anda. Öðrum trúan í sömum anda. Einum gjafir lækningamna í sömum anda. Öðrum kraptaverk að gjöra, öðrum spádóma, og öðrum að gjöra aðgreiningu andanna. Einum öðrum marghattuð túngumál. Einum öðrum útlegging túngumálanna;

en allt þetta verkar hinn sami andi, skiptandi sérhverjum eptir því, sem hann vill.

## Guðspjallið.

(Lúk. XIX, 41. — 48.).

Þegar Jesús kom nær, og sá borgina (Jerúsalem), grét hann yfir henni og sagði: ef þú vissir hvað til þíns friðar heyrir, þá mundir þú á þessum tíma þar vöktun á hafa, en nú er það hulið fyrir þínum augum. Þeir dagar munu koma yfir þig, að óvinir þínir munu byggja hervirki í kríngum þig, umkríngja þig, á alla vegi að þér þreyngja og niður í grunn kollkasta og þínum börnum með þér; ekki munu þeir í þér láta stein yfir steini vera, af því þú þekktir ekki þinn vitjunar tíma. Jesús gekk inn í musterið, og tók til að reka þá út, sem seldu og keyptu þar inni, og sagði til þeirra: skrifað er, að mitt hús sé bæna hús, en þér hafið gjört það, sem annað spillvirkjainni. Hann kenndi hvern dag í musterinu; en kennimannahöfðingjar, skriptlærðir og þeir yppurstu lýðsins leituðu fast eptir að fyrirkoma honum, en gátu það ekki fundið hvað þeir skyldu

gjöra honum; því allt fólkið hné að honum og hlýddi hans orðum.

---

# Á 11. sunnudag eptir trinitatis.

---

**Kollektan.**

Almáttugi, eilífi guð! hvers miskun að yfirgeingur og gnæfir oss og alla girnd vors hjarta. Vér biðjum: lát þína miskun koma yfir oss og fyrirgef oss náðarsamlega hvað helzt, sem vor samvizka hræðist og óttast, en gjör betur til vor, en vér sjálfir vogum að biðja. Fyrir þinn elskulegan son, etc.

**Pistillinn.**

(1. Kor. xv, 1. — 10.).

Góðir bræður! Eg minni yður á það evangelium, sem eg prédikaði yður, hvert þér meðtókuð, í hverju þér og hafið staðið, fyrir hvert þér verðið og sáluhólpnir með þeim hætti, sem eg kunngjörði það yður, ef þér hafið því haldið, utan að svo sé, að þér hafið til ónýtis trúað; því eg gaf yður í fyrstu hvað eg meðtók, það, að Kristur sé líflátinn fyrir vorar syndir, eptir ritningunum, og hann sé grafinn og upp aptur risinn á þriðja degi, eptir ritningunum, og það hann er séður af Kefas og

eptir þad af hinum tólf. En þar eptir var hann sédur meir en af fimmhundrud brædrum í senn, af hverjum ad margir enn lifa til, en nokkrir eru sofnadir. En eptir þad var hann sédur af Jakobi, og þar næst af postulunum. En allra seinast er hann sédur af mér, eins og af ótímabærum burdi; því eg er minnstur postulanna, og ekki verdugur ad eg skuli postuli heita, fyrir þad, ad eg offókn veitti guds søfnudi; en af guds nád er eg þad eg er, og hans nád medur mér var ekki til ónýtis.

## Gudspjallid.

(Lúk. XVIII, 9. — 14.).

Jesús sagdi til nokkurra þeirra, sem treystu upp á sjálfa sig, eins og þeir mundu réttlátir vera, en forsmádu adra, þessa eptirlíkingu: tveir menn geingu upp í musterid ad bidjast fyrir, einn var Fariseari, en hinn tollheimtumadur. Farisearinn stód og badst nú þannig fyrir med sjálfum sér: gud! eg þakka þér, þad eg er ekki eins og adrir menn, ræníngjar, óréttvísir, hórdómsmenn, eda eins og þessi tollheimtumadur. Eg fasta tvisvar í viku og gef tíundir af øllu því eg á. En tollheimtumadurinn stód lángt í burtu frá og vildi ekki upp-

lypta augum sínum til himins, heldur bardi hann sér á brjóst og sagdi: gud! vert þú mér syndugum líknsamur! Sannlega segi eg ydur: þessi fór réttlátur framar hinum í sitt hús; því hver sá, sem sig sjálfan upphefur, hann skal nidurlægjast; en hver, sem sjálfan sig nidurlægir, hann mun upphafinn verda.

---

## Á 12. sunnudag eptir trinitatis.

---

### Kollektan.

Almáttugi, eilífi gud! af hvers gáfu þad kemur, ad þínir kristnir menn þjóna þér réttilega. Vér bidjum: veit þú oss, ad vér án allrar hindrunar mættum fá ad odlast þad, sem þú hefir lofad. Fyrir þinn eingetinn og elskulegan son, etc.

### Pistillinn.

(2. Kor. III, 4. — 9.).

Elskulegir brædur! Slíkt traust höfum vér til guds, fyrir Krist, ekki þad vér séum af oss sjálfum til neytir nokkud ad hugleida, svo sem af oss sjálfum til, heldur ef vér erum nokkru nevtir, þá er þad af gudi, sá er oss gjördi hæfilega þénara ens nýa testamentis; ekki bók-

stafsins, heldur andans; því bókstafurinn deyd-ir, en andinn lífgar. En ef það embætti, sem fyrir bókstafinn deydir og á steinum var grafid, hafdi þann bjartleik, ad Israels synir gátu ekki litid í ásjónu Mósis, fyrir bjartleika sakir hans audlitis, sem þó hefir enda, hvern-inn skyldi þá ekki miklu meir það embætti, sem andinn gefur, dýrdlegt vera? Því, ef það em-bætti, sem fyrirdæminguna prédikar, hefir birtu, hve miklu framar mun þá embætti réttlætisins yfirgnæfa í vegsemdinni.

### Gudspjallid.

(Mark. VII, 31. — 37.).

Þegar Jesús fór á burt aptur úr lands-álfum Týri og Sidónis, kom hann til sjáfar-ins í Galíleu, í midjar byggdir þeirra tíu stada. Þar leiddu þeir til hans mann, sem daufur og málhalltur var, og bádu, ad Jesús leggdi hendur yfir hann. Jesús vék honum afsídis frá fólkinu; lét fingur sína í eyru hans; hrækti út og áhrærdi hans túngu; leit upp til himins, andvarpadi og sagdi: hephata! (það þýdir: opna þig!). Jafnsnart upplukust eyru hans, og fjötur túngunnar upplevstust, svo hann taladi rétt. Jesús baud þeim, ad þeir segdu

það ekki neinum; en því heldur hann bannaði það, því framar víðfrægðu þeir það út. Sjálfa þá furðaði þetta mjøg og søgðu: allt gjørði hann vel, því dauða lætur hann heyra, og málausa tala.

---

## Á 13. sunnudag eptir trinitatis.

### Kollektan.

O! þú almáttugi, eilífi guð! gef oss aukningu trúarinnar, vonarinnar og kærleikans, svo vér mættum øðlast það, sem þú lofar, og að elska það, sem þú býður. Fyrir þinn, etc.

### Pistillinn.

(Gal. III, 15. — 22.).

Kærir bræður! Eg tala eptir mannlegum plagsið: einginn ónýtir mannsins testament, þegar það er staðfest, né eykur þar við nokkru. Nú eru þó fyrirheitin Abraham tilsøgð og hans sæði; ekki segir hann sæðunum, eins og séu þau mørg, heldur svo sem um eitt sæði, í þinn sæði, hver að er Kristur. En það segi eg: það testament, sem fyrrum er staðfest af guði, upp á Krist, verður ekki ónýtt gjørt af løgmálinu, sem gefið var fjórum hundruð

og þrjátíu árum þar eptir, svo að fyrirheitið afmáðist. Því, ef arfleifðin yrði fyrir lögmálið afrekuð, þá er hún ekki gefin fyrir fyrirheitið. En guð hefir fyrir fyrirheitið af náð gefið hana Abraham. Hvar til skal þá lögmálið? Það er tilsett vegna yfirtroðslnunnar, þángað til að kæmi sæðið, hverju fyrirheitið var skeð. Lögmálið er skikkað af einglunum fyrir hönd meðalgaungumannsins; en meðalgaungumaðurinn er ekki eins einasta meðalgaungumaður, en guð er einn. Hvað þá? hvert er þá lögmálið í gegn guðs fyrirheiti? það sé fjærri; því ef það lögmál væri gefið, sem lífgað gæti, sannarlega kæmi þá réttlætið út af lögmálinu. En ritníngin hefir alla innilukt undir syndinni, svo að fyrirheitið af trúnni á Jesúm Krist gæfist trúundum.

## Guðspjallið.

(Lúk. x, 23. — 37.).

Jesús snéri sér til sinna lærisveina og sagði þeim einslega: sæl eru þau augu, sem sjá það, er þér sjáið! því eg segi yður, að margir spámenn og konúngar vildu hafa séð það, er þér sjáið, en sáu það ekki, og að heyra það, sem þér heyrið, en þeir heyrðu það ekki.

Lögvitríngur nokkur stód þá upp, freistadi Jesú og sagdi: meistari! hvad skal eg gjöra, svo eg eignist eilíft líf? Jesús svaradi: hvad er skrifad í lögmálinu? hvernig les þú? Lögvitríngurinn svaradi: elska skaltú drottinn gud þinn af öllu hjarta þínu, og af allri öndu þinni, og af öllum mætti þínum, og af öllu hugskoti þínu, og náúnga þinn eins og sjálfan þig. Jesús sagdi: þú svaradir rétt! gjör þad og muntú lifa. En hinn vildi réttlæta sjálfan sig, og spurdi Jesúm: hver er þá minn náúngi? Jesús svaradi: madur nokkur fór frá Jerúsalem ofan til Jerikó, sem hrasadi á medal ræníngja, hverjir ed ræntu hann klædum, lemstrudu sárum og létu hann þar eptir hálfdaudan liggja. En svo bar til, ad kennimadur nokkur fór ofan þann sama veg, og þá er hann leit hinn hrasada, gekk hann fram hjá honum; þad sama gjördi levítinn, því þegar hann kom nærri þeim stad og sá hann, gekk hann þar fram hjá. En samverskur madur nokkur fór um farinn veg, kom þar nærri honum, og er hann leit hann, hrærdist hann af miskun vid hann, gekk ad honum, batt um sár hans, hellti í þau vidsmjöri og víni, lagdi hann upp á sinn

eik og flutti til herbergis, gaf einnig gætur ad honum. En annars dags þar eptir, þá er hann fór á burt, tók hann upp tvo peninga, fékk þá húsbúandanum og sagdi: haf þú gát á þeim særda, og hvad þú leggur meira út, þad skal eg borga, þegar eg kem aptur. Hver þeirra þriggja virdist þér vera náúngi þess, sem hrasadur var á medal ræningjanna? Hann svaradi: sá, sem gjördi miskunarverkid á honum. Jesús sagdi: far þú og gjör slíkt hid sama.

---

# Á 14. sunnudag eptir trinitatis.

---

### Kollektan.

Almáttugi, eilífi gud! sem ad vardveitir þína heilaga kristni med eilífri miskun, af því ad án þín fellur mannlegur veikleiki. Vér bidjum: lát hana fyrir þína hjálp leidast frá því, sem henni er skadsamlegt til þess, sem henni er gagnlegt og heilsusamlegt. Fyrir vorn drottinn Jesúm Krist, etc.

### Pistillinn.

(Gal. v, 16. — 24.).

Elskulegir brædur! En eg segi ydur: gángid í andanum, þá munud þér ekki fullkomna girndir ydvars holds; því holdid girnist

í móti andanum og andinn á móti holdinu, og þessir eru hvor á móti ødrum, svo ad þér gjørid ekki hvad þér viljid. En ef andinn stjórnar ydur, þá erud þér ekki undir løgmálinu. Því holdsins verk eru opinber, sem eru hórdómur, frillulifnadur, óhreinleiki, lausúng, skurdgodadýrkun, fjølkíngi, fjandskapur, hatur, agg, reidi, þræta, sundurþykkja, tvídrægni, øfundsýki, manndráp, ofdrykkja, ofneyzla og þessum líkt, út af hverjum eg hefi ádur sagt og segi enn þá, ad þeir, sem slíkt gjøra, erfa ekki guds ríki. En ávøxtur andans er kærleiki, fognudur, fridur, þolinmædi, blídleiki, trú, hógværd, bindindi; í gegn slíku er ekki løgmálid. En þeir sem Kristi tilheyra, krossfesta sitt hold med girndum og tilhneigíngum.

## Gudspjallid.

(Lúk. XVII, 11. — 19.).

Það skedi, þegar Jesús gekk til Jerúsalem, ad hann ferdadist í gegnum midja Samaríu og Galíleu; en þá er hann gekk inn í kauptún nokkurt, mættu honum tíu líkþráir menn, sem stódu lángt frá, hófu upp raddir sínar og søgdu: Jesús! gódi meistari! miskuna þú oss! Þegar Jesús leit þá, sagdi hann til

þeirra: farid þér og sýnid ydur kennimönnunum. En þad skedi svo, þá er þeir geingu þadan, ad þeir urdu hreinir. Einn af þessum, þegar hann fann sig ordinn heilbrygdan, snéri aptur, lofandi gud med hárri raust, féll fram á ásjónu sína fyrir fætur Jesú, gjörandi honum þakkir; en þessi var samverskur. Jesús sagdi: hvert voru ekki tíu hreinsadir? en hvar eru þá hinir níu? Einginn faunst sá, er aptur snéri til ad gefa gudi dýrdina, nema þessi útlendíngur. Jesús sagdi vid hann: stattú upp og far hédan, því trú þín gjördi þig hjálplegan.

---

# Á 15. sunnudag eptir trinitatis.

## Kollektan.

Heyr, herra gud! vér bidjum: lát þína ydugléga miskunsemi hreinsa og vernda þína almennilega kristni; en af því hún án þín ekki kann ad verda hölpin, þá láttú hana med þinni nád og gáfu jafnan stjórnast. Fyrir þinn eingetinn og elskulegan son, etc.

## Pistillinn.

(Gal. VI, 1. — 10.).

Elskulegir brædur! Ef vér lifum í andanum, þá gaungum einnig í andanum. Ver-

um ekki ágjarnir hégóma dýrdar, hvor annan innbyrdis ad áreita og øfunda. Kærir brædur! ef nokkur verdur af einhverjum bresti yfirfallinn, þá leidréttid hann med hógværum anda, þér, sem erud andlegir, og hafid gát á sjálfum ydur, ad þér verdid ekki freistadir. Einn beri annars byrdi, þá munud þér uppfylla Krists løgmál. En ef einhver lætur sér þykja þad, hann sé nokkud, þar hann er þó ekkert, sá tælir sjálfan sig. Hver og einn reyni sin eigin verk, þá mun hann á sjálfum sér einúngis hrósun hafa, en ekki á ødrum; þvi hver einn mun sina byrdi bera; en sá, sem fræddur verdur med ordinu, býti hinum allsháttudum gædum, sem hann uppfrædir. Farid ekki villir vega, gud lætur ekki ad sér hæda; þvi hvad madurinn sáir nidur, þad mun hann uppskera. Hver, sem i holdinu nidursáir, sá mun af holdinu skadsemi uppskera; en hver, sem i andanum nidursáir, sá mun af andanum uppskera eilift lif. Þreytumst ekki gott ad gjøra, þvi á sinum tima munum vér uppskera óþreyttir. Þar fyrir, á medan vér høfum timann, þá gjørum gott hverjum manni, einna mest þeim, sem eru trúarinnar heimkynnis.

## Gudspjallid.

(Matth. VI, 24. — 32.).

Jesús sagdi vid sína lærisveina: einginn kann tveimur herrum ad þjóna, því annadhvort afrækir hann hann eina og elskar hinn annan, eda adhyllist hann eina og fyrirlítur hinn annan; þér getid ekki undir eins þjónad gudi og mammóni. Þar fyrir segi eg ydur: verid ekki hugsjúkir fyrir ydru lífi, hvad þér skulud eta og drekka, ekki heldur fyrir ydar líkama, hverju þér skulud klædast; eda er ekki lífid meira en fædslan, og líkaminn meiri en klædnadurinn? Litid á himinsins fugla, sem hvorki sá né uppskera, ekki heldur safna þeir í kornhlødur, þó fædir ydar himneski fadir þá; eda, erud þér ekki miklu ypparlegri en þeir? en hver ydar getur, med áhyggju sinni, aukid einni alin vid leingd sína? En vegna hvers erud þér hugsjúkir fyrir klædnadinum? Hyggid ad akursins liljugrösum hvernig þau vaxa, hvorki vinna þau né spinna; en eg segi ydur, ad Salómon í allri sinni dýrd, var ekki svo skrýddur, sem eitt af þeim; en ef gud klædir svo grasid, sem í dag er á akrinum, en á morgun verdur kastad í ofn, skyldi hann ekki miklu heldur þad sama

vid ydur gjøra, ó, þér lítiltrúadir! Þér skulud því ekki hugsjúkir vera svo segjandi: hvad eigum vér ad eta? hvad eigum vér ad drekka? med hverju eigum vér ad klædast? — því eptir øllu þessu leita heidnar þjódir — en ydar himneski fadir veit, ad þér þurfid alls þessa vid. Þess vegna leitid fyrst guds ríkis og svo hans réttlætis, þá mun ydur allt þetta tilleggjast. Þér skulud því ekki bera áhyggju fyrir morgundegum, því hann mun sjálfur bera umhyggju fyrir sér; hverjum degi nægir sín þjáning.

## Á 16. sunnudag eptir trinitatis.

### Kollektan.

Heyr, almáttugi, eilífi gud! vér bidjum: lát þína nád ætíd vera yfir øss á bak og brjóst, svo vér séum þér réttilega undirgefnir, og uppvek vor hjørtu ad girnast þá nád, ad vér séum reidubúnir til allra gódra verka. Fyrir þinn, etc.

### Pistillinn.

(Eph. III, 13. — 21.).

Elskulegir brædur! Eg bid ydur ad þér

tregist ekki sakir minna hørmúnga, sem eg líd fyrir ydur, sem ydar dýrd er. Þess vegna beygi eg min kné fyrir fødur vors drottins Jesú Krists, af hverjum er allt þad, sem børn kallast á himni og á jørdu, ad hann gefi ydur, eptir ríkdómi sinnar dýrdar, ad styrkjast í krapti fyrir hans anda, í hinum innra manni, svo Kristur, fyrir trúna, byggi í ydrum hjørtum. Ad þér séud rótfestir og grundvalladir í kærleikanum, svo þér mættud høndla, med øllum heiløgum, hver ad sé vídd og leingd, dýpt og hæd, líka ad vita kærleika Krists, sem alla þekkingu yfirgengur, svo þér uppfylltust med allshdttadri guds fyllingu. En honum, sem máttugur er alla hluti yfirgnæfanlegar ad gjørá, heldur en vér bidjum eda skiljum, eptir þeim krapti, sem í oss verkar, þeim sama sé dýrd í søfnudinum, sá í Jesú Kristi er, um aldir alda, amen!

## Gudspjallid.

(Lúk. VII, 11, — 17.).

Þad skedi, ad Jesús gekk til þeirrar borgar, sem kalladist Nain; hans lærisveinar geingu margir med honum, og mikill fjøldi annars fólks. Þegar hann nálægdist borgarhlid-

id, þá var framlidinn madur borinn út, einka sonur módur sinnar, sem var ekkja, og mikill fjoldi borgarmanna gekk út med henni. En þegar Jesús leit hana, hrærdist hann miskunnar yfir henni og sagdi vid hana: grát þú ekki! Hann gekk þar ad, áhrærdi kistuna — en þeir, sem báru, stódu vid — og sagdi: þú, úngmenni, eg segi þér, rís þú upp! Sá settist upp, sem framlidinn var og tók til ad mælá; en Jesús gaf hann aptur módurinni. Allir urdu óttaslegnir, lofudu gud og sogdu: spámadur mikill er á medal vor upprisinn, og gud hefir vitjad síns fólks! En þessi saga barst út af honum um allt Gydingaland og um oll kringumliggjandi hérod.

---

## A 17. sunnudag eptir trinitatis.

---

**Kollektan.**

Heyr, herra gud! vér bidjum þig: veit þinu fólki ad flýa djofulsins áeggjun, og þér einum saman af hreinu hjarta eptir ad fylgja. Fyrir þinn, etc.

**Pistillinn.**

(Eph. IV, 1. — 6.).

Elskulegir brædur! Svo áminni eg ydur

nú, eg, bandíngi í drottni, ad þér gángid eins og verdugt er ydvarri köllun, þar þér erud inni kalladir, med öllu lítilæti og hógværd og þolinmædi og umlídid hvor annan í kærleika. Verid kostgæfnir ad halda eindrægni í andanum fyrir band fridarins. Einn líkami og einn andi, eins og þér erud kalladir í einni von ydrar köllunar. Einn drottinn, ein trú, ein skírn, einn gud og fadir allra, sem er yfir ydur öllum, medal ydar allra og í ydur öllum.

## Gudspjallid.
(Lúk. XIV, 1.—11.).

Þad skedi, ad Jesús kom í hús nokkurs Faríseara höfdingja á þvottdegi, brauds ad neyta, og þeir höfdu vardhald á honum. En svo bar til, ad vatnssjúkur madur nokkur var þar frammi fyrir honum. Jesús spurdi lögvitríngana og Faríseana: er þad leyfilegt, ad lækna á þvottdögum? Þeir þögdu. Jesús tók á hinum vatnssjúka, læknadi hann og lét hann svo á burtu fara, en sagdi vid þá: hvers ydar asni edur naut, sem fellur í pytt, er þad ekki jafnsnart uppdregid á þvottdegi? En—til þess gátu þeir eingu svarad. Jesús sagdi þá þessa eptirlíkíngu til þeirra, sem bodnir voru —

þegar hann merkti hvernig þeir mottust eptir enum ædstu sætum. — Þegar þú verdur bodinn af einhverjum til brúdkaups, þá set þig ekki i hid ædsta sæti; máske annar heidurlegri en þú, sé bodinn af honum, og sá komi, sem þér baud og honum, og segi vid þig: gef þess um rúm! og hljótir þú svo med kinnroda, ad hafa hid yzta sæti. Heldur svo: þegar þú verdur bodinn, þá set þig i hinn yzta sess, svo þegar sá kemur, sem þér baud, segi vid þig: vinur! þoka þér upp betur! þá mun þér virding veitast af þinum sessunautum; þvi — hver sig sjálfur upphefur, hann mun nidurlægjast, og hver, sem sig litillætir, hann skal upphafinn verda.

---

## A 18. sunnudag eptir trinitatis.

---

### Kollektan.

Heyr, herra gud! vér bidjum: lát þitt miskunarverk stýra vorum hjörtum, þvi án þin megnum vér ekki ad þókknast þér. Fyrir þinn, etc.

### Pistillinn.

(1. Kor. 1, 4. — 9.).

Elskulegir brædur! Þakkir gjöri eg gudi

minum jafnan ydar vegna, fyrir þá guds náð, sem ydur er gefin í Jesú Kristi, að þér eruð í øllum hlutum auðugir vorðnir í honum, í øllu orði og í allri þekkingu, eptir því, sem sá vitnisburður Jesú Krists er staðfastur orðinn í yður, svo þér hafið engan brest á nokkri gjøf, eptirbíðandi auglýsingu vors drottins Jesú Krists, hver einnig mun til enda staðfesta yður óstraffanlega til dagsins vors Jesú Krists.

## Guðspjallið.

(Matth. XXII, 34.—49.).

Þegar Farísearnir heyrðu það, að Jesús hafði niður þaggað Sadúseana, samansøfnuðust þeir í eitt. Løgvitringur nokkur af þeim spurði Jesúm að, freistandi hans og sagði: meistari! hvert er hið æðsta boðorð í løgmálinu? Jesús svaraði: það, að þú skalt elska drottinn guð þinn af øllu hjarta þínu, og af allri sálu þinni, og af øllu hugskoti þínu. Þetta er hið fyrsta og stærsta boðorð; en hið annað er þessu líkt, það, að elska skalt þú náúnga þinn eins og sjálfan þig; í þessum tveimur boðorðum er innibundið allt løgmálið og spámennirnir. En þá Farísearnir voru til samans komnir, spurði Jesús þá að og sagði: hvað virðist yður um

Krist, hvers son hann sé? Þeir svörudu honum: Davíds. Jesús spurdi þá aptur: hvernig kallar Davíd hann þá, í anda, herra, þegar hann segir: drottinn sagdi minum drottni: sit þú mér til hægri handar, þángad til eg legg óvini þína skör fóta þinna? Nú, ef Davíd kallar hann herra, hvernin er hann þá hans sonur? En enginn gat svarad honum einu ordi, ekki heldur dirfdist nokkur upp frá þeim degi hann framar ad spyrja.

---

## Á 19. sunnudag eptir trinitatis.

---

### Kollektan.

Heyr, almáttugi og miskunsami gud! útibyrg þú miskunsamlega alla þá hluti, sem oss eru mótstædilegir, svo ad vér lidugir á sálu og lifi mættum í þeim hlutum, sem þér tilheyra, med lostugum hug og hjarta þér eptirfylgja og þókknast. Fyrir þinn eingetinn og elskulegan son, etc.

### Pistillinn.

(Eph. IV, 22. — 28.)

Kærir brædur! Afleggid frá ydur, eptir forurri breytni hinn gamla manninn, fordjarfadan í girndum villudómsins, en endurnýist í anda

ydvars hugskots og íklædist þeim nýa manni, sem eptir gudi er skapadur í réttlæti og heilagleika sannleiksins. Þess vegna afleggid lygar og talid sannleika hver og einn vid náúnga sinn, þar vér erum hvor annars limur innbyrdis. Reidist, en syndgid ekki; látid ekki sólina undirgánga yfir ydvarri reidi; gefid ekki rúm djøflinum; hver stolid hefir, steli hann ekki meir, heldur ervidi og abli med høndunum þad gott er, svo hann hafi ad gefa þeim, sem þurftugir eru.

## Gudspjallid.

(Matth. IX, 1. — 8.).

Jesús sté á skip, fór yfirum aptur og kom í sína borg. Þeir færdu þar til hans limafallssjúkan mann, sem lá í rekkju sinni. En þegar Jesús leit þeirra trú, sagdi hann vid hinn limafallssjúka: vertu hughraustur, sonur! þér eru þínar syndir fyrirgefnar! Nokkrir af skriptlærdum søgdu med sjálfum sér: þessi gudlastar; en er Jesús sá þeirra hugrenningar, sagdi hann: því hugsid þér svo vont í ydar hjørtum? hvort er audveldara ad segja: þér eru þínar syndir fyrirgefnar? ellegar ad segja; statt upp og gakk? En svo ad þér vit-

id, ad mannsins sonur hefir makt á jördu til ad fyrirgefa syndirnar, þá — sagdi hann vid þann limafallssjúka — statt upp, tak í burt sæng þína og gakk í þitt hús. Hann stód upp og fór í sitt hús. En þegar fólkid sá þetta, undradist þad, prísandi gud, sem þvílíka makt hefdi mönnunum gefid.

---

## Á 20. sunnudag eptir trinitatis.

### Kollektan.

Heyr, herra gud! vér bidjum: veit þú mildilega þínum trúlyndum líkn og nád, svo bædi hreinsist þeir af sínum syndum og þjóni þér med hreinu hjarta. Fyrir þinn, etc.

### Pistillinn.
(Eph. v, 15. — 21.).

Gódir brædur! sjáid svo til ad þér gángid forsjállega, ekki eins og fávísir, heldur eins og vísir. Takid vara á tímanum, því þad er vond tíd. Verid því ekki óforsjálir, heldur skiljid hver ad sé vilji drottins. Drekkid ydur ekki víndrukkna, því þar af kemur saurugt líferni, heldur uppfyllist med anda og talid hvor vid

annan af sálmum og lofsaungum og andlegum kvædum, syngjandi og spilandi drottni í ydrum hjörtum, og gjörid þakkir alla tíma gudi födur fyrir alla hluti, í nafni drottins vors Jesú Krists, og verid hver ödrum undirgefnir í guds ótta.

## Gudspjallid.

(Matt. XXII, 1. — 14.).

Jesús taladi í annad sinn í eplirlíkíngum til Faríseanna og sagdi: Himnaríki er líkt þeim konúngi, sem brúdkaup gjördi syni sínum, og sendi út þjóna sína ad kalla bodsmennina til brúdkaupsins, en þeir vildu ekki koma. Í annad sinn sendi hann út adra þjóna og sagdi: segid þér bodsmönnunum: sjáid! mína máltíd hefi eg tilbúid, uxar mínir og alid fé er slátrad og allt er reidubúid, komid til brúdkaupsins! En þeir forsmádu þad og geingu á burt, einn á sinn búgard, en annar til verzlunar sinnar: en hinir adrir gripu þjónana, lögdu þeim hádúngar til og drápu þá. Þegar konúngurinn heyrdi þetta, vard hann reidur, sendi út herlid sitt, fyrirfór þessum mordíngjum og brenndi upp borg þeirra. Þar eptir sagdi hann til þjóna sinna: brúdkaupid er ad sönnu

reidubúid, en þeir, sem voru bodnir, voru þess ekki verdugir; farid því út á gatnamótin og bjódid til brúdkaupsins hverjum, sem þér finnid. Þjónarnir geingu út á strætin, samansøfnudu øllum, sem þeir fundu, vondum og gódum, svo brúdkaupid vard fullt med bordsett fólk. En þá er konúngurinn gekk inn ad sjá þá, sem til bordsins sátu, leit hann þar einn mann, ekki skrýddan brúdkaups klædi, og sagdi til hans: vinur! hvernig gekkst þú inn hingad, hafandi ekki brúdkaups klædi? En, hann þagdi. Þá sagdi konúngurinn til þjóna sinna: bindid hans hendur og fætur, og kastid honum út í yztu myrkur, þar sem vera mun óp og tannagnýstran; því margir eru kalladir, en fáir útvaldir.

---

# A 21. sunnudag eptir trinitatis.

---

## Kollektán.

Heyr, herra gud! vér bidjum: vardveit þinn lýd med jafnlegri miskun þinni, og ad hann mætti, fyrir þína hlífd, verda frjáls frá øllum mótstædilegum hlutum, og med gódu framferdi þínu nafni iduglega þjóna. Fyrir þinn elskulegan son, etc.

## Pistillinn.

(Ef. VI, 10. — 17.).

Elskulegir brædur! styrkizt i drottni og i mætti hans kraptar. Iklædid ydur guds alvepni, svo þér fáid mótstadid djøfulsins umsátrum; þvi vér høfum ekki vid hold og blód ad berjast, heldur vid høfdíngjadæmi og maktarveldi, vid drottna veraldarinnar, vid myrkranna stjórendur þessa heims, vidur illsku anda i loptinu. Þar fyrir takid alvepni guds upp á ydur, svo ad þér getid mótstødu veitt á þeim vonda degi, allt vel framkvæmid, og fáid sigurinn. Svo standid nú umgirtir ydar lendar med sannleikanum, skrýddir brynju réttlætisins og um fæturnar skófatadir, svo sem reidubúnir fram ad fylgja evangelió fridarins. En umfram alla hluti, þá medtakir skjøld trúarinnar, med hverjum þér kunnid út ad sløkkva øll eldleg skeyti hins prettvísa, og gripid hjálm hjálprædisins og sverd andans, hvert ad er guds ord.

## Gudspjallid.

(Jóh. IV, 47. — 53.).

Þar var konúngsmadur nokkur, hvers sonur lá sjúkur i Kapernaum. Þegar hann heyrdi, ad Jesús var kominn af Gydingalandi i Galileu, fór hann til Jesú og bad hann, ad hann

færi ofan þángad og læknadi son sinn, því hann væri ad mestu daudur. Jesús svaradi: nema þér sjáid teikn og stórmerki, trúid þér ekki. Konúngs-madurinn sagdi: herra! far þú ofan, ádur sonur minn andast. Jesús sagdi þá vid hann: far þú! sonur þinn lifir. Madurinn trúdi þeim ordum, sem Jesús sagdi honum, og gekk þadan; en þegar hann fór ofan eptir, geingu þjónar hans á móti honum, kunngjordu honum og søgdu: sonur þinn lifir! Hann spurdi þá ad, á hverjum tíma honum hefdi batnad. Þeir svørudu: í gær um sjoundu stundu hvarf kaldan frá honum. Þá formerkti fadirinn, ad þad var um þann tíma, á hverjum Jesús hafdi sagt: sonur þinn lifir. Og hann trúdi og allt hans heimafólk.

---

# A 22. sunnudag eptir trinitatis.

## Kollektan.

O, herra gud! sem ert vort skjól og styrkur, vertu nálægur gudlegum bænum þinnar almennilegu kristni, og hvad helzt sem vér þig réttilega umbidjum, mættum þad miskunsamlega fá og ødlast. Fyrir þinn, etc.

## Pistillinn.

(Fil. I, 3. — 11.).

Elskulegir brædur! eg em þess ens sama i gódu transti, ad sá, sem i ydur hefir uppbyrjad hid góda verkid, hann mun þad einnig fullkomna allt til dagsins Jesú Krists. Svo sem mér er tilheyrilegt, ad eg meini um ydur alla, því eg ber ydur alla i minu hjarta. I minum fjøtrum og i forsvari og styrkingu evangelii, ydur alla, sem med mér erud nádarinnar hluttakendur. Því gud er minn vottur, hve mjøg eg elska ydur i ydrum Jesú Kristi. Þess sama bid eg, þad ydar kærleiki yfirgnæfi meir og meir i allri vizku og allri reynslu, svo þér megid reyna, hvad bezt er, upp á þad þér séud skírir og án hneykslunar, allt til þess dags Krists, fullir med ávøxtu réttlætisins, hverjir ad ske, fyrir Jesúm Krist, til dýrdar og lofs gudi.

## Gudspjallid.

(Matt. XVIII, 23. — 35.).

Jesús sagdi vid sina lærisveina: himnariki er likt þeim konúngi, sem reikna vildi vid þjóna sina, en er hann tók til ad reikna, kom einn fyrir hann, sem honum var skyldugur um tin

þúsundir punda; en þar hann hafði það ekki til, sem skyldi gjalda, bauð konúngurinn að selja hann, konu hans og born og allt, sem hann ætti, til að borga þar með. Þjóninn féll fram, bað hann og sagði: haf þolinmæði við mig, allt skal eg gjalda þér! Konúngurinn sá aumur á þeim þjóni, lét hann lausan og gaf honum upp alla skuldina. En er hann gekk út, hitti hann einn af samlagsþjónum sínum, sem átti að gjalda honum hundrað peninga; þann sama handtók hann, greip fyrir kverkar honum og sagði: gjald það, þú ert mér skyldugur! Samlagsþjóninn féll til fóta hans, bað hann og sagði: hafðú þolinmæði við mig, allt skal eg gjalda þér! En hann vildi ekki, heldur fór á burtu og lét hann í dýflissu, uns hann hafði borgað sína skuld. Þegar samþjónar hans sáu, hvað skeði, urðu þeir mjøg hryggvir, fóru og kunngjørðu konúnginum það, sem gjørzt hafði. Þá kallaði konúngur hann fyrir sig og sagði: þú, illur þjón! alla þína skuld gaf eg þér upp, af því þú baðst mig; hvert bar þér þá ekki miskunsømum að vera við þinn samlagsþjón, eins og eg var þér miskunsamur? Konúngurinn varð reiður og ofurseldi þann þjón kvol-

urunum, þángad til hann hafdi borgad allt þad, sem hann var skyldugur. Svo mun og minn himneski fadir gjöra vid ydur, ef ad hver og einn ydar fyrirgefur ekki af hjarta bródur sínum hans misgjördir.

---

# Á allra heilagra messu.

---

### Kollektan.

Heyr, þú almáttugi, eilífi gud! sem vildir heilaga gjöra alla þína útvalda og elskulega, í þínum eingetna og elskulega syni; láttú oss þeirra trú, von og kærleika eptirfylgja, svo ad vér med þeim mættum verda sáluhólpnir. Fyrir þinn eingetinn og elskulegan son, etc.

### Pistillinn.

(Jóh. Opinb. VII, 1. — 12.).

Eptir þad sá eg fjóra eingla standa á fjórum hornum jardarinnar, og þeir innihéldu fjórum vindum jardarinnar, svo ad einginn vindur blés á jördina, né á sjóinn né á nokkurt tré. Og eg sá annan eingil uppstiga af uppgaungu sólarinnar, sá hafdi innsigli lifanda guds. Hann kalladi hárri röddu til hinna fjögra einglanna, hverjum gefid var ad granda jördunni og sjónum og sagdi: grandid ekki jördunni, ekki sjónum né trjánum, á medan vér innsiglum

þjóna vors guðs á þeirra ennum. Eg heyrði og tølu þeirra, sem innsiglaðir voru: hundrað, fjórar og fjørutíu þúsundir voru innsiglaðir í allri kynkvísl Israels sona. Af kyni Júda tólf þúsundir innsiglaðir. Af kyni Rúbens tólf þúsundir innsiglaðir. Af kyni Gaðs tólf þúsundir innsiglaðir. Af kyni Assers tólf þúsundir innsiglaðir. Af kyni Neptalims tólf þúsundir innsiglaðir. Af kyni Manasse tólf þúsundir innsiglaðir. Af kyni Símeons tólf þúsundir innsiglaðir. Af kyni Levi tólf þúsundir innsiglaðir. Af kyni Isaskars tólf þúsundir innsiglaðir. Af kyni Sabúlons tólf þúsundir innsiglaðir. Af kyni Jósefs tólf þúsundir innsiglaðir. Af kyni Benjamíns tólf þúsundir innsiglaðir. En eptir það sá eg, að skari mikill, hvern eingiun gat talið, af øllum kynkvíslum, þjóðum og fólki og túngumálum, stóð frammi fyrir stólnum og lambinu, umskrýddur hvítum skrúða, og pálmaviður var í høndum þeirra. Þeir kølluðu hárri røddu og søgðu: heilsa sé þeim, sem á stólnum situr, vorum guði og lambinu. En allir einglar stóðu umhverfis stólinn og kríngum øldúngana og um kring þau fjøgur dýrin, féllu niður fyrir stólnum fram á þeirra ásjánir og tilbáðu guð og søgðu: amen! lof

og dýrd og speki og þakkir og heidur og kraptur og styrkleiki sé vorum gudi um aldir og ad eilífu, amen!

## Gudspjallid.

(Matt. v, 1.—12.).

Þegar Jesús leit fólkid, gekk hann upp á fjallid; en þá er hann setti sig nidur, geingu lærisveinarnir til hans. Jesús taladi til þeirra og sagdi: sælir eru þeir, sem andlega eru voladir, því þeirra er himnaríki. Sælir eru þeir, sem harma, því þeir munu huggadir verda. Sælir eru hógværir, því þeir munu jardríkid erfa. Sælir eru þeir, sem húngra og þyrsta eptir réttlætinu, því þeir skulu saddir verda. Sælir eru miskunsamir, því þeir munu miskun odlast. Sælir eru hreinhjartadir, því þeir munu gud sjá. Sælir eru þeir, sem fridinn semja, því þeir munu guds börn kalladir verda. Sælir eru þeir, sem fyrir réttlætisins sakir ofsóktir verda, því þeirra er himnaríki. Sælir erud þér, þegar menn hallmæla ydur og ofsókn veita, og tala í gegn ydur alla vonzku fyrir mínar sakir, þó ljúgandi; fagnid þér og verid gladir, því ydar verdkaup er mikid á himnum.

Þannig ofsóktu þeir þá spámenn, sem fyrir ydur voru.

## Á 23. sunnudag eptir trinitatis.

### Kollektan.

Heyr, herra gud! vér bidjum: afleys syndir þins fólks, og lát oss af vorum syndabøndum, sem vér, sakir vors breyskleika, erum bundnir, med þinni mildi leysast. Fyrir þinn, etc.

### Pistillinn.

(Fil. III, 17. — 21.).

Kærir brædur! verid minir eptirbreytendur, og gætid ad þeim, sem svo gánga, líka sem þér hafid oss til fyrimyndar; því margir gánga svo, af hverjum eg hefi optsinnis sagt ydur, en nú segi eg ydur grátandi, þeir óvinir krossins Krists, hverra æfilok er fyrirdæmingin, hverra gud maginn er, og þeirra vegsemd, sem jardlega sinnadir eru, verdur til skammar. En vor borgarréttur er á himni, hvadan vér væntum frelsarans, drottins vors Jesú Krists, sá ed vorn fáseingan líkama mun forklára, svo hann líkur verdi hans forklárudum líkama, eptir þeim

krapti, sem hann kann sér alla hluti med undirgefna ad gjøra.

## Gudspjallid.

(Matt. XXII, 15. — 22.).

Farísearnir geingu á burt og héldu ráð, hvernig þeir feingi veitt Jesúm í ordum. Þeir sendu til hans lærisveina sína med Heródesar þénurum, og létu segja honum: meistari! vér vitum, ad þú ert sannsøgull, kennir guds gøtu í sannleika, og skeytir ekki nokkrum, því þú fer ekki ad mannvirdíngum. Þar fyrir seg þú oss, hvad þér lízt: Hvort leyfist ad gefa keisaranum skatt, eda ekki? En þegar Jesús merkti vonzku þeirra, sagdi hann: hvad freistid þér mín? hræsnarar! sýnid mér myntina skattsins. Þeir feingu honum einn pening. Jesús spurdi þá: hvers mynd og yfirskript er þetta? Þeir svørudu: keisarans. Jesús sagdi þeim: gefid þá keisaranum, hvad keisarans er, og þad gudi, hvad guds er. En þegar þeir heyrdu þetta, undrudust þeir, yfirgáfu hann og geingu á burt.

# Á 24. sunnudag eptir trinitatis.

---

## Kollektan.

Eilífi, almáttugi guð! sýndu þínum útvöldum börnum gæzku þinnar eilífrar miskunar, svo að þau mættu hafa huga og vilja til þín, og að þeirra hjörtu séu reiðubúin til allra góðra verka og þróist í öllu því, sem þér vel þókknast. Fyrir þinn elskulegan son, etc.

## Pistillinn.

(Kóloss. 1, 9. — 14.).

Elskulegir bræður! Þar fyrir vér einninn, allt frá þeim degi þá vér hofðum það heyrt, létum vér ekki af fyrir yður að biðja og beiðast, að þér uppfyllizt með þekkingu hans vilja og allsháttuðum andlegum visdómi og skilningi, svo að þér gángið í þekkingu drottni verðuglega til allrar þókknunar. Að þér séuð ávaxtarsamir í öllum góðum verkum, farið vaxandi í þekkingu guðs og styrkizt í öllum krapti, eptir mætti hans dýrðar, í allri þolinmæði og lánglundargeði með fögnuði, gjörandi þakkir föðurnum, sem oss hefir skapfellega gjört, til að öðlast hlutskipti heilagra í ljósinu. Sá eð oss hefir frelsað af yfirvaldi myrkranna, og hefir sett oss í ríki síns elskulega sonar, í hverjum

vér höfum endurlausnina fyrir hans blóð, sem er syndanna fyrirgefning.

### Guðspjallið.

(Matt. IX, 18. — 26.).

Þegar Jesús talaði þetta til þeirra, kom þar að höfðingi nokkur, sem bað hann og sagði: dóttir mín er nýsáluð, en kom þú og og legg hönd þína yfir hana, og mun hún lifa. Jesús stóð upp og fylgdi honum, og líka hans lærisveinar. En kona nokkur, hver eð hafði blóðfall haft í tólf ár, gekk á bak til við Jesúm, og snerti fald klæðnaðar hans; því hún sagði við sjálfa sig: mætti eg að eins snerta klæðnað hans, mundi eg verða heilbrigð. Jesús snéri sér við, leit til hennar og sagði: vertú hughraust, dóttir! trú þín gjörði þig heilbrigða, og á sömu stundu varð konan heilbrigð. En þegar Jesús kom inn í höfðingjans hús, og sá þar lúðurþeytara og buldrun fólksins, sagði hann: vikið á burt, því stúlkan er ekki dauð, heldur sefur hún; en þeir dáruðu hann. Þegar fólkið var komið út, gekk Jesús þar inn, tók um hönd stúlkunnar, og hún stóð upp. Þetta rykti barst út um allt það sama land.

---

# Á 25. sunnudag eptir trinitatis.

## Kollektan.

Drottinn gud, himneski fadir! tjá þú oss aumum og syndugum þína miskunsemi. Og eptir því vér megum ekki reida oss upp á vora verdskuldun, heldur einúngis treysta þinni náð, svo að vér ekki skulum falla í þann stránga dóm, að vér þá mættum leysast þar frá, fyrir þína náð og miskunsemi. Fyrir þinn elskulegan son, etc.

## Pistillinn.

(1. Tess. IV, 13. — 18.).

Elskulegir brædur! En vér viljum ekki dylja fyrir ydur um þá, sem sofa, upp á það, að þér séud ekki hryggvir, eins og þeir adrir, sem einga von hafa. Því ef vér trúum, að Jesús sé dáinn og upp aptur risinn, svo mun og gud einnig þá, sem sofnadir eru, fyrir Jesúm, með honum framleida; því það segjum vér ydur, svo sem ord drottins, að vér, sem lifum og eptir blifum í tilkomu drottins, vér munum ekki fyrir þeim koma, sem sofnadir eru; því drottinn sjálfur mun med hrópi, höfudeingilsins raustu og lúdri guds ofankoma af himnum, og hinir daudu í Kristi skulu fyrst upprisa. Eptir á vér, sem lifum og eptirbidum, verdum undir eins upprykktir med þeim sömu í

skýin til móts vid drottinn, i loptid, og munum svo hjá drottni vera alla tíma. Þar fyrir huggid nú hver annan innbyrdis med þessum ordum.

## Gudspjallid.

(Matt. XXIV, 15. — 28.).

Jesús sagdi vid sína lærisveina: þegar þér sjáid svívirdingu foreydslunnar standandi í helgum stad, af hverri sagt er fyrir spámanninn Daníel; hver sem þad les, hann hyggi þar ad! Hverjir þá eru á Gydíngalandi, flýi þeir á fjöll; og hver sem er á rjáfri, fari hann ekki ofan, til ad taka nokkud úr húsi sínu, og hver sem er á akri, snúi hann ekki heim aptur, til ad taka klædi sín. En — vei þúngudum og brjóstmylkingum á þeim dögum! Bidjid, ad ydar flótti verdi ekki um vetur, og ekki á þvottdegi, þvi þá mun verda svo mikil hormúng, ad þvílík var ekki frá veraldar uppafi til þessarar stundar, og ekki heldur mun verda, og nema þessir dagar verdi styttir, verdur ekkert hold hólpid; en fyrir útvaldra sakir skulu þeir styttast. Ef nokkur segir þá til ydar: hér er Kristur eda þar, þá skulud þér ekki trúa þvi, þar upp munu rísa fals-kristar og fals-spá-

menn, sem gjøra munu mikil tákn og undur, svo i villu munu leidast, ef mogulegt væri, jafnvel útvaldir. Sjáid! eg sagdi ydur þad fyrir. Þar fyrir, ef sagt er vid ydur: sjáid! hann er á eydimørku! þá gángid ekki út þángad; sjáid! hann er i launkofum! þá trúid því ekki. Því eins og elding útgeingur af uppgaungu, og skín allt til nidurgaungu, svo mun og verda tilkoma mannsins sonar; því hvar helzt sem hræid er, þángad munu og ernirnir safnast.

## A 26. sunnudag eptir trinitatis.

### Kollektan.

Heyr þú, miskunsami, eilifi gud, himneski fadir! vér bidjum, ad þú viljir uppvekja oss, svo ad vér mættum med allri ástundun framgánga i kristilegum gódum verkum, en jafnan styrkjast i þér og i øllum gudlegum hlutum. Fyrir þinn elskulegan son, etc.

### Pistillinn.

(1. Tess. v, 12. — 23.).

En vér bidjum ydur, brædur! ad þekkja þá, sem ervida á medal ydar, og eru ydar forstødumenn i drottni og áminna ydur, og halda þá, eins og þá, sem yfirfljótanlega eiga ad elsk-

ast fyrir þeirra verka sakir. Verid fridsamir innbyrdis. En vér áminnum ydur, brædur! áminnid ósidsama; huggid ístødulitla; stydjid veika; verid þolinmódir vid alla; sjáid til, ad einginn gjaldi nokkrum illt fyrir illt, heldur keppizt ætid eptir enu góda, bædi innbyrdis og vid alla. Verid jafnan gladir; bidjid án afláts; verid í øllu þakklátir; þvi þad er vilji guds í Kristi Jesú til ydar. Utsløkkvid ekki andann; foraktid ekki spádómana; prófid alla hluti, og haldid enu góda: fordizt allt, sem hefir illt álit. En sjálfur gud fridarins helgi ydur øldúngis og gjørvallur ydar andi og sál og líkami vardveitist óstraffanlega í tilkomu drottins vors Jesú Krists.

## Gudspjallid.

(Matt. XI, 25. — 30.).

A þeim sama tima sagdi Jesús: Eg þakka þér, fadir og drottinn himins og jardar! ad þú duldir þetta fyrir spekingum og vitringum, en opinberadir þad smælingjum! Ad sønnu, fadir! var þér þad svo þægilegt. Allir hlutir eru mér i vald gefnir af fødur minum. Einginn þekkir soninn nema fadirinn, og einginn þekkir fødurinn nema sonurinn og þeir, sem

hann vill það kunngjöra. Komið til mín allir þér, sem erviðið og eruð þúnga hlaðnir, eg skal endurnæra yður. Takið á yður mitt ok, og lærið af mér; því eg er hógvær og af hjarta lítillátur, og munuð þér finna hvíld sálum yðar; því mitt ok er sætt og mín byrði létt.

## Á 27. sunnudag eptir trinitatis.

Kollekta, pistill og guðspjall stendur á 6. sunnudag eptir þrettánda. (Sjá bls. 31. — 33).

# Jesú Krists
# píslarsaga,
eptir þeim
**fjórum gudspjallamönnum**
samanlesin.

---

## Fyrsti partur.

Þegar Jesús og hans lærisveinar, eptir kvöldmáltídina, höfdu lofsaunginn súngid, gekk hann út ásamt þeim, eins og hann var vanur, yfir um lækinn Kedron til Olín-fjallsins. Hann sagdi þá til þeirra: á þessari nóttu munud þér allir hneykslast á mér; því skrifad er: hirdirinn mun eg slá, og saudir hjardarinnar munu sundurtvístrast, en þegar eg rís upp aptur, mun eg birtast ydur í Galíleu. Pétur svaradi: þó allir hneyksli sig á þér, skal eg þó aldrei hneykslast. Jesús sagdi: saunlega segi eg þér: ad í dag, ádur en haninn galar tvisvar, munt þú afneita mér þrisvar. Pétur taladi þá enn frekar og sagdi; já, þó eg ætti ad deya med þér, skal eg ekki afneita þér: hid sama sögdu og allir lærisveinarnir. Þá kom Jesús

med þeim í það akurgerði, sem hét Getsemane, þar var grasgarður, og þar gekk Jesús inn með lærisveinunum; en Júdas, sem sveik hann, vissi og þenna stað, því Jesús safnaðist opt þángað með lærisveinum sínum. Þá Jesús kom í þann stað, sagði hann við lærisveinana: setjið ykkur hér, á meðan eg fer burt og biðst fyrir; biðjið, svo þér fallið ekki í freistni. Hann tók með sér Pétur, Jakob og Jóhannes, þá tvo sonu Zebedeusar, og tók til að hryggjast, titra af hræðslu og harmþrúnginn að verða, og sagði til þeirra: sála mín er hrygg allt í dauðann, bíðið hér og vakið með mér. En hann sleit sig í burtu frá þeim, og gekk litlu fram leingra, nær einu steinsnari, kraup á kné, féll fram á ásjónu sína til jarðar og bað: ef það mögulegt væri, að sú stund hjá sér liði, og sagði: Faðir minn! ef mögulegt er, þá víki þessi kaleikur frá mér. Abba, faðir minn! allt er þér mögulegt, tak burt þenna kaleik frá mér, þó ekki hvað eg vil, heldur sem þú vilt. Hann kom aptur til lærisveinanna, en fann þá sofandi. Hann sagði við Pétur: Símon! sefur þú? megnaðir þú ekki að vaka með mér eina stund? vakið ag biðjið, svo þér freistist ekki;

andinn er reiðubúinn, en holdið er veikt. Í annað sinn gekk hann burt aptur, baðst fyrir, talaði sömu orðum og sagði: Faðir minn! ef það er ekki mögulegt, að þessi kaleikur víki frá mér, utan eg drekki hann, þá verði þinn vilji. Hann snéri aptur, kom og fann þá enn sofandi; augu þeirra voru svo þrúngin af svefni, að ekki vissu, hverju þeir svöruðu honum. Jesús skildi við þá, gekk á burt aptur, bað í þriðja sinni með sömu orðum og sagði: Faðir! ef þú vilt svo, þá tak þenna kaleik frá mér, þó ekki minn, heldur verði þinn vilji! Honum birtist þá eingill af himni, sem styrkti hann; en þegar Jesús var staddur í dauðans stríði, tók hann ákaflega að biðja; en sveiti hans varð eins og blóðhniklar, sem féllu á jörðina. Hann stóð upp frá bæninni, kom til lærisveinanna í þriðja sinn, og fann þá sofandi út af hrygð, og sagði til þeirra: sofið þér nú það eptir er, og hvílizt! Hvað, sofið þér? það er nóg; standið upp og biðjið, svo þér fallið ekki í freistni. Sjáið! sú stund tekur að nálgast, og er komin, að mannsins sonur mun ofurseljast í syndugra hendur. Standið upp og gaungum héðan, sjáið! sá er mig svíkur, hann er í nánd.

## Annar partur.

Jafnsnart, sem Jesús var enn ad tala um þetta, sjá! einn af þeim tólf, sem Júdas hét, þá er hann hafdi nú til sín tekid flokk manna og þénara kennimanna-höfdingjanna og Faríseanna, kom hann þángad og med honum flokkur mikill med blysum, lömpum, sverdum, staungum og vopnum, útsendir af kennimanna-höfdíngjum, skriptlærdum og öldúngum, og hann gekk fyrir þeim. Sem Jesús vissi nú allt, hvad yfir hann átti ad koma, gekk hann fram, og sagdi til þeirra: ad hverjum leitid þér? þeir svørudu honum: ad Jesú af Nazaret. Jesús sagdi til þeirra: eg er hann. En Júdas sá ed sveik hann, stód einninn hjá þeim. En sem Jesús sagdi til þeirra: eg er hann? hörfudu þeir á bak aptur, og duttu til jardar. Hann spurdi þá enn einn sinni: ad hverjum leitid þér? En þeir søgdu: ad Jesú af Nazaret. Jesús svaradi: eg sagdi ydur þad, eg er hann; þar fyrir, ef þér leitid ad mér, þá látid þessa á burt fara — svo ad uppfylltist þad ord, er hann hafdi sagt: ad eingum glatadi eg af þeim, sem þú gafst mér, (Jóh. 17.). — En svikarinn hafdi gefid þeim sameiginlegt teikn og sagt:

hvern helzt eg kyssi, sá er það, grípið hann og leiðið á burtu varhygðarlega. Og þá hann kom, nálgaðist hann Jesúm, að hann kyssti hann, og jafnsnart gekk hann til hans og sagði: heill sértú, Rabbi! og kyssti hann. En Jesús sagði til hans: vinur! hvar fyrir ertú kominn? Júdas! svíkur þú mannsins son með kossi? Þá geingu þeir þángað, lögðu sínar hendur á Jesúm og gripu hann. En þá eð þeir, sem hjá honum voru, sáu, hvað verða vildi, sögðu þeir til hans: Herra! skulum vér slá með sverði? og sjá! að einn af þeim, sem með Jesú voru og þar stóðu, Símon Pétur hafði sverð, rétti út höndina og rikkti því, og sló til presta-höfðingjans þénara, og hjó af honum hans hið hægra eyra, og sá þénari hét Malkus. En Jesús svaraði og sagði: leyfið einúngis þetta! og hann áhrærði hans eyra, og læknaði hann. Og hann sagði til Péturs; stikktú þínu sverði í slíðrir, því að hver að sverðið tekur, sá mun fyrir sverði farast; eða meinar þú, að eg kunni ekki nú að biðja minn föður, það hann sendi mér meir en tólf legiónir eingla? skal eg ekki drekka þann kaleik, hvern eð minn faðir hefir mér gefið? en hverninn skyldu þá ritníngarn-

ar uppfylltar verda? því það hlýtur svo að ske. Á þeim tíma svaraði Jesús og sagði til fólksins og þeirra prestahøfðingja, og høfudsmanna musterisins og öldúngana, sem til hans vorn komnir: þér erud eins og til annars ræníngja útgeingnir með sverdum og staungum að grípa mig. Daglega hefi eg hjá ydur verið, setið og kennt í musterinu, og þér hafið eingar hendur á mig lagt og ekki gripið mig, heldur er þetta ydar tími og makt myrkranna, svo að ritningarnar uppfylltust. En allt þetta er sked, svo að uppfyllist ritníngar spámannanna. Þá forlétu hann allir lærisveinarnir og flýðu. Og þar var úngur maður, sá er honum eptirfylgdi, hann var með líni klæddur yfir bert hørund, og úngmenni gripu hann; en hann snaraði línklæðinu, og flýði nakinn í burt frá þeim.

## Þriðji partur.

En flokkurinn og hinn ypparsti høfudsmaður og þénarar Gyðinganna gripu Jesúm, og bundu hann, og leiddu hann fyrst burt til Hannasar, sem var faðir konu Kaífasar, hver eð þá var þess árs æðsti prestur, og þeir burtleiddu Jesúm fánginn til Kaífasar kennimanna-

höfdingja; en Kaifas var sá, sem Gydingum gaf þad ráð: ad betur færi, þad einn madur dæi fyrir fólkid. Og þeir innleiddu hann i hús þess ypparsta prests, þar ed med honum allir kennimannahöfdingjar, skriptlærdir og öldúngar voru samankomnir. En Simon Pétur fylgdi Jesú eptir áleingdar, allt i forstofu kennimanna-höfdingjans, og einn annar lærisveinn, sá sami var kunnugur kennimanna-höfdingjanum, og gekk inn med Jesú i forstofu kennimanna-höfdingjans, en Pétur stód þar úti fyrir dyrunum. Þá gekk út sá annar lærisveinn, sem kennimanna-höfdingjanum var kunnugur, og taladi vid dyravörzlu konuna og leiddi Pétur inn leingra i forstofu kennimanna-höfdingjans, og hann gekk inn; þvi ad þénarnir höfdu eld kveiktan i midri forstofunni, og sezt til samans, en Pétur setti sig á milli þeirra, og vermdi sig vid logann, ad hann sæi, hver endir þar á yrdi. En Pétur sat utar i forstofunni, og þar hann var fram betur i forstofunni, kom ein af ambáttum kennimanna-höfdingjans, og þá hún leit Pétur sitja vid logann og verma sig, leit hún til hans og stardi á hann, gekk til hans og sagdi: hvort ert þú og einn af þess manns

lærisveinum? og þú varst með Jesú þeim Galí-
leiska af Nazaret. En hann afneitaði honum
fyrir öllum, segjandi: kona! ekki er eg, eg
þekki hann ekki, og ekki veit eg, hvað þú segir:
og hann gekk út í fordyrið, og haninn gól. En
þrælarnir og þénarnir stóðu, sem gjört höfðu
kola-eld, og vermdu sig, því að kuldi var.
Pétur stóð þar hjá þeim og vermdi sig. En
kennimanna-höfðinginn spurði Jesúm þá að
um hans lærisveina og hans kenningu; og
Jesús svaraði honum: eg hefi opinberlega tal-
að í heiminum; eg hefi og með jafnaði kennt
í samkunduhúsum og í musterinu, þar eð Gyð-
ingar alstaðar að koma til samans, og ekkert
hefi eg í leynum talað; hvað spyr þú mig að
þessu? spyr þú þá þar að, sem heyrt hafa,
hvað eg hefi talað til þeirra: sjá þú! þeir hin-
ir sömu vita, hvað eg hefi sagt; en sem hann
talaði þetta, gaf einn þénaranna, sem þar stóð
hjá, honum kinnhest, og sagði: skaltú svo svara
biskupinum? Jesús svaraði: hafi eg illa tal-
að, þá bevisa það, að það sé órétt, en hafi eg
satt sagt, því slær þú mig þá? Hannas sendi
hann þá bundinn til Kaifasar kennimanna-
höfðingja. En ambáttin, er hún sá Pétur,

tók aptur til að segja þeim, sem þar hjá stóðu: þessi er einn af þeim. En er hann gekk út um dyrnar, leit hann önnur ambátt og sagði til þeirra, sem þar voru: þessi var og með Jesú af Nazaret; litlu síðar sá hann enn annar og sagði: þú ert og einn af þeim: enn framar töluðu þeir til hans: ertú af hans lærisveinum? og í annað sinn neitaði Pétur aptur með eiði og sagði: maður! ekki er eg það, ekki þekki eg þann mann. En þeir æðstu prestar og öldúngar, og allt ráðið leituðu ljúgvitna í gegn Jesú, svo að þeir gætu honum í hel komið, en fundu ekki; og þó margir ljúgvottar geingi þar fram að, þá fundu þeir ekkert, því að margir báru falsvitni á móti honum, en þeirra vitnisburðir voru ekki samhljóða. En að síðustu stóðu upp og geingu fram nokkir, tveir falsvottar, og báru ljúgvitni á móti honum og sögðu: vér höfum heyrt hann segja: eg kann og vil niðurbrjóta þetta musteri guðs, sem með höndum er gjört, og á þremur dögum uppbyggja annað, það ekki er með höndum gjört, en þeirra vitnisburðir urðu enn þá ekki samhljóða. Sá æðsti prestur stóð þá upp mitt á milli þeirra, spurði Jesúm að, og sagði til

hans: svarar þú eingu? hvad vitna þessir á móti þér? En Jesús þagdi og svaradi eingu. Þá ansadi enn aptur sá ædsti prestur, spurdi hann ad og sagdi til hans: ertú Kristur, sonur hins blessada? eg særi þig vid lifanda gud, ad þú segir oss, ef þú ert Kristur, sonur guds! Jesús sagdi til hans: þú sagdir þad, eg er; en þó segi eg ydur: hér eptir munnd þér sjá mannsins son sitja til hægri handar kraptarins, og komanda í skýum himins. Þá reif kennimanna-høfdinginn sín klædi í sundar og sagdi: hann gudlastar. Hvad þurfum vér nú framar vitnanna vid? sjá! þér heyrdud nú sjálfir hans gudløstun. Hvad virdist ydur? en þeir fordæmdu hann allir og søgdu: hann er daudans sekur. Litlum tíma þar eptir, nær einni stundu, styrkti einhver annar (ad Pétur væri einn af Jesú lærisveinum), og sagdi: ad sønnu var og þessi med Jesú, því hann er Galílearí. Og aptur geingu þeir ad, er hjá stódu, og søgdu til Péturs: sannarlega ertú af þeim, því ad þitt túngumál er samhjóda, og opinberar þig. Þá sagdi einn af kennimannahøfdíngjans þénurum, frændi þess, sem Pétur hjó af eyrad: sá eg þig ekki í grasgardinum

med Jesú? Þá neitadi Pétur því enn aptur og sagdi: madur! eigi veit eg, hvad þú segir. Þá tók hann til ad formæla sér og sverja: eigi þekki eg þann mann, um hveru þér talid. Jafnsnart er hann nú taladi enn framar, gól haninn í annad sinn, og drottinn snéri sér vid, og leit til Péturs, þá minntist Pétur Jesú orda, er hann hafdi sagt til hans: ádur en haninn galar tvisvar, munntú afneita mér þrisvar; og hann gekk út og grét beisklega. Þá tóku nokkrir ad spýta á Jesúm, í hans ásjónu, og børdu hann med knefum, en þénararnir og þeir menn, sem héldu honum, dárudu hann og slógu, byrgdu hans ásjónu, slógu hann med knefum, spurdu hann og søgdu: spá þú oss, hver er sá þig sló? og margt annad hádunglegt søgdu þeir vid hann.

## Fjórdi partur.

Strax um morguninn, er dagur var, sofnudust saman og héldu rádstefnu allir ædstu prestar med öldúngum lýdsins og skriptlærdum, og þar ad auki øllu rádinu, móti Jesú, svo ad þeir gætu honum í hel komid, og leiddu hann upp fyrir sitt rád, og søgdu: ef þú ert Kristur,

seg oss þad? og hann sagdi til þeirra: ef eg segi ydur þad, þá trúid þér því ekki, en ef eg spyr ydur, þá svarid þér mér ekki, eda látid mig lausan. Nú hédan í frá mun mannsins sonur sitja til hægri handar guds kraptar. En þeir sögdu allir: ertú þá guds sonur? hann sagdi þá til þeirra: þér segid þad, eg em hann. Þá sögdu þeir: hvad þurfum vér nú vitnisbúrdinn leingur, vér sjálfir heyrdum þad af hans munni. Og allur sá skari þeirra stód upp, og bundu Jesúm, og leiddu hann á burt frá Kaifasi og í þínghúsid, og ofurseldu hann landsdómaranum Pontío Pilató; en þad var snemma morguns. Þá er Júdas, hver ed hafdi svikid Jesúm, sá þad hann var til dauda dæmdur, idradist hann þess, og færdi aptur þeim ædstu prestum og öldúngum þá þrjátíu silfurpeninga, og sagdi: syndgad hefi eg, ad eg sveik saklaust blód; en þeir sögdu: hvad kemur þad vid oss? sjá þú þar fyrir. Og hann snaradi þeim silfurpeningum í musterid, skundadi þadan, gekk á burt og heingdi sjálfan sig. En þeir ædstu prestar tóku silfurpeníngana og sögdu: ekki hæfir, ad vér látum þá í guds kistuna, því ad þad er blódsverd. En þeir héldu rád, og

keyptu med þeim leirsmids = akur, framandi mønnum til greptrunar. Fyrir þad er sá akur kalladur blóds-akur allt til þessa dags. Þá er uppfyllt, hvad sagt er fyrir Jeremías spámann, er svo hljódar: þeir tóku þá þrjátíu silfurpenínga, er hinn seldi var med betaladur, hvern þeir keyptu af Israels børnum, og hafa gefid þá fyrir leirkerasmids = akur eptir því sem drottinn hafdi mér bodid. Høfudprestarnir og øldúngarnir geingu ekki sjálfir inn í þínghúsid, ad þeir saurgudust ekki, heldur svo þeir mættu neyta páskanna. Pílatus gekk þá út til þeirra og spurdi: hverja ákæru færid þér í gegn þessum manni? þeir svørudu: ef þessi væri ekki íllrædismadur, þá hefdum vér ekki feingid hann þér í hendur. Pilatus sagdi: takid þér hann þá, og dæmid eptir ydar løgum. Gydingar svørudu: oss leyfist ekki ad lífláta nokkurn, svo þad ord Jesú uppfylltist, er hann sagdi teiknandi þar med, hverjum dauda hann skyldi deya. Jesús stód frammi fyrir landsdómaranum, en þeir tóku ad áklaga hann og søgdu: þenna finnum vér frásnúa fólkinu, fyrirbjóda ad gefa keisaranum skatt, og segir sig vera konúnginn Krist. Þá gekk í annad sinn inn landsdóm-

arinn Pilatus, kalladi Jesúm og spurdi: ertú konúngur Gydinga? Jesús svaradi: talar þú þad af sjálfum þér, eda hafa adrir sagt þér þad um mig? Pilatus spurdi þá: er eg nokkud Gydingur? þín þjód og kennimanna-høfdíngjar ofurseldu þig mér; hvad hefir þú gjørt? Jesús svaradi: mitt ríki er ekki af þessum heimi; ef mitt ríki væri af heiminum, mundu þénarar mínir strída þar fyrir, svo eg ofurseldist ekki Gydingum, en nú er mitt ríki ekki þadan. Pilatus spurdi: ertú þó samt konúngur? Jesús svaradi: Þú segir þad, eg er og konúngur; til þess er eg fæddur og í heiminn kominn, ad eg beri vitni sannleikanum, og hver hann er af sannleikanum, sá heyrir mína rødd. Pilatus spurdi: hvad er sannleikurinn? gekk sídan út aptur til Gydinga, og sagdi til þeirra yppurstu presta og lýdsins: einga søk finn eg med þessum manni; en høfudprestarnir ákløgudu hann hardlega, og er hann áklagadist af þeim og øldúngunum, svaradi hann eingu. Pilátus spurdi hann þá: svarar þú eingu? heyrir þú ekki, hversu hardlega þeir áklaga þig? En Jesús svaradi honum eingu framar til nokkurs ords, svo landsdómarinn undradist þad

nærsta. En hinir voru þess ákafari og sögdu: hann hefir uppæst fólkid, med því hann hefir kennt á öllu Gydingalandi, og hefir tiltekid í Galileu allt hingad. En er Pílatus heyrdi Galileu nefnda, spurdi hann ad, hvert hann væri Galileiskur? en þá hann heyrdi, ad Jesús var undir Heródesar veldi, sendi Pílatus hann til Heródesar, er líka var á þeim sömu dögum í Jerúsalem. En er Heródes sá Jesúm, vard hann nærsta gladur, því hann hafdi fyrir laungu girnzt ad sjá hann, af því hann hafdi margt heyrt af honum, og vænti, ad hann mundi sjá teikn af honum, adspurdi hann því á marga vegu, en hann svaradi honum eingu. Kennimannahöfdingjar og skriptlærdir ásökudu hann hardlega; en Héródes og stridsmenn hans forsmádu Jesúm og spottudu, færdu hann í hvítt fat, og sendu hann aptur til Pílatusar. Á þeim degi urdu þeir Pílatus og Heródes vinir aptur, því ad ádur voru þeir óvinir sín á milli. En Pílatus samankalladi prestahöfdingja, höfudsmenn og lýdinn, og sagdi til þeirra: þér hafid þenna mann til mín haft, sem þann, er frásnýr fólkinu, sjáid! eg hefi yfirheyrt hann hér fyrir ydur, og á þessum manni finn eg einga

af þeim søkum, sem þér klagid hann fyrir, og ekki heldur Heródes, þvi ad eg sendi ydur til hans, og sjáid! ekkert er af honum gjørt, þad dauda sé verdugt, vil eg þvi refsa honum og láta lausan. En á hátidardeginum hlaut landsdómarinn, eptir venju, fólkinu lausan ad láta einhvern bandingja, hvern helzt þeir vildu, og eptir hverjum þeir beiddust. En þá hafdi hann nafnkenndan bandingja framar ødrum, er Barabbas hét, med upphlaupsmønnum bundinn, hverjir í upphlaupinu høfdu víg unnid. Þá þeir voru til samans komnir, sagdi Pilatus til þeirra: þad er ydar sidvenja, ad eg gefi ydur einn lausan á páskum; en fólkid kalladi upp, og tók til ad bidja: ad hann vildi gjora sem hann væri vanur. Þá spurdi Pilatus: viljid þér ad eg gefi ydur nú Gydinga-konúnginn lausan? hvern viljid þér ad eg gefi ydur lausan, Barabbam eda Jesúm, er kallast Kristur (þvi hann vissi vel, ad høfudprestarnir høfdu af øfund ofurselt hann)? Þá hann sat á dómstólnum, sendi hans húsfrú til hans, og lét segja honum: hafdú ekkert ad gjøra med þann réttláta, þvi margt hefi eg lidid i dag i draumum fyrir hann. En þeir ædstu prestar og øld-

úngar rédu fólkinu, og eggjudu, ad þad skyldi bidja, ad hann gæfi þeim miklu heldur Barabbam lausan, en Jesúm skyldi hann deyða. Þá svaradi Pilatus: hvern af þessum tveimur viljid þér ad eg láti ydur lausan? þá kalladi upp allur hópurinn, og sagdi: tak burt þenna, en gef oss Barabbam lausan. Þá spurdi Pilatus aptur, og vildi Jesúm lausan láta: hvad viljid þér þá ad eg skuli gjøra vid Jesúm, af hverjum sagt er, ad hann sé Kristur, konúngur Gydínga? En þeir kølludu þá allir upp: krossfestist hann! krossfestú hann! Pílatus spurdi þá í þridja sinn: hvad illt hefir þá þessi gjørt? einga daudasøk finn eg med honum, því vil eg hegna honum og láta lausan. Þeir kølludu þá því meir: krossfestist hann! krossfestú hann! og enn aptur hrópudu þeir: ekki þenna, heldur Barabbam! En Barabbas var ræníngi, sem var settur í fángelsi fyrir upphlaup og mannslag, er sked var í borginni. Loksins hrópudu høfudprestarnir og lýdurinn allur í einu hljódi, ad Jesús yrdi krossfestur. Þá tók Pilatus Jesúm og húdstrýkti hann, en stridsmenn landsdómarans tóku Jesúm, og leiddu hann med sér inn í þínghúsid, kølludu saman og søfnudu

ad honum øllu lidinu, afklæddu hann og færdu hann í purpurakápu, fléttudu kórónu af þyrnum, settu hana á hans høfud og reyr í hans hægri hønd, beygdu kné fyrir honum, spjødu hann, og tóku ad heilsa honum þannig: heill sértú, konúngur Gydinga! Gáfu honum pústra og hræktu í hann, tóku reyrinn og børdu um hans høfud, féllu á kné og tilbádu hann. Þá gekk Pílatus út aptur og sagdi vid þá: sjáid! eg leidi hann nú út híngad til ydar, svo ad þér vitid, þad eg finn einga søk med honum. Svo gekk Jesús út, berandi þyrnikórónu og purpuraklædid; þá sagdi Pílatus til þeirra: sjáid manninn! Þá er kennimannahøfdingjarnir og þénararnir sáu hann, kølludu þeir: krossfestú! krossfestú! Pílatus sagdi: takid þér hann og krossfestid, því eg finn einga søk med honum. Þá svørudu honum Gydingar: vér høfum løg, og eptir vorum løgum á hann ad deya, því hann gjordi sig sjálfan ad guds syni.

## Fimmti partur.

Þá Pílatus heyrdi þad ord, óttadist hann enn meir, gekk aptur í þinghúsid, og sagdi til Jesú: hvadan ertú? en Jesús gaf honum ekk-

ert svar. Þá sagdi Pílatus til hans: talar þú ekki vid mig? veizt þú ekki, ad eg hefi ráð til ad krossfesta þig, og eg hefi ráð til ad gefa þig lausan? Jesús svaradi: ekki hefdir þú nokkurt vald yfir mér, nema þér væri gefid þad hér ad ofan, fyrir því hefir sá meiri synd, er mig ofurseldi þér. Eptir þad leitadist Pílatus vid, hvernig hann gæti látid Jesúm lausan. En Gydingar hrópudu: ef þú lætur þenna lausan, þá ertú ekki keisarans vinur; því ad hver sem sig gjörir ad konúngi, hann er á móti keisaranum. Þá Pilatus heyrdi þad ord, leiddi hann Jesúm út, og setti sig á dómstólinn í þeim stad, sem kallast hinn steinlagdi, en á hebresku Gabbatha, en þad var adfángadagur páska, nærri sjøttu stundu. Þá segir hann og til Gydinga: sjáid! þad er ydar konúngur, en þeir køllnudu: burt, burt med hann, krossfestú hann! Pilatus sagdi til þeirra: skal eg krossfesta ydar konúng! Kennimannahøfdingjarnir svørudu: eingan konúng høfum vær, nema keisarann. Þá Pilatus sá, ad hann kom eingu til vegar, heldur þad, ad þar yrdi enn meira upphlaup af, tók hann vatn, og þvodi hendurnar fyrir fólkinu og sagdi: saklaus er eg af blódi

þess réttláta, sjáid þér til! Þá svaradi allur lýdur: hans blód komi yfir oss og børn vor! En Pilatus þeinkti fólkinu fullnægju ad gjora, og dæmdi, ad ske skyldi þeirra beidni, gaf þeim Barabbas lausan, sem inn var settur fyrir upphlaup og manndráp í myrkvastofu, um hvern þeir bádu; en Jesúm húdstrýktan framseldi hann þeim, eptir þeirra vilja, ad hann kossfestur yrdi. Þá tóku þeir Jesúm, eptir ad þeir høfdu spottad hann, færdu hann úr purpurakápunni, og klæddu hann í hans eigin klædi, og leiddu hann út, ad þeir krossfestu hann, og hann bar sinn kross og gekk út. En í þvi þeir geingu og leiddu hann út, fundu þeir mann, sem fram hjá gekk, af Cyrene, Símon ad nafni, hver ed kominn var af akri fødur þeirra Alexanders og Rúffi, hann høndludu þeir, þreyngdu honum, ad hann bæri Jesú kross, og løgdu krossinn upp á hann, ad hann bæri hann eptir Jesú. En honum fylgdi mikill fjøldi fólks og kvenna, sem grétu og hormudu hann; þá snérist Jesús til þeirra og sagdi: þid Jerúsalemsdætur! grátid þér ekki yfir mér, heldur grátid yfir ydur sjálfum og yfir børnum ydar; því — sjáid! þeir dagar munu koma, á hverj-

um þeir segja: sælar eru óbyrjur og þeir kvidir, er ekki hafa fædt, og þau brjóst, hver ekki voru mylkt. Þá munu þeir segja fjøllunum: hrynjid yfir oss! hálsunum: hyljid oss! Ef þeir gjøra þetta vid blómgada tréd, hvad mun þá ske vid þad hid þurra? Med Jesú útleiddust tveir illvirkjar, sem áttu ad líflátast ásamt honum. Þeir leiddu hann í þann stad, sem kallast á hebresku Golgatha, sem þýdir: hausaskeljastadur; þeir gáfu honum ad drekka í víni myrru og edik, galli blandad, en hann tók þad ekki til sín; því þegar hann smakkadi þad, vildi hann ekki drekka. Sem þeir komu í þann stad, er kalladist høfudskeljastadur, þar krossfestu þeir hann og med honum tvo ræningja, einn til hægri handar og annan til vinstri, en Jesúm í midid. En þad var nær um þridju stundu, er þeir krossfestu hann. Þá vard sú ritning uppfyllt, sem segir: med illvirkjum er hann reiknadur. En Jesús sagdi: Fadir! fyrirgef þeim, því þeir vita ekki, hvad þeir gjøra. Pílatus skrifadi þá yfirskript, og setti hana upp yfir krossinn, uppi yfir hans høfdi festu þeir hans daudasøk; en yfirskriptin, og hver søk honum var gefin, var ritud yfir

honum með grískum, látínskum og hebreskum bókstöfum: þessi er Jesús af Nazaret, konúngur Gydínga. Þessa yfirskript lásu margir af Gydíngum, því sá staður var nærri borginni, hvar Jesús var krossfestur. Þá sögdu æðstu prestar Gydínganna við Pilatus: skrifa þú ekki konúngur Gydínga, heldur það hann hafi sagt: eg er konúngur Gydínga. Pilatus svaraði! hvað eg skrifaði, það hefi eg skrifað.

## Sjötti partur.

Þá stríðsmennirnir höfðu krossfest Jesúm, tóku þeir hans klæðnað, gjörðu á fjögra hluta skipti, sérhverjum stríðsmanni einn hlut, og vörpuðu þar um hlutkesti, hver hann skyldi hafa, og þar með kyrtilinn, en hann var ekki saumaður, heldur frá ofanverðu allur prjónaður. Þá töluðu þeir sín á milli: skiptum vær honum ekki í sundur, hlutumst heldur um, hvers hann skal vera, svo að ritníngin uppfylltist, er segir fyrir spámanninn: þeir skiptu með sér klæðum mínum, og á minn kyrtil lögðu þeir hlutkesti. Þetta gjörðu stríðsmennirnir, en fólkið stóð og horfði á. En þeir, sem geingu þar fram hjá, hæddu hann, skóku höfuð sín og sögðu:

svei! hvernig niðurbrýtur þú musterið, og uppbyggir það aptur á þremur dögum? hjálpa þú nú sjálfum þér, ef þú ert guðs sonur, og stig niður af krossinum. Höfðingjarnir spottuðu hann með þeim, líka hæddu hann þeir æðstu prestar sín á milli með skriptlærðum og öldúngum og sögðu: öðrum hefir hann hjálpað, sjálfum sér getur hann ekki hjálpað: sé hann Kristur og konúngur Israels, þá stigi hann nú niður af krossinum, að vér sjáum, og megum svo trúa honum; hjálpi hann nú sjálfum sér, ef hann er Kristur, hinn útvaldi guðs; hann treysti guði, hann frelsi hann nú, ef hann hefir lyst til hans, því hann sagði: eg er guðs son. Að honum hæddu og stríðsmennirnir, geingu til hans, færðu honum edik og sögðu: ef þú ert konúngur Gyðinga, þá hjálpa þér sjálfum; líka hæddu hann ræningjarnir, þeir með honum voru krossfestir; annar þeirra lastaði hann og sagði: ef þú ert Kristur, þá frelsa sjálfan þig og okkur. Þá straffaði sá annar hann og sagði: þú hræðist og heldur ekki guð, sem ert þó í sömu fordæmingu; að sönnu sker okkur þetta réttilega, því við meðtökum, hvað okkar gjörðir verðskulduðu, en þessi hefir ekkert ósktikkan-

legt gjørt. Og hann sagdi til Jesú: Drottinn, minnstú mín! þegar þú kemur í ríki þitt. Jesús svaradi: sannlega segi eg þér, í dag skaltú vera með mér í Paradís. Þar stóðu við Jesú kross móðir hans og móðursystir hans, María húsfrú Kleófasar, og María Magdalena; þá Jesús sá móður sína og þann lærisvein þar nær standandi, er hann elskaði, segir hann til hennar: Kona! sjá þú! það er þinn sonur; eptir það segir hann til lærisveinsins: sjá! það er þín móðir; upp frá þeirri stundu tók lærisveinninn hana að sér. Það var nær um sjøttu stundu, að myrkur gjørði yfir allt landið nær til níundu stundar, og sólin misti sitt skin. Um níundu stundu kallaði Jesús hárri røddu og sagði: Eli! Eli! Lama Sabachtani? sem útleggst: guð minn! guð minn! því yfirgafstú mig? Nokkrir af þeim, er þar stóðu hjá og heyrðu þetta, søgðu: sjá! hann kallar á Elías. Eptir að Jesús vissi, að allt var fullkomnað og skriptin uppfyllt, þá segir hann: mig þyrstir. Þar stóð ker fullt að ediki, jafnsnart hljóp einn til, tók njarðarvott og fyllti af ediki, setti hann ofan á reyrlegg, gaf honum að drekka og

sagdi: lát vera! sjáum, hvort Elías kemur ad taka hann ofan; en adrir sögdu: bídid! látid sjá, hvort Elías kemur ad hjálpa honum. En þegar Jesús hafdi edikid til sín tekid, sagdi hann: þad er fullkomnad. Jesús kalladi hárri röddu í annad sinn og sagdi: Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda; en er hann hafdi þetta sagt, hneigdi hann höfudid, og gaf upp andann. Og sjá! ad musteris tjaldid rifnadi mitt í sundur í tvo parta, frá ofanverdu og nidur í gegn, og jördin skalf og björgin klofnudu, grafir lukust upp og margir líkamir heilagra risu upp, þeir ed sváfu, og geingu, eptir Jesú upprisu, úr gröfunum, komu í hina heilögu borg, og auglýstust þar mörgum. En er hundradshöfdinginn, hver þar stód gegnt, sá þad, hvad þar skedi, og ad Jesús kalladi svo, þegar hann lézt, prísadi hann gud og sagdi: vissulega hefir þessi réttlátur madur verid og guds sonur. Eins þeir sem med honum voru ad vardveita Jesúm, þegar þeir sáu jardskjálftann, og hvad þar skedi, urdu þeir mjög óttaslegnir og sögdu: sannlega var þessi guds sonur. Allt fólk, sem þar var og horfdi á, og sá, hvad skedi, bardi

sér á brjóst og snéri á burt aptur. En allir Jesú kunningjar stódu lángt frá: þar voru og margar konur, sem sáu þar upp á áleingdar, medal hverra var María Magdalena, María ens litla Jakobs, Jóseps módir og Salóme, módir þeirra Zebedeusar sona, þær honum höfdu eptirfylgt, þá hann var í Galileu, og þjónad honum og margar adrar, hverjar med honum höfdu uppfarid til Jerúsalem úr Galileu, og horfdu á þetta.

## Sjöundi partur.

En Gydingar, med því þad var adfángadagurinn, svo ad líkamirnir væru ekki á krossunum um sabbazdaginn — því sá sabbazdagur var mikill — bádu Pilatus, ad bein þeirra brytust og ofantækjust. Þá komu strídsmennirnir, og brutu sundur bein ens fyrsta og svo hins annars, sem med Jesú voru krossfestir. En þá þeir komu til hans og sáu, ad hann var þegar dáinn, brutu þeir ekki bein hans, heldur opnadi einn af strídsmönnunum hans sídu med spjóti, og strax rann út blód og vatn. Sá, er þad hefir séd, ber þar vitni um, og hans vitnisburdur er sannur, hann sami veit

þad, ad hann segir satt, svo ad þér einnig trúid; því þetta er sked, svo ritníngin uppfylltist, sem segir: ekki skulud þér brjóta nokkurt hans bein; og enn aptur segir önnur ritníng: þeir munu sjá hann, í hvern þeir stúngu. Þar eptir þegar kvold var komid, af því þad var adfángadagur, hver ad er fyrir sabbazdaginn, kom madur nokkur ríkur af borg Gydinga, Arematia, Jósep ad nafni, heidurlegur rádherra, gódur madur og réttvis, hver ekki hafdi verid samþykkur þeirra rádagjörd og breytni, hver og var einn af lærisveinum Jesú, þó heimuglegur, fyrir ótta sákir vid Gydínga, sá er og vonadi eptir guds ríki. Hann dirfdist ad gánga inn til Pilatusar og bad um, ad hann mætti taka nidur líkamann Jesú. En Pilatus undradist, ad hann væri þegar látinn, kalladi hundradshöfdingjann, og spurdi hann ad, hvort Jesús væri fyrir laungu andadur. Og er hann var þess vís ordinn af hundradshöfdingjanum, leyfdi Pilatus og skipadi, ad Jósep skyldi afhendast líkaminn, og gaf honum hann. Þá kom hann og tók nidur líkama Jesú, keypti nýan lindúk, tók vid líkamanum og sveipadi hann í hreinn lérepti. Þar kom og Nikódem-

us, sá er fyrri kom um nótt til Jesú, hann færdi sambland af myrru og alóe, nær hundr-ad punda. Þá tóku þeir Jesú líkama og sveip-udu hann í líni med dýrmætu salve, eins og Gydínga sidur er til ad greptra. En þar í þeim stad, sem Jesús var krossfestur, var gras-gardur, og í honum ný grøf, í hverja eingiun hafdi enn verid lagdur; Jósep lagdi hann í þessa sína eigin nýu grøf, hverja hann hafdi úthøggva látid í steini, og velti stórum steini ad grafar dyrunum, og gekk á burt. En þad var adfángadagur, og sabbazdagurinn tók til; þángad løgdu þeir Jesúm, fyrir sakir adfánga-dagsins Gydinga, því sú grøf var nærri. En þar var María Magdalena og ønnur María Jóseps og þær konur, sem komnar voru med honum af Galileu, fylgdu eptir, sitjandi gegnt yfir frá grøfinni, skodnda hana, og sáu til, hvar og hvernig Jesú líkami var lagdur. En þær snéru aptur, reidandi til dýrmætar jurtir og smyrsli; en um sabbazdaginn voru þær kyrr-ar eptir løgmálinu.

Annan dag, þann sem eptir adfángadag-inn er, søfnudust saman þeir ædstu prestar og Fariséar ásamt til Pilatusar og søgdu: Herra!

vær minnumst á þad, ad þessi svikari sagdi, þá er hann lifdi: eptir þrjá dagamun eg upprísa; skipa þú því ad vakta grofina allt til ens þridja dags, svo ad ekki komi lærisveinar hans á nóttu, og steli honum á burt, en segi fólkinu, ad hann sé upprisinn frá daudum, og verdi svo hin seinni villa argari þeirri fyrri. Pilatus sagdi til þeirra: þar hafid þér vardmennina; farid! vaktid, sem þér hafid vit á. En þeir geingu á burtu, voktudu grofina med vardmonnunum, og innsigludu steininn.

---

## Bæn eptir prédikun,

sem eptir konúnglegri tilskipun á ad lesast á ollum sunnu- og helgidogum, þegar ekki er bodid ad brúka adrar bænir.

Almáttugi, eilífi gud! miskunsemdanna hjartkæri fadir! vér þokkum þér af innsta hjartans grunni, ad þú lézt þad fagra gudspjalls ljós lýsa fyrir oss, þá er vér í myrkri og daudans skugga sátum. Þitt heilaga og dýrmæta ord er enn þá á þessum degi til vor talad. Vér hofum heyrt, hvernig þú tilbýdur oss í því alla velgjorninga þins sonar, vors endurlausnara, í velgjorningum sonarins þina nád, fyrir þina nád syndanna fyrirgefningu, réttlætid og eilífa sáluhjálp. Himneski fad-

ir! villtú enn þá hirda um oss, er svo þrásækilega hofum verid þínum bodum óhlýdugir? viltú enn þá kalla á oss, sem erum svo tregir ad koma, jafnvel þó oss sé frambodid lífid og sú fullkomna gnægd? Já, þú, drottinn! lætur ekki af ad gjøra oss til góda, þótt vér látum ekki af ad gjøra hid vonda, bædi í strid vid þig og sjálfa oss. Opt høfum vér til forgefins medtekid þína nád, en þó frambýdur þú oss hana, og kunngjørir oss í þínu heilaga ordi, ad hver sú stund, sem vér lifum, sé partur af tíma nádarinnar, og heyri til degi hjálprædisins. Skyldum vér þá, af sjálfrædis þvermódsku, vera svo sinnadir, ad vanbrúka tímann, og fordjarfa af oss þá sáluhjálplegu eilífd? O drottinn! þinn gódi andi fylgist ætíd med þínu heilaga ordi, sem er líf og andi, sá hinn sami andi stadfesti hvert ord í vorum hjørtum, af þeim vér í dag heyrt høfum og heyra munum, svo leingi sem vér lifum. Pad verki í oss trúna til þín, forakt til heimsins og hjartanlega eptirlaungun til himinsins. Pad nidurdempi allt hid vonda, sem býr í oss og gjøri vorn reidubúna anda hvert augnablik æ viljugri og viljugri, til þess ad þjóna og þakka þér og tilbidja þig í anda og sannleika. Pú, mikli fadir ljósanna! burtflyt aldrei þinn ljósastjaka frá oss. Lát oss aldrei finnast í þeirra tølu, sem elska meir myrkrid en ljósid, heldur hjálpa, ad vér mættum jafnan med andakt nálgast þitt hús, heyra þitt dýrmæta ord og brúka þau af þér innstiptudu háverdugu sakramenta. Gef þú kennendur eptir þínu eigin hjarta, sem kunni ad fræda þinn søfnud med þekkingu

og forstandi, líka uppbyggi bædi med lifnadi og lær-dómi. Gef tilheyrendunum adgætin hjörtu, ad heyra þitt ord, og hlýdni ad lifa eptir því, sem þeir heyra, svo þeir fái í öllum hlutum prýdt þína og vors endurlausnara kenníngu. Vér þökkum þér einnig, hjartkæri himneski fadir! fyrir það þú svo nádarsamlega hefir opnad dyr trúarinnar fyrir svo mörgum heidíngjum, sem híngad til ekki þekktu þig; en þar ed þinn smurdi, vor allra-nádugasti konúngur og herra, ber svo ákaflega umhyggju fyrir þessu þínu verki, svo blessa þú konúnginn þess vegna, þinn þénara, hér í tímanum og sídan í eilífd-inni. Efl þú sjálfur framvegis, ó þú miskunsami gud! þetta þitt verk; lát þitt ord ríkuglega búa hjá þeim í öllum visdómi, sem brúkadir eru þar til; ervida þú sjálfur svo med þeim, ad bædi heidíngjarnir og allir óupplýstir kristnir megi, fyrir þíns ords prédikun, snú-ast frá myrkrunum til ljóssins, frá satans valdi til guds, svo ad þeir ödlist apturhvarf og syndanna fyrir-gefníngu, ásamt arftöku med þeim, sem helgadir verda fyrir trúna á Jesúm Krist.

Gjör ætíd vel vid vorn allramidasta arfakonúng og herra, konúng N. N. Þínar blessanir margfaldist hvern dag og hvern tíma yfir hans majestet, svo hann jafnan finni ný merki þíns födurlega kærleika, og sjái sig ætíd leiddan af þínum anda í öllum hans háu kon-únglegu embættis útréttíngum, verndadan af þinni hægri hendi, og stjórnadan af þér, þar bædi hann og allir konúngar stjórna fyrir þig. Vernda þú hann fyrir öll-um óvinum, en gef oss hlýdin hjörtu ad vera honum

hlýdnir og trúir, eins og þú hefir gefid honum hjarta ad vera þér hlýdinn og trúr. Haf þú óaflátanlega þína hønd, þitt auga og þitt hjarta hjá hennar hátign, vorri allramildustu drottníngu, drottníngu N. N., svo hennar hátign, hvert fótstig hún geingur, finni, hvernig hún leidist af þinni almættis-hendi, rádfærist af þínu alskygna auga, og elskast af þínu fødurlega hjarta. Vísa þú sjálfur hans konúnglegu hátign, vorum mildasta krónprins og herra, þann veg, sem hann á ad gánga, já, gakk med honum, hvert sem hann geingur. Lát kærleika hans konúnglegu hátignar til þín og þinn kærleika til hans fara dagvaxandi, sem hans ár og dagar fjølga, ad hann ætíd nú og hér eptir leiti og finni hjá þér hans einasta og ypparsta góda. Umfadma þú þær konúnglegu prinsessur, og lát þær hvílast á þínum ørmum, vidhaltú þínum ótta í þeirra hjørtum, og lát þær jafnan finna, ad þvílíkur þinn ótti, hver ed yfirgeingur alla hluti, er til allra hluta nytsamlegur.

Vertu sjálfur girdíng og glóandi múr í kríngum allt þad konúnglega arfahús! þú, sem hefir þad byggt og híngad til verndad, gef ad þad blifi stadfast, allt þar til umskipti verda á tímanum og eilífdinni. Undirvísa þú hans majestets rádi og þjónum, lát þá aldrei í þeirra útréttíngum leita þess, sem þeirra er, heldur þess, sem er þitt og þíns smurda, þá verdur konúngsins og þegnanna bezta þeirra einasta augnamid. Utbrynja þú hans konúngl. hátignar stridsmakt bædi til lands og sjóar; gef þeim hjarta ad þjóna trúlega, og þá tími er til, ad berjast karlmannlega; lát þá ætíd lifa og þjóna þér, svo sem þá,

er kunni ad lifa og deya, fullvissir þar um, ad þú sért ætid med þeim; þvi hver kann þá ad vera á móti þeim?

(Hér má, þar sem þad er sidur, einnig bidja fyrir yfirvoldunum).

Miskuna þig, ó gud! yfir allan þinn kristinndóm! blessa þú einkum vors korúngs riki og lond, hvern stad i rikjunum, hvert hús i stodunum og hverja eina sálu i húsunum. Reidstú ekki, ad vér óverdugir þrábænum þig um svo mikid! en — hvert skulum vér, svo stórir syndarar, sem vér erum, flýa, utan til svo hjartanlegs medaumkara, sem þú ert? Og þú fadir allra miskunsemda! vertú oss aumum syndurum nádugur! hrosum vér, þá styd þú oss, svo vér ekki follum; en ef vér follum, þá reis þú oss á fætur aptur, ad vér ekki liggjum fallnir. Vér hofum syndgazt, og syndgum daglega, en sakir þins syndlausa sonar, þá gleym þú vorum syndum, en gleym aldrei ad vera oss nádugur. Lát eingan óvin sýna ófrid vors konúngs londum, en ef þad skedur, þá vertú vor verndari. Vardveit oss frá drepsótt og næmum sjúkdómum. Gef sérhverjum af oss sinn ákvardadan skamt, en þó einkum ánægt hjarta med þad, þú honum úthlutar. Farsæl þá hondlandi, vísa þú veg land- og sjófarendum, styrk hvers ærlegs manns erviti. Tak þú ad þér allar ekkjur. Vertú forsvar fodurlausra. Yfirgef þú aldrei neinn af þeim yfirgefnu. Vitja þú sóttarsængur hinna veiku. Medtak þú hid sidasta andvarp þeirra, sem i trúnni deya, og lát sálir þeirra odlast hlutskipti i eilifri gledi.

Gef oss ætíd svo ad heyra þitt ord, ad vér finnum og verdum varir vid i vorum sálum, ad þad sé kraptur guds til sáluhjálparinnar, og audsýnum i voru lifi og framferdi, ad þad sé sú regla og mælisnúra, eptir hverri vér framgaungum. Þinn heilagur andi verki fyrir þad sama þitt ord, trúna i vorum hjörtum. Hann hjálpi oss fyrir trúna, ad umfadma hofund og fullkomnara trúarinnar, svo ad vér, fyrir hann, megum odlast endalok vorrar trúar, þad eilífa líf, sem er þín nádargjöf i drottni vorum Jesú Kristi. Amen! i Jesú nafni, amen!

---

## B æ n,

### sem brúkast á vid barna konfirmazión.

O! þú eilífi og almáttugi gud! fadir drottins vors Jesú Krists og vor allra fadir, af hverjum allt faderni hefir sitt nafn á himni og jördu. Vér beygjum vor kné fyrir þér, og grátbænum þína födurlegu elsku, med hverri þú hefir hingad til elskad oss, og vilt hér eptir elska oss; þínir velgjörningar eru fleiri, en vér getum talid þá réttilega, og stærri, en vér kunnum þá nógsamlega ad þakka. Þad er þín gæzka, ad vér lifum, og þín miskunsemi, ad vér megum vænta betra lífs, en þetta er. Þú uppfrædir oss i þessu lifi, til ad odlast hitt annad, sem þinn sonur hefir oss afrekad, til hvers þinn andi visar oss veginn. Vér vorum naumlega innkomnir i heiminn, ádur en þú hreinsadir oss, fyrir vatnsbadid i ordinu, af þeim saurindum, sem vér

færdum með oss. Þú hefir lofað að vera vor faðir og meðtaka oss, sem þins sonar bræður. Þú gafst oss þinn heilaga anda í pant og til vissu um þinn kærleika, og arfleifð þeirra heilögu, sem hjá þér er, oss til ens bezta; vér lofuðum aptur á mót, að afneita þinum og vorum óvin; að umflýa allt það, sem stríðir á móti þinni dýrð og vorri velferð. Þú hefir haldið þitt loforð, því vér höfum reynt þig að vera þann bezta velgjörða-föður, allt til þessa dags; en hvernig vér höfum haldið vort heit og lofanir, það er þér einum bezt kunnugt. Vér vitum að sönnu, að vér erum syndugir, en þú veizt þó af fleiri og stærri syndum hjá oss, en vér sjálfir vitum. Þegar vér bundum sáttmála við þig, en þú aptur á mót verkaðir trúna í oss, og gafst oss þinn anda, vorum vér enn þá úngborn, og kunnum ekki handa vorra skil, né fótum vorum forráð, samt var það þér þægilegt, að vér eingu að síður, sem smábörn skyldum koma til þín, því þú vildir gjöra oss vissa um þann rétt, sem vér af þinni náð höfum til himnaríkis, svo framt vér ekki sjálfir forsómum þvílíkt hjálpræði, og gjörum oss óverðuga ens eilífa lífsins. Með því ekkert kann jafnast við þína gæzku, þá er það tilhlýðilegt, að þér verði fyrir hana opinbert þakklæti auðsýnt í þinum söfnuði, hvern þinn sonur hefir með sínu dýrmæta blóði svo dýru verði keypt. Það er nauðsynlegt, að það, þér hefir verið lofað af þeim, sem aðrir gjörðu þeirra vegna, verði af þeim sömu ítrekað, þegar þeir vita að gjöra skýrslu á sinum hjartans þankum, og þess heldur fái skuldbundið sig við þig. Þú, vor guð!

ávinnur vegsemd þar með, því þú óvirðir ekki jafnvel þá lofgjörð, sem þú tilreiðir þér af munni smábarnanna; þau styrkjast i trúnni og bindast með því sterkara bandi við þig; það er oss til uppbyggingar, þegar vér heyrum, hversu þau kunna að gjöra grein á þeirri von, er þau hafa. Til þessara erindagjörða hafa mörg af þínum börnum á þessum degi hér samansafnazt, og ekki einúngis sýnt, að þau eru uppfrædd um þinn vilja og þína velgjörninga, eptir guðs orði og þeirri óumbreyttu augsborgisku játningu, heldur og einnig hafa þau endurnýað þann sáttmála, sem þau við þig gjörðu i þeirri heilögu skírn. Gef, að þeirra hjörtu, eptir þenna dag, aðhyllist ekki nokkurn eða nokkuð, utan þig einúngis, og það, sem þér er velþóknanlegt. Hjálpa þú þeim til að hugleiða, hversu mikla náð þú hefir þeim auðsýnt i þeirri heilögu skírn, þar þau, i syndinni getin og fædd, höfðu verðskuldað dauðann, urðu, fyrir endurfæðinguna, svo frelsuð frá hvorutveggja, að syndin kann ekki framar að fordæma þau, og dauðinn ekki heldur að gjöra þeim skaða, þegar þau sjálf vilja ekki syndga mótþróanlega og deya eilíflega. Var ekki þín gæzka yfrið stór, sem gjörði þau fullviss um barna útvalninguna, jafnvel þó þú hefðir lángtum betri börn i þínum einka syni, fæddum frá eilífu, i þeim heilögu einglum, sem allir eru þín börn, þó þeir séu ekki þíns sonar bræður? Þú hefir fyrir skírnina gjört þau hluttakandi i dýrðlegu frelsi þinna barna og fullviss um þitt föðurlega hjarta, svo og gefið þeim rétt til þess eilífa lífs og lífsins kórónu, og gjört þau einnig að meðborgurum þeirra

heilögu og þínum heimamönnum. Kunnir þú ad veita nokkrum stærri náð? mundu þau kunna ad vænta stærri góðsemdar af þér eda ödrum? O drottinn! kenn þeim ad íhuga, hversu grunnlaus þín gæzka er vid þau, og ad gráta yfir því, hversu litid þau hafa skilid af þessum þínum himnesku velgjörningi. Kenn þeim ad ásaka sig sjálf, sem yfirtrodslumenn frá módurlífi, hverra hjartans þánka uppáfinning hefir verid vond frá barndómi, ad því leyti þau hafa þrálega geingid á vegum síns hjarta, og eptir því sem þeirra augum hefir litizt, hversu illa sem þeirra hjörtu og augu hafa þess á milli vísad þeim veginn. Gef þeim ætíd þína náð, til ad þekkja og idrast þessara afbrota, hver ad eru gagnstæd þínum heilaga vilja, og á móti því, er þau hafa þér heilaglega lofad.

Þín náð hefir sparad þau til þessa tíma, svo þau mættu í þíns safnadar áheyrn endurnýja þad heit, á móti hverju þú tókst af þeim, þá stund þau voru hreinsud fyrir vatnsbadid í ordinu. Lát þau alla þeirra lífdaga ástunda ad halda þær lofanir, sem og einnig med ugg og ótta fyrir því, ad bregda af þeim nokkru sinni. Verka þeirra eigin sáluhjálp; framkvæm þad í þeim, ad þau vilji þjóna þér, sem helgar þeirra vilja; verka þú þad og einnig, ad þau megi útrétta þad þú vilt, og þau sjálf eiga ad vilja, svo helgar þú þeirra verk. En, eins og þau án þíns sonar kunna öldúngis ekkert ad gjöra, þá lát hann vera í þeim og þau í honum, svo ad hann og þau megi vera eitt, eins og þú og hann erud eitt, ad þau, fyrir hann, fái megnad þad þau af

sjálfum sér i eingan máta geta. Vertú þeirra úngdóms typtunarmeistari, svo láta þau ekki einúngis af ad gjøra hid vonda, heldur læra ad gjøra hid góda; svo fá þau ekki einúngis vidbjód á þeim fánýta hégóma, sem er i heiminum, heldur leggja þar ad auki kapp á i trúnni ad audsýna allar þær kristilegar dygdir, sem þér eru þóknanlegar og þeim sjálfum mestur sómi ad, svo ad þau verda megi hreinir bústadir fyrir þinn anda, sem hefir hreinsad þau i skírninni, og er ætíd reidubúinn ad meddeila þeim sínar gáfur. Þau hafa nú gódviljuglega og i allra vor áheyrn losad ad afneita djoflinum, øllu hans athæfi og øllum hans verkum. Veit þeim þína hjálp, svo þetta falli þeim aldrei úr minni. Lát þau med alvarlegu hatri hata alla þina óvini, svo sem þeirra sálar og sáluhjálpar óvini. Hindra þú, gódi fadir! ad þau nokkru sinni gefi djoflinum þad rúm, ad þau gjori þad hann vill, eda hlýda þvi, er hann rádleggur, þvi athæfi hans er svikſamlegt og stridir á móti þeirra frelsi; hans gjorningar eru skammarlegir, og stofna til þeirra fordjorfunar. Lát þau ekki falla i þær óvinarins hendur, frá hverjum þú hefir þau frelsad, heldur hjálpa þeim ad þjóna þér i heilagleika og réttlæti alla þeirra lifdaga. En þó satan, þeirra mótstandari, gángi um kring, þá banna honum ad svelgja þau. Upplýs þeirra skilnings augu, svo hans rádabrugg verdi þeim ekki ókunnugt. Réttú þeim skjold trúarinnar, ad þau i þeim sama geti útslokkt hans glóandi pilur. Lát þau af rikdómi þinnar dýrdar kroptuglega styrkjast, fyrir þinn anda i þeim innra manni,

svo þinn sonur búa megi, fyrir trúna, i þeirra hjörtum, svo verdur hann, sem er i þeim, meiri en sá, sem er i heiminum og þeim á móti; þau verda styrk og sá yfirunnid þad vonda med þinu ordi, sem hjá þeim byggir.

Þau hafa nú skuldbundid sig til ad trúa á þig, þinn son, þinn og þins sonar heilagan anda; hjálpa þeim hvern dag ad efna þeirra loford, ad trúa á þig af öllu hjarta; aldrei sleppa þeirri trú, er þau hafa þér og þinum heilögum lofad, heldur ad þau fylgja megi þeim óraskanlega, óumbreytanlega og óapturkallanlega sannleika, sem er þad eilífa lífsins ord og vegvísir til eilífs lífs. Lát þau þekkja, ad þau gjöra aldrei annad betra, en gefa grandvarlegar gætur ad því sama hjálprædis ordi, hvert, eins og skinandi ljós i myrkum stad, skíni inn i þeirra hjörtu, til upplýsingar þins sonar ypparlega lærdómi. Lát þad upplýsa þeirra skilning, helga þeirra vilja og gefa þeim rád i öllum þeirra athöfnum. Lát þad, ad þau hafa kallad þig födur, minna þau á þann heidur, sem góð börn eru skyldug ad veita svo gódum födur. Ad þau hafa ákallad þinn son, sem er einn drottinn, vidhalda þeim ótta i þeirra hjörtum, hvern trúlyndir þjónar eiga ad veita þeim herra, sem er himins og jardar drottinn. Ad þau hafa ákallad þann heilaga anda, minna þau á, hvernig þau eiga ad fylgja honum i því, ad framgánga i öllum sannleika og á þinum vegum. Lát þau jafnframt aldrei gleyma því, er þau hafa svarid i dag, og svo fastlega þar eptir halda, ad þau daglega vardveiti dóma þins réttlætis. Þinir þénarar hafa med handanna upp-

áleggingu blessad þau, og bedid þinn heilaga anda ad auka sínar gáfur yfir þeim og í þeim. Drottinn! tak aldrei þína hönd eda þinn heilaga anda frá þeim; stjórna þeim, sem þinum handaverkum. Útrétt þú þína hönd til ad styrkja, hjálpa og verja þau móti þeirra andlegum óvinum, og lát eingan slíta þau úr þinni hendi. Þau hafa nú játad þig opinberlega ad vera sinn gud, sem og ljóst gjort, ad þeim er ekki ókunnugt um þig, þinn vilja og þinar velgjordir, hvers vegna þeim er lofadur adgángur til þins sonar heilaga líkama og hans dýrmæta blóds í því háverduga altarisins sakramenti. Lát þau aldrei, nema vel prófud og undirbúin, framkoma til þvilíkrar sáluhjálplegrar máltídar, heldur hugleida, hvers þau verda þar njótandi, og hvad eptir muni koma, ef þau mæta þar sem óverdugir gestir. Íklæd þau sjálfur því rétta brúdkaups klædi; tilbú þau, sem þú vilt sjálfur þau séu, og lát þau svo taka á móti gædum þins húss og þeim heilögu hlutum í þínu musteri, sem þau, er ætla sér ad lifa og deya óefud um, ad verda hluttakandi í þínum himni og vegsemd og þinni dýrd og sáluhjálp. Verka þad, ad þau aldrei gleymi, ad þú hefir gefid þeim rúm í þínu húsi og nafn, sem betra er en sona og dætra. Hjálpa þeim, hvort sem þau gánga um þín andyri, ad finnast í þínu húsi, sem þinir heimamenn, sem og inni- og úti- fyrir því ad verda þekktir fyrir þína syni og dætur. Þin sáluhjálplega nád agi og uppfrædi þau, ad fráfælast ógudlegt athæfi og þær veraldlegu girndir, en lifa hreinferduglega, réttferduglega og gudlega í þess-

um heimi, svo sem þau, er vænta og eru viss um, að þeim skuli eilíflega vel vegna annars heims: því þegar þau þeinkja um þig, sinn skapara, í þeirra úngdómi, þá viltú einnig þeinkja til þeirra til ens bezta hér og síðar, í tímanum og eilífðinni. Hjálpa oss öllum, gömlum og úngum, foreldrum og börnum, húsbændum og þjónustufólki að hugleiða og syrgja, hversu litlu þakklæti vér höfum offrað þér fyrir þína náð, oss veitta í þeirri heilögu skírn, samt hversu illa vér höfum goldið þér þau dýrmætu heit, sem þá voru gjörð af oss. Þinn góði heilagi andi leiði oss hér eptir til að hafa viðbjóð á öllu því, sem þér misþókknast, en halda fastlega við þig einan. Lát oss aldrei með athugalausu og hneykslanlegu liferni í orðum, sem annaðhvort stríða á móti þínum opinberuðum sannleika, eða á móti sómasamlegu siðlæti, hneyksla neina af þeim smælingjum og únglingum, sem kunna að vera hjá oss, því þá mættum vér orsaka ekki einúngis vorum, heldur líka þeirra sálum eilífa forðjörfun. Stríð með og fyrir þína stríðandi kirkju, hverrar limir þeir eru, sem í dag hafa opinberlega gjört sína trúarjátníngu. Þitt heilaga orð og þín háverðugu sakramenta viðhaldist hjá oss, án umbreytingar, til veraldarinnar enda, að vér fyrir það hvorttveggja mættum ætíð komast þér nær og nær.

Þinn smurði, vor allramildasti arfaherra og konúngur N. N. sé og veri blessaður af þér nú og síðarmeir, í þessari og tilkomandi veröldu. Lát hann uppskera ávöxtinn einnig af þessa dags gjörðum, svo að hann alla þá, sem endurnýað hafa sína skírnar lofun, reyna

megi hlýdna og góda þegna, er vita, ad hver sá, sem óttast guð, skal heidra konúnginn.

Bjód lífi og lukku, bjód sóma og heidri, bjód øllum þínum góda ad vera hjá og yfir hennar hátign, vorri allramildustu drottningu N. N. Hennar vegir stadfestist i þinum ótta, þinn vilji sé hennar vilji, lát þvi aldrei af ad gefa henni nýa vitnisburdi um þína guddómlegu elsku. Þeirra konúnglegu háheit prinsarnir og prinsessurnar finni vid hvert fótmál þau ganga, þig, sem vegvísara og þína miskun, sem varatekt; bú þú i þeirra hjørtum og lát þau hvilast á þinum ørmum; gjør vel vid þad gjorvalla konúnglega arfahús; gæd þú þad med þinni nád, og auktú þinar blessanir yfir þvi. Tak ad þér allan kristinndóminn; veittú adstod þessum rikjum og løndum, samt hverjum einum innbyggjara i þeim; gef oss frid allt um kring, en allrahelzt vid þig. Vardveit oss frá næmum sjúkdómum, en einkum frá þeirri synd, sem saurgar vorar sálir. Utbýttu braudi til allra húngradra munna. Uthell þú huggun i allra sorgbitinna hjørtu. Þin hønd verndi allar ekkjur, føðurlausa og yfirgefna. Þitt auga sjái fyrir vegfarendum. Þin blessan fylgi þeim, er leita sinnar atvinnu. Þitt heilaga ord umvendi þeim syndugu. Þin óendanlega miskun taki þá umventu til nádar. Verkadú þad, ad sálum þeirra sjúku vel lidi og visa hinni sidustu andvørpun þeirra, sem deya i trúnni, veginn til þins hjarta. Gef oss øllum meir, en vér høfum umbedid, samt meir, en vér skynjum ad bidja. Vardveit þú allan vorn anda og

sál og líkama óstraffanlega allt til vors drottins Jesú Krists tilkomu. Amen! í Jesú nafni, amen!

---

# Bæn eptir prédikun,

## á þann almennilega bænadag.

O eilífi, allsmegtugi guð, miskunsamasti mildi faðir! Vér, þín fráfallin börn, komum nú aptur með þeim fortapaða syni til þíns húss, og af allri vorri sálu og hjarta prísum þína yfirfljótanlega gæzku, sem þú tíð eptir tíð, ár eptir ár svo föðurlega hefir auðsýnt oss allt til þessa dags. Einkanlega að þú af skærri náð og miskun hefir gefið oss hreinan lærdóm þíns heilaga lífkroptuga orðs, hvar með þú enn þá svo ríkuglega forsorgar vorar húngraðar sálir, sem með því rétta himnabrauði. Þú hefir þar að auki blessað oss með öllu góðu, líkamans vegna, og næsta föðurlega fríað oss og föðurlandið frá ýmsum þúngbærum landplágum, sem oss annars hefðu kunnað að henda og tilfalla. Fyrir þetta alltsaman, og hvað þú hér að auki hefir auðsýnt oss, annaðhvort öllum almennilega, ellegar nokkrum af oss sérdeilislega, af þinni föðurlegu gæzku, þú, vor guð! og þitt allraheilagasta nafn veri blessað, og hátt lofað af oss eilíflega. Drottinn! þín verk eru mikil vor á meðal, vér tölum þar um, en þótt vér kunnum ekki að reikna þau. Vér framteljum þína velgjörninga við oss og gleðjum oss, að þú svo vel hjálpar oss. En — æ! hvað erum vér, ó guð! að þú minnist vor? og hvað eru vor verk, að þú virðir oss svo mikils? Vér meg-

um sannarlega vidurkenna og kvarta sárlega, ad vér ekkert sídur höfum verdskuldad af þér, en þína náð, hverja vér svo optlega höfum medtekid forgefins, ad vér ekki höfum viljad láta leida oss þar med til alvarlegrar og sannrar idrunar; því vér höfum syndgazt, drottinn! vér höfum syndgazt og gjört órétt fyrir þér; vér höfum verid óguðlegir og erum mótþróanlega burtu viknir frá þínum bodordum og þínum réttindum. Vér höfum verid þverbrotnir, og hlýddum ekki þínum þénurum, sem töludu í þínu nafni til vorra konúnga, vorra höfdingja, vorra fedra og til alls fólksins í landinu. Drottinn! þér heyrir réttlætid til, en vér megum skammast vor. Æ! vorar syndir, vorar syndir, vorar syndir liggja hart á oss, vorar syndir nidurþrykkja oss, vorar syndir hrópa í himininn, og vér blygdumst ad upplypta vorum ásjánum til himins, fyrir fjölda sakir vorra misgjörnínga; því vorar syndir eru uppvaxnar yfir vor höfud, og vor sök er stór, allt upp til himins. Opt höfum vér látid sjá oss sorgfulla fyrir syndina med bæn og föstu, med andvarpi og klögun, en hverja idranar ávexti hefir þú sídan fundid hjá oss? Vér hrósum oss af trúnni, en kærleikurinn, án hvers vor trú er ekki nema daud trú, finnst nú varla, því verr, framar hjá oss. Vér köllum oss sjálfir kristna, en gud nádi oss! hversu auman og fánýtan kristinndóm vér sýnum opt og tídum vor á medal, fullir af verstu syndum og svívirdingum, med hverjum vér völdum því, ad þitt allraheilagasta nafn verdur svo opt lastad á medal heidingjanna. O vei, ó vei oss! ad vér höfum svo syndgazt. En hvad skyld-

um vér segja? hvad skyldum vér klaga, þótt þú vildir nú láta þig ángra allt þad góda, sem þú híngad til hefir oss audsýnt, og þreytast á ad miskuna þig framar yfir oss, en þar á mót vitja vor med þeim hørdustu plágum, og ofurselja oss megnum villudómi; ad vér skyldum trúa lygi og folskum lærdómi? Æ drottinn! þú hefir fundid vora misgjørninga, en vér megum réttilega játa, ad vér sannarlega høfum verdskuldad, ekki ad eins allt þetta, heldur og einnig þad, sem er allra þýngst, þína eilífa reidi, daudann og fyirrdæminguna; en fyrir þíns nafns sakir, drottinn! þá vertú oss nádugur, og miskuna þig yfir oss. Æ! straffa oss ekki eptir maklegleikum, heldur lát nádina ríkja fyrir réttlætid; því vér vitum, ad þín miskunsemi hefir eingan enda. Vér treystum á þann eid, sem þú sórst oss, ad þú viljir einkis syndugs manns dauda, heldur ad hann betri sig og lifi; því liggjum vér nú med voru audmjúku hjartans bæna ákalli fyrir þinn augliti, ekki upp á vort réttlæti, heldur upp á þína miklu miskunsemi, og hrópum af sorgfullu hjarta í trúnni: æ fadir! vér høfum syndgazt í himininn og fyrir þér, og erum ekki verdugir ad kallast þín børn. Fyrirgef, fyrirgef, ó mildi fadir! allar vorar syndir, vegna þíns eingetins sonar, Jesú Krists, og afmá vorar yfirtrodslur fyrir hans dýrmætu verdskuldun. Álít hans hlýdni, en tilreikna oss ekki vora óhlýdni. Lát hans fridþægingu koma oss til góda, sem hann med sínum dauda hefir oss útvegad, og gef oss þá gledi, sem erum hans endurleystir, ad vér allir mættum fá synda fyrirgefníngu hans vegna.

Lát, ó guð! þitt heilaga orð búa ætíð ríkuglega vor á meðal, með réttri og heilsusamlegri tíðkun þeirra háverðugu sakramenta. Vertú aldrei svo reiður við oss, að þú nokkurn tíma annaðhvort umbreytir eða öldúngis burtsviptir þessum heilögu hlutum frá oss, allt til veraldar enda. Gef réttskikkaða prédikara og kennendur, sem bæði kenni vel og lifi vel, og lát þitt orð ætíð fá framgáng fyrir þá, þér til dýrðar og fólkinu til sáluhjálpar. O Jesú Kristi! viðhaltú þinni sönnu evangelisku kirkju á móti öllum ofsóknurum og fölskum kennendum, og lát vora mótstandara og allan heiminn sjá, að þar er einn guð til, sem er drottinn yfir sínum, er volduglega vill vernda þá fyrir öllum þeirra óvinum.

Hafðú, ó guð! ætíð vakandi auga yfir landsins góða föður, þínum smurða, vorum allramildasta arfakonúngi og herra N. N.; auk þú hans herradæmi í þínum ótta, og haltú uppi hans ríkjum með réttlætinu. Vernda hans hátign á móti öllum hans óvinum, heimuglegum og opinberlegum, en gjör þá til skammar, sem ráðslaga á móti honum. Bind fast konúngsins hjarta við þitt hjarta, að hann í öllum hlutum megi leita þinnar dýrðar, sem þinn þénari, og ætíð bera umhyggju fyrir eflingu þinnar sönnu kirkju, eins og hennar rétta forsvar og fósturfaðir. Æ drottinn! lát konúnginn lifa, og blessa hann fram yfir alla hans feður; veit hans hátign lánggæða og lukkusæla ríkisstjórn, og gef, að hann megi aldraður verða í friði og góðum dögum.

Gjör miskunsemi við hennar hátign, vorrar allramildustu drottníngar N. N., og lát hennar óst ætíð

vera fyrir þér; uppfyll hennar hátign með þínum fögnudi, og gef, að hennar hjarta megi ætíð gleðja sig af þinni hjálp. Sed hennar hátign með laungum lífdögum, og set hennar sálu eilíflega fyrir þínu augliti.

Uthell þinni náð yfir vorn Jedidiah og drottins elskulega, hans konúnglegu háheit, vorn nádugasta krónprins og herra, N. N., og set hann sem innsigli á þínu hjarta. Lát hans sálu aldrei hneigjast til nokkurs ills, en gef honum laungun til þín og þíns orðs. Prýð hann öllum konúnglegum og furstalegum dygdum, og sýn honum þína miskunsemi, að hann megi lifa. Legg náð og prís yfir þá konúnglegu prinsa og prinsessur, halt þinni guddómlegri vernd yfir þeim og öllu því konúnglega arfahúsi. Vertú sjálfur, ó gud! glóandi múr í kríngum þá, svo eingin ólukka megi snerta nokkurn af þeim. Drottinn! vitja konúngsins húss með þinni náð, og burttak aldrei þína miskun þar frá æfinlega.

Blessa hans konúngl. hátignar ráð, og gef, að þeir í öllum hlutum megi fylgja þínum ráðum, þér til dýrðar og landinu til bezta. Blessa í sama máta og vernda hans konúngl. hátignar stríðsmakt bædi til lands og sjóar. Vertú sjálfur skjöldur og verja yfir þeim á móti öllum þeirra óvinum, en gef þeim hlýðin hjörtu að óttast þitt nafn, trúföst hjörtu til að þjóna fúslega, einörd hjörtu til að berjast hraustlega, þegar tíminn er, og samþykk hjörtu til að vera staðföstum, allir sem einn maður, og óttast ekki. Lát þá vera kostgæfna konúnginum og landinu til bezta, og lát dauðann aldrei yfirfalla þá.

Bjód þínum heilogu einglum ad fylkja sér í kríngum allt landid, og burtsnú nádarsamlega frá oss ollum maklega óverdskulddudum plágum, stridi og blóds úthellingum, húngri og dýrtíd, stormi og óvedri, eldsneyd og vatnsvoda, pest og odrum sárlegum næmum sjúkdómum, samt allri annari ólukku bædi til lífs og sálar. Snú til vor aptur þinni fodurlegri gæzku til allrar tímanlegrar og eilífrar velferdar. Gef frid, drottinn! um vora daga; gef lukku og velferd í vorum londum; lát þína dýrd framvegis búa á medal vor, svo trúfestin og sannleikurinn mætist sín á milli, en réttlætid og fridurinn kyssi hvort annad. Blessa einn og sérhvern í sinni ærlegri hondlun bædi til lands og vatns. Blessa vort stand og vort embætti, vora næringu og bjorg, vorn sveita og vort ervidi. Blessa vora stadi og vora akra, vor hús og vorar karfir og vorar afgángs- leifar; landsins ávoxtur og lífsins ávortur veri blessadur fyrir þér. Drottinn! bjód þinni blessun ad koma yfir allt þad, sem vér tokum oss fyrir hendur; blessun af himnum ad ofan, blessun af undirdjúpunum ad nedan, svo ad vor blessun megi ná allt til þeirra eilífu hædanna takmarka; blessa oss gud, vor gud! og jordin gefi sinn ávoxt. Audsýn, ó gud! játendum vorrar trúar, sem í ýmsum stodum plágadir eru, ásamt þinni sannri kristni, þína undrunarlegu gæzku í gegn ollum þeim, sem setja sig upp á móti þinni hægri hendi, en lát þá sjá og þekkja, ad þú ert þeirra frelsari, sem á þig vona. Drottinn! frelsa þitt fólk, og blessa þá, sem eru þinn arfur og eiginndómur. Lát eingan af oss missa þína blessun

tímanlega edur eilífa, heldur vertú sjálfur læknir þeirra sjúku, hjálpari þeirra naudstöddu, huggari þeirra harmþrúngnu, forsorgari þeirra voludu, forsvar ekknanna og fadir födurlausra, huggun allra huggunarlausra, hjálp allra hjálparlausra og miskuna þig yfir oss allasaman. O gud! vertú oss aumum syndurum líknsamur! Fyrirgef oss allar vorar blódugar syndir, og uppgef oss allt verdskuldad straff bædi tímanlegt og eilíft, fyrir Jesú Krists, fyrir Jesú Krists skuld!

Veit oss, ó gud! þína náд, til réttilegs og alvarlegs ángurs og trega, sökum umlidinna synda, til stödugrar trúar og trausts til vors frelsara Jesú Krists, og ad sídustu til gledilegs og sáluhjálplegs vidskilnadar frá þessum heimi, ad vér ætíd mættum finnast í þinni þjónustu, fullir af trúnni og gódum verkum, sem eru þeir réttu idrunar og umvendunar ávextir. Hjálp oss, almáttugi gud og fadir! ad vér aldrei framar meir föllum í nokkurt syndsamlegt andvaraleysi, edur skammarlega vanrækjum þennan vorn vitjunartíma og vorn rétta hjálprædis dag, heldur ad vér ætíd vökum og bidjum til þín, svo ad vér med styrkvum anda í gladri von mættum ætíd vænta dýrdarlegrar tilkomu vors drottins og frelsara, Jesú Krists, oss til fullkominnar eilífrar útlausnar og sáluhjálpar. Æ drottinn! þú háttlofada þrieining, fadir, sonur og heilagur andi! heilagi herra gud! heilagi sterki gud! heilagi líknsami lausnari, þú æfinlegi gud! heyr vora bæn, og gef þú gætur ad vorri grátbeidni! heyr oss og miskuna þig yfir oss nú og ætíd, amen! amen!

# Vegleidsla
fyrir
presta.



(Eptir konúngs Kristjáns V. kirkju-ritúal).

## 1. Um skírnina.

Einginn, hver helzt hann er, skal láta hindra børn sín frá skírninni, leingur en løgin leyfa, heldur strax, þegar barnid er fædt í heiminn, skulu foreldrarnir edur adrir nálægir sorga fyrir því, ad þad skírt verdi, hid fyrsta møgulegt er. Þeir, sem vilja láta skíra børn sín, skulu ádur gefa þad vidkomanda presti til vitundar, og láta bædi sín eigin nøfn og líka barnsins og gudfedginanna rita í kirkjubókina, sem prestur sjálfur gjørir. Øll børn eiga ad skírast í kirkjunni í hennar skírnarfonti, þrisvar ausast yfir bert høfud, í nafni guds fødurs, sonar og heilags anda. Børn skulu skírast, strax þegar úti er prédikun, en ærlegar persónur, sem hafa gott mannord, skal taka fyrir skírnarvotta, þó ekki fleiri en 5, karlmenn og kvennmenn til samans. Þegar þau eru komin med barnid, geingur presturinn til skírnarfontsins og framkvæmir skírnina, sem eptirfylgir:

Fyrst spyr presturinn: Er barnid heimaskírt? og sé þad ekki, fer hann áfram og segir:

Elskuleg guds börn!

Eptir þvi syndin er fyrir einn mann innkomin í heiminn og daudinn fyrir syndina, og daudinn hefir sér til allra manna innþreyngt, af þvi ad allir hafa syndgad; svo er nú fordæming komin yfir alla menn, fyrir eins manns fall, hvar fyrir vér og allir erum, af náttúrunni til, reidinnar börn, og höfum skort á þeirri hrósun, sem vér áttum fyrir gudi ad hafa. En líka sem margir eru syndugir vordnir fyrir eins manns óhlýdni, svo verda og fyrir þess eina Jesú Krists hlýdni margir réttlátir; þvi eins og syndin hefir ríkt fyrir daudann, svo skal og nádin ríkja fyrir réttlætid til eilífs lífs, fyrir Jesúm Krist, vorn drottinn, hver ed fyrir vorar syndir var ofurseldur, og fyrir vors réttlætis sakir uppvaktur, í hverjum og gud, vor fadir, hefir útvalid oss, ádur en veroldin var grundvöllud, ad vér skyldum vera heilagir og óstraffanlegir fyrir hans augsýn í kærleikanum, og hefir skikkad oss í honum til sonarlegrar útvalningar eptir sinni velþókknun, og tekid oss til nádar í þessum sínum elskulega, til lofs sinni dýrdarlegri nád, svo ad vér höfum endurlausnina fyrir hans blód, sem er syndanna fyrirgefning. En upp á þad vér skyldum fá rétt og adgáng til þessarar guds nádar í Kristi, hefir hann innsett endurfædingarinnar og endurnýúngarinnar laug, sem skedur fyrir heilagan anda, hverjum hann hefir ríkuglega úthellt yfir oss fyrir Jesúm Krist, vorn lausnara, ad vér réttlættumst fyrir hans nád og

yrdum erfingjar eilífs lífs eptir voninni; því skírnin er ekki burttekt holdsins saurugleika, heldur sáttmáli góðrar samvizku við guð, fyrir upprisu Jesú Krists. En upp á það, að þetta barn (þessi børn), sem er getið í syndinni og fædt í yfirtroðslunni, kunni að sjá guðs ríki, í hvert vor herra Jesús Kristur hefir sjálfur sagt, að einginn kunni inn að komast, nema hann fæðist að nýu út af vatni og anda, svo viljum vér, í þessa drottins Jesú nafni, inntaka það, fyrir þá heilogu skírn, í samfélag þeirrar kristilegu kirkju, til að verða hluttakandi hans velgjørninga, eptir þeirri reglu og máta sem hann sjálfur hefir fyrirsett, þegar hann skipaði sínum lærisveinum: farið út um allan heiminn, og kennið øllum þjóðum og skírið þær í nafni guðs føðurs, sonar og heilags anda.

(Síðan segir presturinn:)

Meðtak þú teikn hins heilaga kross, bæði á enni og á brjósti, til vitnisburðar, að þú skalt trúa á þann krossfesta drottinn Jesúm Krist.

Látum oss alla biðja!

O! almáttugi, eilífi guð, faðir drottins vors Jesú Krists! eg ákalla þig fyrir þetta þitt barn (þessi þín børn), sem biður um þína skírnar gáfu, og girnist þína eilífu náð, fyrir þá andlegu endurfæðingu; meðtak þú það (þau), drottinn! og eins og þú hefir sagt: biðjið, og munuð þér meðtaka, leitið, og munuð þér finna, knýið á, og mun fyrir yður upplokið verða; svo gef nú það góða, því sem biður (þeim sem biðja), og lát upp dyrnar fyrir því (þeim), sem áknýr, að það

(þau) ødlist eilífa blessun þessarar himneskrar laugar, og medtaki fyrirheitid ríki þinnar gáfu, fyrir Jesúm Krist, vorn drottinn, amen!

Látum oss heyra það heilaga guðspjall, sem Markús skrifar í 10. kap.

**Og þeir færdu úngbørn til Jesúm, ad hann legdi hendur yfir þau, en lærisveinarnir átøldu þá, er þau báru, og er Jesús sá það, líkadi honum það ekki vel, og sagdi til þeirra: leyfid børnunum til mín ad koma, og bannid þeim það ekki, því ad þvílíkra er guds ríki. Sannlega segi eg ydur: hver hann medtekur ekki guds ríki, sem annad úngbarn, sá mun ekki inngánga í það. Og hann tók þau í fáng, lagdi sínar hendur yfir þau og blessadi þau.**

Til þeirrar somu blessunar viljum vér og hjálpa þessu únga barni med vorri drottinnlegri bæn til guds.

(Svo leggur presturinn hondina á barnsins høfud og segir:)

Fadir vor! þú, sem ert á himnum, etc.

(Sídan geingur presturinn nær skírnarfontinum — og hún, sem barnid ber — og segir:)

Drottinn vardveiti þinn inngáng og útgáng, nú hédan í frá og ad eilífu, amen!

(Sídan er spurt ad nafni barnsins.).

Lofadur veri gud og fadir vors drottins, Jesú Krists, sem eptir sinni miklu miskunsemi vill endurfæda þig til lifandi vonar, fyrir upprisu Jesú Krists frá daudum, en þú verdur med honum greptradur, fyrir

skirnina, til dauda, upp á þad, ad líka svo sem Kristur er uppvakinn frá daudum fyrir dýrd fødursins, svo skulir þú og gánga í nýu liferni.

N. Afneitar þú djøflinum? Já!

Og øllum hans verkum? Já!

Og øllu hans athæfi? Já!

Trúir þú á gud fødur almáttugan skapþimins og jardar? Já!

Trúir þú á Jesúm Krist, son hans eingetinn drottinn vorn, getinn af heilögum anda, fæddan af Maríu meyu, pindan undir Pontio Pilató, krossfestan, líflátinn og grafinn, niburstiginn til helvitis, upprisinn af dauda, uppstiginn til himna, sitjandi til guds fødurs hægri handar, þadan komandi ad dæma lifendur og dauda? Já!

Trúir þú á heilagan anda, og ad er ein heilög, almennileg, kristileg kirkja, sem er samneyti heilagra, fyrirgefning syndanna, holdsins upprisa og, eptir þetta lif, eilift lif? Já!

Vilt þú upp á þessa trú verda skirdur? Já!

(Barnid nefnist.).

N. Eg skiri þig í nafni guds fødurs og sonar og heilags anda.

(Sidan les presturinn, med handanna yfirleggingu, þessa bæn:)

Sá almáttugi gud og fadir vors drottins Jesú Krists, sem þig hefir endurgetid fyrir vatn og heilagan anda, og hefir þér allar þínar syndir fyrirgefid, hann styrki þig med sinni náð til eilifs lifs, amen!

Fridur sé med þér, amen!

### Til gudfedginanna.

Góð systkin! sem verið hafið gudfedgini þessa barns, þér skulud vera vitni til, ad þad sé skírt í nafn heilagrar þrenningar; svo skulud þér einnig vita, hvad þér erud þessu barni skyldug, ef foreldrarnir kynnu frá ad falla, ádur en þad kemur til løgaldurs, ad þér þá látid kenna því sín kristileg frædi, ef þid erud barninu svo náleg, ad þad mætti halda sér vid Krist, þegar þad uppvex, eins og þad nú er, fyrir skírnina, honum innplantad.

Fridur sé med ydur, amen!

## 2. Um heimaskírd børn.

Er barnid heimaskírt? Já!
Hver hefir skírt barnid?
Er þad skírt í hreinu vatni? Já!
Er þad skírt í nafni heilagrar þrenningar? Já!

Drottinn vardveiti þinn inngáng og útgáng, nú hédan í frá og ad eilífu, amen!

N. Afneitar þú djøflinum? Já!
Og øllum hans verkum? Já!
Og øllu hans athæfi? Já!
Trúir þú á gud fødur almáttugan skapara himins og jardar? Já!

Trúir þú á Jesúm Krist, son hans eingetinn drottinn vorn, getinn af heiløgum anda, fæddan af Maríu meyu, píndan undir Pontíó Pilató, krossfestan, liflátinn og grafinn, nidurstiginn til helvitis, upprisinn af dauda, uppstiginn til himna, sitjandi til guds føburs

hægri handar, þadan komandi ad dæma lifendur og dauda Já?

Trúir þú á heilagan anda, og ad er ein heilög, almennileg kristileg kirkja, sem er samneyti heilagra, fyrirgefning syndanna, holdsins upprisa og, eptir þetta lif, eilift lif? Já!

Látum oss heyra þad heilaga gudspjall, sem Markús skrifar i 10. kap.

**Og þeir færdu úngbørn til Jesúm, ad hann legdi hendur yfir þau, en lærisveinarnir átøldu þá, er þau báru, og er Jesús sá þad, líkadi honum þad ekki vel, og sagdi til þeirra: leyfid børnunum til mín ad koma, og bannid þeim þad ekki, því ad þvílíkra er guds ríki. Sannlega segi eg ydur: hver hann medtekur ekki guds ríki, sem annad úngbarn, sá mun ekki inngánga í þad. Og hann tók þau í fáng, lagdi sínar hendur yfir þau, og blessadi þau.**

Til þeirrar sømu blessunar viljum vér og hjálpa þessu únga barni med vorri drottinnlegri bæn til guds.

(Svo leggur presturinn høndina á barnsins høfud og segir:)

Fadir vor! þú, sem ert á himnum, etc.

Eptir því, kæru Krists vinir! ad þetta barn er ádur skirt i nafni guds fødurs, sonar og heilags anda, og hefir allareidu medtekid heilagan anda med syndanna fyrirgefningu, fyrir því skulum vér þad ekki endurskira, ad vér ekki gjørum spott og hád ad heilögum anda, og skulud þid, gudsfedgin! hér um framar øllum ødrum

vitni bera, og þakkir gjøra drottni gudi vorum, sem það hefir til náðar tekið fyrir Krist.

(Með handanna uppáleggingu.).

Sá almáttugi guð og faðir vors drottins Jesú Krists, sem þig hefir endurgetið fyrir vatn og heilagan anda, og hefir þér allar þínar syndir fyrirgefið, hann styrki þig með sinni náð til eilífs lífs, amen!

Friður sé með þér, amen!

Einginn utan vígðar persónur mega skíra; en sé barnið svo veikt eptir fæðinguna, að því verði ekki, án lífsháska, komið til kirkju, þá, sé prestur ekki nálægur, eður önnur skikkanleg karlmanns persóna, sem komin er til lögaldurs, má yfirsetukonan, eða önnur guðhrædd kvinna, skíra það í hreinu vatni, en ekki öðru, þannig:

N. Eg skíri þig í nafni guðs föðurs og sonar og heilags anda.

Þó skal það ske í tveggja eða þriggja náveru hið minnsta, er vitna kunni um það, að barnið sé rétt skírt í nafni heilagrar þrenningar. Beri það til, að fæðingin komi svo hastarlega, að móðirin og barnið sé í lífsháska, eptir að það er fullfætt í heiminn, að hún hafi ekki tíma að kalla aðra þar til, þá má hún sjálf skíra sitt barn, sem fyrr segir. Deyi það þá, svo er það vel dáið, þar það hefir meðtekið þá réttu skírn, hvar um presturinn skal undirvísa móðurinni, að hún ekki efist.

## 3. Um barnssængur-konur.

Prestarnir skulu kostgæfilega undirvísa óléttum konum, og áminna þær, að þær með þakklæti viðurkenni þá blessun, er guð hefir þeim veitta, en vakti sig fyrir óaðgætni og skaðlegum tilfellum, sem mögulegt vera

kann. Ervidi trúlega i þeirra kalli, þegar timinn kemur, vitandi, ad jafnvel þó oll þessi kvol sé verdlaun syndarinnar, þá eru þær þó gudi þakknæmar i þeirri hinni somu stétt, þegar þær eru stødugar i trúnni, heilagleika og hreinlifi, og med þolinmædi vænta gódrar og mjúkrar lausnar. Þeir skulu einnig áminna þær til þolinmædi, opt og tidum fela drottni sina vegu og sinn lifs ávøxt til allrar nádar og verndar, med þessum edur þvilikum hætti:

Eg þakka þér, almáttugi og eilifi gud! elskulegasti Jesú Kristi! fyrir þessa þina blessun. Þar ed þú sjálfur bodid hefir, ad børnin skuli koma til þin, þá offra eg nú þessu minu fóstri og lifs ávexti og bid þig, ad þú viljir hann medtaka og jafnan þér befaladan vera láta, svo hann megi eilif not fá af þinu heilaga dýrmæta blódi, en þegar timinn er, eptir þinni velþókknun, fyrir gledilega og milda lausn, án allra meina, koma i þenna heim, og fyrir þá heilogu skirn verda endurfæddan til eilifrar sáluhjálpar, amen!

## 4. Um yfirsetukonur.

Yfirsetukonur eiga fyrst ad yfirheyrast og gefast bréf upp á þeirra embætti; þær eiga ad þjóna rikum og fátækum fyrir sanngjorn laun af þeim, er geta, en hinum upp á guds vegna. Hver prestur i sinni sókn á þær ad uppfræda, hvernig þær skulu hegda sér vid módurina og fóstrid.

1. Ad þær viti rétt ad hugga óléttar konur, sem eru komnar ad falli og áminna til þakklætis vid gud, fyrir þad þær eru blessadar med lifs ávexti, hvert ekki hlotnast ollum konum, og ad þær af hjarta bidji gud um hjálp og adstod, hver ed gjorir þad bezta, samt leida þeim fyrir sjónir, ad þetta sé kross vegna synd-

arinnar, 1. Mós. 3., sem fljótt umsnúist til gledi, Jóh. 16, ef þær í trúnni med þolinmædi bida drottins tíma; en skyldi koma þar ad, þær sýndust vera staddar í lífsháska, ad þær feli sig gudi med þeim odrum, sem bera hans kross. Þó skyldi spart ræda hér um, nema lífsháski væri sýnilegur.

2. Ad þær fari varlega med fóstrid, svo þad ekki af þeirra medferd fái nokkurn skada. Finni þær þad lifandi med módurinni, en veikt í fædingunni, skulu þær fela þad gudi med þessum eda þvílíkum bænarordum:

O herra Jesús Kristur! sem hefir einkum þóknun á úngbörnunum, sem borin eru til þín, og hefir lofad þeim himnaríki. Eptir því sama lofordi framberum vér þér nú þetta barn. Medtak þú þad, ó allra hjartkærasti Jesú! Lát þad eilíflega njóta þinnar endurlausnar, er þú útvegadir oss á þínum krossi, amen!

Fædist barnid ad öllu, en svo veikt, ad sýnist daudvona, skulu þær strax skíra þad, sem fyrr segir, bls. 203, og ef tíminn leyfir, lesa þessa bæn:

O herra Jesú Kristi! vér offrum þér þessu barni upp á þín eigin ord, og bidjum þig, ad þú medtakir þad og látir verda sannkristid. Eda enn styttra:

O herra Jesú! medtak þú þetta barn.

Sé barnid dáid í módurlífi, beri þær sig ad hjálpa henni. En svo þær fái því betur minnzt þess, er þeim á herdum liggur í þeirra embætti, þá skulu prestarnir tvisvar á ári, um páska og mikkaels-messu leyti í medhjálparanna nærveru, í hverri sókn, upplesa fyrir þeim í kórnum þessa eptirskrifada pósta:

1. Þar þér hafid tekizt á hendur þad embætti, med hverju margra mædra og barna líf er lagt í ydar hendur, þá ber ydur ad vera gudhræddri og heyra idugloga guds ord, svo þér fáid med því huggad þær, er í

barnsneyd liggja, og bedid fyrir þeim til guds, samt ad hann vilji gefa ydur góð ráð og blessa í ydar embætti af sinni miklu náð, og vitid, ad þad er hans, en ekki manna, ad útleida born af móðurlifi.

2. Skulud þér vera árvakrar í ydar embætti, ad bædi mædurnar og bornin haldist vid heilsu og heilbrigdi; því ef þau lida skada af ydar forsómun, adgæzluleysi, drykkjuskap eda þess háttar illri medferd, þá erud þér mordingi, en gud mun krefja þess saklausa blóds af ydur.

3. Skulud þér varast þúnglyndi, hatur, fjandskap og hefndargirni. Hafi nokkur gjort ydur órétt, þá gleymid því af kristilegum kærleika, en látid ekki naudlidandi gjalda. Sé barnid dautt med módurinni, þá reynid samt til ad bjarga henni.

4. Skulud þér med gódri greind og skynsemi umgángast óléttar konur, elska þær, og eins og mædur breyta vid þær, hugga þær med guds ordi, þá vidþarf, og bidja fyrir þeim, áminna þær ad ervida trúlega í sínu kalli, eptir guds tilskipun, ad þær ekki, fyrir skammvinnra harmkvæla skuld, fyrirfari sínum lifs ávexti, sér til vondrar samvizku.

5. Skulud þér vera fúsar til ad hjálpa eins vel fátækum, sem ríkum. Ekki skulud þér krefja of mikilla launa, heldur þjóna þeim orfnaudu upp á guds vegna. Þótt þér séud eins skyldar ad hjálpa þeim, sem fæda í saurlifi, skulud þér ekki styrkja til ad dylja þad, heldur strax gefa þad sóknarprestinum til vitundar.

6. Skulud þér einúngis brúka vid módurina og barnid bænina og leyfileg, náttúrleg, kristileg medol, og ekki nokkur ógudleg, hjátrúarfull eda óleyfileg, heldur

opinbera, ef nokkur brúkar þau. Fyrirvirdid ydur ekki ad sækja rád til þeirra, er betur vita, bædi ljósmædra og annara.

7. Skulud þér ætid vera hóffsamar og varast drykkjuskap, svo ydur ekki yfirsjáist hans vegna; fordast lausátt og óskikkanlegt tal og athæfi, svo ekki séud til hneykslis ødrum kvinnum, heldur gódra eptirdæma.

8. Þegar neyd ekki brádlega heimtar, skulud þér ekki fljótlega áræda nokkud med ydar eindæmi, heldur gjøra bod skynsømum konum og lika presti, ef vidþarf, módurinni til huggunar.

9. Skulud þér vera þagmælskar, og ekki opinbera nokkrum, hvad áfátt kynni vera fyrir konunni, svo henni gefist ekki orsok til ad blygdast þar af.

10. Af skirninni skulud þér ydur ekki skipta; en sé barnid, þá fædt er, í lífsháska, þá megid þér, náist ekki prestur eda nokkur skikkanlegur karlmadur, sem kominn er til løgaldurs, skira þad í **nafni guds fødurs, sonar og heilags anda.** Annars skulud þér fela barnid gudi, á medan þad enn þá er í módurkvidi, ad hann vilji þad, fyrir Krists sakir, til nádar taka.

11. Þér skulud ekki heldur eiga hlut í nokkurs barns heimuglegri greptrun, heldur, ef ótimabær burdur fædist, skulud þér visa hans greptrun til prestsins úrlausnar.

Upp á þessa pósta skal yfirsetukonan vinna eid. (Sjá tilskip. um hjónab. 3. jún. 1746, §. 15).

## Eidurinn stýlist þannig:

Eg N. N. medtekin ad vera yfirsetukona, sver og lofa:

1) Ad eg skal ætid hafa mér gud fyrir augum í

þessari ervidu köllun, af allri kostgæfni, fyrir guds nád og þar til sæmileg medöl, trúlega hjálpa einni og sérhverri, sem minnar hjálpar óskar, eins fátækum og ríkum, varhygdarlega höndla med fóstrid og módurina, svo ad fyrir mína vangæzlu, forsómun eda illa medferd orsakist einginn skadi.

2) Skal eg ekki leyna nokkurri óekta fædingu eda barnsmordi, sem fyrir mig kann ad koma, heldur á tilhlýdilegum stödum þad strax auglýsa, hver sem í hlut á, án manngreinar álits.

3) Vil eg finnast hófsom, hreinlíf og kostgæfin í mér tiltrúadri köllun, og öllu því eg tek mér fyrir, og mér svo í lífi og lifnadi hegda, eptir fyrir mér upplesnum póstum, ad einginn, nærst guds hjálp, hafi orsök í nokkurn máta yfir mér ad klaga..

Svo sannarlega hjálpi mér gud og hans heilaga ord!

## 5. Um kirkjuleidslu kvenna.

Þær kvinnur, sem barn alid hafa, skulu, eptir fædínguna, halda sig nokkrar vikur heima, en sídan af prestinum innleidast. Þær, sem leidast í kirkju, skulu ádur gefa prestinum þad til kynna, og láta sitt nafn innskrifa.

### Kirkjuleidslu mátinn má vera á þenna hátt:

Elskulegt guds barn! Þér erud í dag uppgeingar til þessa heilaga guds húss, sem gladvær og blessud barnamódir, ad prísa ydar gud, fyrir þá miklu nád, sem hann á ydar barns fædingar tíma hefir ydur audsýnt, ad hann ekki einúngis hefir gefid ydur krapt ad bera ydar lífs ávöxt til þess rétta tíma, heldur miskunsamlega leyst ydur og blessad med dæilega sköpudum syni (dóttur); en þar hann hefir fyrir fædinguna gjört hann

(hana) ydar erfingja, hefir hann þar strax eptir, fyrir endurfædinguna, tekid hann (hana) til arfskiptis heilagra i himninum, þvi skulud þér nú yfirvega tvennt, sem þér i þessari ydar kirkjugaungu hafid ad athuga:

1.) Hver ydar skylda sé vid gud fyrir þvilika nád.

2.) Hver ydar skylda sé vid ydar barn.

Pad fyrsta, sem ydur ber ad gjøra, er, ad þér, sem gudhrædd módir, framberid ydar barn gudi, þess skapara, hver verid hefir þess høfundur og gjørt þad bezta vid ydur; þvi þótt børnin fædist af sinna foreldra holdi og blódi, ad þeir kunni ad segja, sem Adam um konu sina Evu, vora fyrstu módur: hún er hold af minu holdi og bein af minum beinum, 1. Mós. 2, 23., þá er þó gud vor allra skapari, og megum játa med David: þú, drottinn! huldir mig i minnar módur lifi, Sálm. 139, 23. Pad er gud vor skapari, sem innleidir oss i módurlifid og út þadan aptur, ad vér ekki fyriførumst. Hann apturlykur fyrir kvinnunni, svò ad hún ekki fædi, eins og hann gjørdi i Abimeleks húsi, 1. Mós. 20, 18.; hann apturlykur og fyrir barninu, ad þad ekki fædist, heldur deyr i módurlifi, Job. 16., eda verdur sinni módur sem Benóni og sorgar-sonur, 1. Mós. 35, 18. J þvi tilliti kallar heilagur andi þad blessun guds, þegar konan fædir, 1. Mós. 1, 28.; þvi án hennar verdur hún aldrei módir, og enn sidur gladvær barnamódir; en gud hefir gefid ydur hvorttveggja, þér, drottins blessada! hann hefir blessad ydur med lifs blessun, ad þér erud vordnar módir, hann hefir blessad ydur med likams blessun, ad þér erud glød og blessud módir ad yndislegu barni, sem er án lýta, en fyrir endurfædinguna guds barn. Svo opt sem þér litid þetta eda ønnur børn, sem gud hefir blessad ydur med, skulud þér hugsa med sjálfri ydur, þad sú mekkabeiska sagdi fyrr til sinna barna, 2. Makk. 7, 22.: eg er ad sønnu ydar módir, en eg veit ekki, hvernig þér álitust i minu lifi; þvi eg gaf ydur ekki anda og lif, og eg safn-

adi ekki svo undarlega ydar fyrsta grundvelli. Þvi ber ydur med þakkargjord ad medtaka þessa gáfu af hendi drottins, og i dag, samt daglega med Önnu Samúels módir, bera drottni hans eigin gáfu med lofgjørd og þakklæti, 1. Sam. 1, 24. Ad þér ekki einúngis i dag, sem Lea, þegar hún fæddi Júda, segid til drottins: i þetta sinn vil eg lofsegja og þakka drottni, 1. Mós. 29, 35., heldur segja med David: eg vil lofa drottinn, svo leingi sem eg lifi, eg vil kunngjøra lof drottins, medan eg er til, Sálm. 146, 2. Hann, sem hefir þad gjørt, ad þér kunnid ad búa gladvær barnamódir hér eptir i ydar húsi, Sálm. 123, 9, elskast af ydar barni (børnum) og hrósast af ydar húsbónda, Ordskv. 31, 28. En ad þér enn framar fáid audsýnt þá ydar lofgjord og þakklæti vid drottinn ydar gud, þá sjáid til, ad þér, sem erud ordin glod módir i fædingunni, verdid forsjál og gudi þægileg módir i uppfóstrinu; og þad er:

I annan máta er ydar skylda vid ydar barn, ad þér ekki einúngis berid umhyggju fyrir þess likamlegri forsorgun, heldur fyrir þess sálarfódri, af hverju þad fær uppalist til himnarikis, og vaxandi farid, med aldrinum og styrkleikanum, i visdómi og nád hjá gudi og monnum, Lúk. 2, 22. Þegar þér takid barn ydar á brjóst, þá gleymid ekki ad fæda þad um leid á þeirri ósviknu mjólk, sem Pétur talar um, 1. Pét. 2, 2., ad þad uppvaxi i nád Jesú Krists og hans sáluhjálplegu þekkingu, 2. Pét. 3, 18. Offrid þvi i dag og daglega, kvøld og morgna, gudi i ydar bænum, og ástundid, ad þad i frá barnæsku megi uppfrædast i guds heilaga ordi, 2. Tim. 3, 15., ad þad odlist þann sáluhjálplega visdóm, og læri ad gánga sinn veg óstraffanlega fyrir drottni, Sálm. 119, 9. Minnid þad á ord Salómons: þeink til þins skapara i þinum úngdómi, Préd. 12, 1. Hugsid vel sjálfar um áminningu Páls: þér foreldrar! uppalid ydar børn i aga og umvøndun drottins, Ef. 6, 4.

Vaktid ydur, ad þér hvorki med ordum eda verkum hneykslid ydar barn, því vei þeim manni, fyrir hvern hneykslanin kemur, segir Kristur, Matt. 18, 7. Hafid ætíd í minni þau ord, er drottinn taladi á fjallinu Sinai: ef þér gángid óskikkanlega fyrir drottni, þá mun hann vitja ydar vondsku á ydar bornum í þridju og fjórdu ættkvísl; en þar á móti: ef þér elskid hann og haldid hans bod, gjora miskunsemi í þúsund lidu vid barn ydar, 2. Mós. 20, 1. Hverrar blessunar eg af hjarta, fyrir Jesúm, óska ydur og bid í hans nafni: **Fadir vor! Þú, sem ert á himnum,** etc.

Gángid inn med fridi í guds søfnud, og offrid gudi lofgjord og þakklæti, sem hefir svo vel gjørt vid ydur, hann styrki ydur framvegis bædi til lífs og sálar, og láti þenna ydar inngáng og útgáng ætíd verda blessadan fyrir sínu augliti, amen!

## Annad form.

Hafi barnid dáid fyrir eda eptir barnburdinn, fyrir eda eptir skírnina; sé annadhvort barnid eda módirin sjálf nokkud sérlega vanheil og óhraust, ellegar nókkur veikleiki af því tilefni uppáfallinn, þá lagi presturinn ord sín og hugganir þar eptir. Hann skal þá í þvílíkum tilfellum tala á þenna hátt:

Elskulegt guds barn! Þér erud máske med miklum andvorpum og sorgar-veini í dag uppgeingnar til drottins húss, eptir ydar harda og orduga barnburd eins og harmþrúngin módir, sem saknar barns síns, Lúk. 2, 43., en þér skulud med þakklæti gánga inn í guds hús; því jafnvel þó þér sorgfullar vera megid í ydar hjarta, þar gud hefir tekid ydar barn frá ydur, ber ydur samt ad hugleida, ad gud tók ekkert nema þad, sem hann ádur hafdi ydur gefid. Eda hvad fáid þér annad sagt um þetta guds verk, en þad, er sá mótlætti fadir Job sagdi, þegar øll born hans voru daud: drottinn gaf, drottinn burttók, lofad sé nafnid drottins, Job. 1, 21. Nú, þó þér haft hafid þjáningu og

harmkvæli fyrir ydru barni, svo ydar lendar hafi af pinu vanmegnazt vegna ydar barnsburdar, þá vitid þér þó, ad gud var sá, sem lét þann ávoxt vaxa med ydur, svo þér ekki reiknast skyldud á medal þeirra ófrjófu. Hann gaf ydur styrkleika til ad fæda þad, sem til fædingarinnar var fullkomid, hvar annars einginn styrkur hefdi verid, 2. Kóng. 19, 3. Hvert viljid þér þá reidast vid missir þess, hvers þér aldrei vorud rádandi, en sjálfur gud hafdi mesta rétt til? Jóh. 4, 9. Viljid þér gremjast yfir því, ad gud hafi ydar ervidi og von ad eingu gjort, ad þér med módur Sissere væntud ydur lifanda barns, og, sjá, þess lif var i burtu. Þér væntud gledi, Dóm. b. 16, 21., og sjá, þar var sorg, Jer. 8. 15. Þeinkid þó ekki, ad ydar von sé med ollu úti, likist heldur Job i hugprýdinni, hver, þá neydin lá sem hardast á honum, sagdi: þó drottinn deydi mig, skal eg samt á hann vona, Job. 13, 25. Sé ydur þad til ángurs, ad ydar barn hafi dáid i módurlifi, ádur en þad, fyrir endurgetningar laugina, fékk lifid i Kristi, Gal, 3, 27., þá huggid ydur aptur á mót þar vid, ad þér vitid ydar barn af gudi medtekid, sem trúud kristin manneskja, hvar med þér i voninni, eins og góð módir, i fullu trúartrausti, offrad hafid ydar barni drottni ydar gudi.

Þér vitid enn framar, ad en þótt nytsemi skirnarinnar sé mikil og ómissandi til sáluhjálpar, Jóh. 3, 5., samt er gud þó ekki ætid bundinn vid skirnina og þvilik sáluhjálpar medol, heldur frelsar hann allt eins án medals, sem fyrir þad. Hversu margir dóu ekki i því gamla testamenti óumskornir innan áttunda dags? hversu margir á 40 ára ferdinni i eydimorkinni, Jós. 5, 5.? hversu margir i Egyptalandi undir Faraóni, 2. Mós. 1, 22.? hversu margir undir týrannanum Antiokkus, 1. Makkab. 1, 36.; 2. Makkab. 6, 10.? Hver vill segja, ad allir þessir hafi ekki ordid sáluhólpnir? því skyldi gud ekki hafa getad nú gefid þessu barni trúna

i ydar lifi, eins og hann fordum gaf hana þeim litla Jóhannesi i lifi módur sinnar, Lúk. 1, 44.? Þegar þér einúngis hafid góda samvizku, ad þad ekki i nokkurn máta af ydar vøldum er svo hastarlega tortýnt, þá haldid ydur vid guds fyrirheit, hver gefin eru ydur og ydar børnum, eptir guds eigin óbrigdula lofordi, fyrir munn Péturs, Post. g. 2, 39.; þvi hvad gud sagdi ádur til Abrahams, þad hefir hann og talad til allra trúadra: eg vil vera þinn gud, og þins sædis gud, 1. Mós. 17, 7. Huggid ydur vid Jesú ord, er segir: ydar himneski fadir vill ekki, ad einn af þessum smælingjum glatist, Matt. 18, 18., þvi þeirra er himnariki, Matt. 19, 14.

Ef þér setjid fyrir ydur þá vanheilsu, sem ydur eda barni ydar er tilfallin i fædingunni, svo þér máske kvarta megid med Noomi, ad sá hinn almáttugi hafi byrlad ærid beiskt fyrir ydur, Rut. 1, 20., þá vitid þó, ad guds vilji er ætid betri en manna vilji; ydur ber þvi ad þegja med stillingu og þolinmædi, en segja med David: eg vil þegja og ekki munni minum uppljúka, þvi þú, drottinn, gjordir þad, Sálm. 39, 10. Þar fædist stundum einn af módurlifi, sem nokkurn brest hefir á sinum limum, sem sá blindi, Jóh. 9, 1., sá hallti, Post, g. 3. 2., stundum einn, sem hefir ofmarga limi, sem hinn hái madur, er hafdi 6 fingar á hverri hendi, og 6 tær á hverjum fæti, 2. Sam. 21, 20. Stundum fædist ein manneskja andvana, sem ekkert lif hefir af sinnar módurlifi. En — hver vill þess vegna þrátta vid skaparann, og segja til hans: hvad gjordir þú? þvi vei þeim, sem segir til fødursins: hvad gatst þú? og til módurinnar: hvad fæddir þú? Es. 45, 9. 10. Ef þér þeinkid med kvinnunni i Sarepta, ad gud sé ydur reidur, og þetta hafi ydur hent, svo ydar misgjørninga minnzt verdi, og ydar sonur (dóttir) tortýnist, 1. Kóng. 17, 18., svo þér þykist med Rebekku segja mega: hafi gud blessad mig, hvar fyrir skedur þetta?

1. Mós. 25, 22., þa vitid, ad guds dómur skal ætíd birtast á guds húsi, sem Pétur kennir, 1. Pét. 4, 17., því þeim beztu børnum refsar gud optlega hardara hinum ødrum, Hebr. 12, 5. Álitid guds eingetinn son, sem var líkari madki en manni, og hafdi þar ekkert tilunnid, Sálm. 22, 7. Álitid þá heilogu, hvad þeir hafa útstadid; álitid Job, Job. 1, 18.; álitid Pál, þann útvalda guds postula, 2. Kor. 12, 7. Já, setjid ydur fyrir sjónir øll guds børn, skulu þau ekki øll lída med Kristi, ef þau annars vilja med honum dýrdleg verda? Róm. 8, 7. Leggid Krists ord vel á hjartad, sem hann sagdi, þegar hann var spurdur um þann mann, sem blindur var fæddur af módurlífi; ad hvorki hann né foreldrar hans hefdu syndgad til þess, heldur ad guds verk skyldi á honum opinbert verda, Jóh. 9, 3. Huggid ydur vid postulans Páls ord: ad allir hlutir þéni þeim til góds, sem elska gud, Róm. 8, 28. Þó ydar barn væri veikt i fædingunni, þá er þad samt fyrir endurfædinguna sáluhólpid og i dýrd hjá gudi, því þad, sem sáist forgeingilegt, mun upprisa vegsamlegt, 1. Kor. 5, 42. 43. Þótt nú barn ydar sé burtu frá ydur, þá er þad samt i høndum guds. Þótt þér saknid þess nú úr ydar skauti, þú gledjizt vid þess hvíld i Abrahams skauti, Lúk. 16, 23.; sé þad hér ekki framar, þá er þad médal útvaldra i himninum, Ebr. 12, 22. Sé þad hér andvana fyrir augum vorum, þá lifir þó sála þess hjá gudi; syrgid því ekki! Jesús tók ydar barn til sín, ad þad skuli vera þar, sem hann er og njóta eilífrar sælu.

Látid ydur nú nægja guds vilja, og gángid inn i guds hús med þakkargjørd, styrkid sálu ydar i gudi, og prísid hans nafn, sem allt gjørir vel. Gjørid þér svo, þá mun guds blessun hvíla yfir ydur, og þér med gledi sjá þad i ydar lífi, hvers eg ydur af hjarta óska og undir eins bid med ydur: **Fadir vor! Þú, sem ert á himnum,** etc. Gud styrki ydur med sínum

anda og láti ydur sjá og smakka, hversu sætur drottinn sé.

## 6. Um opinbera aflausn.

Þeir, sem skulu standa opinberar skriptir, eiga nokkru ádur ad mæta hjá prestinum, og óska aflausnar; finni hann hjá þeim sannarlegt ángur og trega fyrir þeirra drýgdu synd, skal hann næstkomandi helgidag, þá þvilik aflausn á ad ske, medtaka þá, og á eptirfylgjandi hátt afleysa.

Þann dag þvilikur syndari á ad afleysast, skal, ad endadri prédikun, gefast søfnudinum tilkynna af prédikunarstólnum, ad þar sé idrandi syndari, sem hafi brotid á máti þvi N. bodordi, og med þvi hneykslad þenna Krists søfnud, hvers vegna hann í dag sé innkominn fyrir guds sofnud, opinberlega ad afbidja synd sína hjá gudi og hneykslid hjá søfnudinum; ad guds børn vildu bidja fyrir honum til drottins, ad hann af nád sinni vilji snúa honum framvegis, og svo stjórna med sínum heilaga anda, ad hann falli ekki optar í þvilikan glæp og guds reidi, hvar til vér samhuga viljum óska honum nádar og blessunar af gudi fødur, í Kristi Jesú vorum herra.

Svo byrjar forsaungarinn 8. versid af No. 138 í Messusaungsbókinni, en á medan kemur sú persóna, er leysast skal, til kórdyra og fellur þar á kné, presturinn útmálar þá med fám ordum fyrir sofnudinum vidurstygd þeirrar drýgdu syndar, samt hversu hrædilega sú persóna hafi breytt móti bodi guds og þessum Jesú Krists sofnudi, sem þar af hefir hneykslazt. Hann áminnir syndarann til sannarlegs apturhvarfs, eptir hverju hánn enn betur grenslast med eptirfylgjandi spurningum, sem hann gjorir til persónunnar þannig:

1.) Spyr eg, upp á guds vegna, ydur N. N. ad: hvort þér ekki hér fyrir gudi og þessum kristnum søfn-

udi, alvarlega medkennid, auk annara ydar morgu synda, ad þér hafid einkum med þessari ydar N. synd mikillega styggt ydar himneska fødur, og hneykslad samkristinn náúnga, þó einkum þenna guds søfnud, hvers limir þér hafid verid? Andsvar: Já!

2.) Hvort ydur af hjarta ángrar þessi ydar drýgda yfirsjón, med hverri þér hafid verdskuldad guds reidi, med tímanlegu og eilífu straffi? Já!

3.) Hvort þér trúid því stoduglega, ad gud, fyrir síns eingetins sonar, Jesú Krists dýrmætu verdskuldun, vilji vera ydur miskunsamur, og tilreikna ydur ekki þessa synd? Já!

4.) Hvort þér hafid stoduglega ásett ydur, hér eptir — med guds adstod — ad fardast og flýa allar þvílíkar yfirtrodslur, en kostgæfa betra og hreinferduglegra líferni eptir þenna dag? Já!

5.) Hvort ydur af hjarta lángar ad medtakast til samfélagsskapar þessa guds safnadar, sem þér hafid med ydar synd og hneykslun ydur fráskilid, og girnist nú hjartanlega ásamt ødrum guds børnum, ad verda hluttakandi í Jesú Krists allraheilagasta líkama og blódi í sakramentinu. Já!

Þess er hér ad gæta, ad sé þad hór eda frillulífi, á ad spyrja ad faderni barnsins, til hvers hún á þá í sannleika ad segja.

Presturinn segir þá enn framar eptir játninguna:

Svo snúid ydur þá til safnadarins og afbidjid þad hneyksli, sem þér med þessari synd hafid gefid honum. Syndarinn stendur þá upp og snýr sér ad søfnudinum, og segir:

Eg bid ydur, guds børn! ad þér viljid fyrirgefa mér þessa mína framda yfirsjón, en steytid ydur ekki né hneykslizt fremur á mér.

Svo fellur syndarinn aptur á kné fyrir prestinum, sem þá enn fremur hans vegna afbidur hneykslid; áminnir þar hjá, med Páli, hver, sem þykist standa,

sjái til, ad hann falli ekki, 1. Kor. 10, 12. Hvar upp á presturinn, med handanna uppáleggingu, afleysir syndarann á þenna hátt:

Eptir þessari ydar hjartans medkenningu, sem þér hafid nú opinberlega gjört fyrir augliti guds og þessa hans kristins safnadur, þá upp á guds og mins embættis vegna tilsegi eg, eptir Jesú Krists eigin skipun og upp á hans kröptuga ord, ydur N. N. þessarar ydar drýgdu N. syndar og allra annara ydar synda fyrirgefningu, i nafni guds fodurs, sonar og heilags anda, amen! Gángid burt i fridi drottins, og syndgid ekki meir!

Forsaungarinn byrjar þá versid No. 145 i Messusaungsbókinni. Presturinn byrjar strax þar eptir Communionem, geingar þá syndarinn upp til altarisins, ásamt ödrum, ad medtaka kvöldmáltidar sakramentid.

## 7. Um vitjun sjúkra.

Sjúkra, vanfærra og sængurliggjandi, sem ekki komast til kirkju, eiga prestar opt ad vitja, og ekki ad neita þeim sakramentis i heimahúsum, þegar þeir óska þess, og verduglega hegda sér eptir guds ordi og skipun. Þeir skulu og, þá hentugleiki gefst, áminna sofnudinn ad senda eptir sér i tima, þegar einhver verdur veikur, en bida ekki til fremstu laga, ad hann þvi optar geti vitjad þeirra, og komid þeim til adstodar og þénustu med áminning, rád og huggun, i þeirra sjúkdómi. Þar fyrir utan skulu þeir nálægu kostgæfilega áminna hinn sjúka á krapt hans skirnar, fyrir hvern hann heldur gódum samvizkunnar sáttmála vid gud, og má vera fullvis um eilift lif, ef hann heldur sér fast i trúnni vid Jesúm og hans dýrmætu verdskuldun, sem honum er til sálubjálpar sked. Sé presturinn veikur, svo hann geti ekki komid, þá skal vitja næsta prests, verdi hann feinginn. Þegar prestur er kalladur ad þjónusta, skal

hann koma, hvert sem það er á nótt eða degi, tafarlaust: hann skal aðgæta, hvernig hinn sjúki hagaði sér heilbrigður, svo hann geti því betur undirvísað honum til sáluhjálpar í hans sjúkdómi.

Þegar presturinn kemur til hins veika, heilsar hann honum vinsamlega, en þegar hann hefir með fám orðum spurt hann, hvernig honum liði, má hann á þessa leið tala til hans:

Eg formerki, að þér, í þessu yðar sjúkdóms ástandi, sem eg nú finn yður í, hafið þörf fyrir krapt og styrk guðs, að bera hans kross með þolinmæði, hvers eg vil yður því hjartanlega óska, að þér fáið, eins og Job, þolinmóðlega beðið alla yðar stríðsdaga, og í staðföstu trúartrausti til hans miklu miskunar vænt góðra og gleðilegra umskipta á sínum tíma. Drottinn, sá hjartanlegi góði guð, sem slær og græðir, straffar og huggar, frá hverjum öll sú hjálp kemur, sem á jörðu skér, hann komi nú yður til hjálpar í þessum yðar veikleika og gjöri á honum gleðilega endalykt eptir sínum föðurlegum vilja og velþókknun, þá tími er, til hans dýrðar og yðar sáluhjálpar.

Þeir, sem viðstaddir eru, gánga þá burtu, þángað til Communio byrjast, svo presturinn fái í einrúmi talað við þann sjúka. Hann heldur þá áfram ræðu sinni þannig:

Kærasti guðs vinur! Þar eð guði, yðar himneska föður, hefir þóknast að vitja yðar með þessum sínum föðurlegum krossi, þá gjörið þér vel, að þér, sem guðs barn, auðmýkið yður undir volduga guðs hönd, og í tíma sorgið fyrir sálu yðar, að hún megi stöðug standa, jafnvel mitt í dauðanum, og að þér, fyrir yðar frelsara, Jesú Krists allraheilagasta líkama og blóðs hluttekningu, nú að nýu megið verða fullvissir um ódauðlegt líf eptir þetta. Eg efast ekki um, að þér, eins og réttkristinn maður, hafið eptir Páls áminningu réttilega búið yður til þessa mikla sáluhjálpar verks, og

kostgæfilega rannsakad ydar hjarta og samvizku, hvernig þér hafid allt hingad til hegdad ydur eptir guds heilaga bodi og vilja, hvad þér þar á móti brotid hafid annadhvort med verkum, ordum eda þaunkum, til ad reita ydar himneska fodur til reidi þar med. Þessa idrar ydur nú af ollu hjarta, og í fullu trausti til guds nádar framberid nú hans eigin son fyrir hann, ydar frelsara Jesúm Krist, sem med sinum dauda hefir fullnægju gjørt fyrir allar ydar syndir og afrekad ydur frían inngáng frá þessum dauda, inn til ens eilífa lífs í himninum. Ef nokkud kann ad vera þad, sem liggur þúngt á ydar hjarta, þá áminni eg ydur, ad þér nú opinberid þad fyrir drottni gudi ydar, og í þann máta léttid á ydar samvizku, dyljid einga reidi, ekkert hatur, eingan óvinskap hjá ydur á móti nokkrum manni, heldur fyrirgefid þeim øllum af hjarta, sem ydur kunna ad hafa á móti gjørt, svo ad þér megid vidbúnir vera nú og ætíd, hvort heldur þessi sjúkdómur skal vera til lífsins framvegis edur til daudans, med hinum forsjálu jómfrúnum, ad taka á móti ydar sálar brúdguma, og med gladværri og rólegri samvizku ad vænta hans tilkomu. En upp á þad, ad eg guds og mins embættis vegna megi þess vissari vera um þvílíkan ydar undirbúning til þessa mikla sáluhjálpar verks, þá framsegid medkenningu ydar trúar og ydar skriptargáng í Jesú nafni, ad svo miklu leyti sem ydur í þessum veikleika kann mogulegt ad vera.

Þegar hinn sjúki gjørir svo sína medkenningu, þá ber prestinum ad taka vel vara á, hvad þýngst liggur á hjarta hins, svo þessi fái huggad hann þar á móti af guds ordi, med Krists dýrmætu verdskuldun, samt fullvissa hann um allra hans synda nádarsamlega fyrirgefningu, hverja hann þá tilsegir honum guds vegna med handanna uppáleggingu. Presturinn kallar þá fólkid inn aptur í húsid til sín, lætur setja upp lítid bord med á breiddum hreinum dúki og tveimur logandi ljósum, á hvert hann setur patinuna og kaleikinn med

braudi og vini. Svo snýr hann sér ad þeim sjúka og þeim, er hjá standa og talar á þessa leid:

Kærustu guds vinir! Þar vor herra Jesús Kristur segir sjálfur: ad hvar, sem tveir eda þrír séu samansafnadir í sínu nafni, þar vilji hann sjálfur vera mitt á millum þeirra; og ad hvers þeir bidji födurinn í sínu nafni, þad skuli þeir vissulega odlast; svo erum vér nú, eptir þessum hans ordum hér samansafnadir í guds ótta, til ad halda kristilega minningu hans heilögu kvöldmáltídar, til ad gjöra þenna vorn samkristinn hluttakandi í vors Jesú allraheilagasta líkama og blódi, af því hann, sökum líkamans sjúkdóms, fær nú ekki komizt til opinberrar samkundu guds barna, til ad njóta þeirra þar.

Vér viljum þá í vors drottins Jesú Krists nafni, byrja þetta heilaga verk.

Upp á þad, kærasti Krists vinur! ad þér réttilega og maklega mættud medtaka þad háleita sakrament kvöldmáltídar vors drottins, þá ber ydur einkum þessa tvo hluti ad vita og skilja, sem er: hvad þér skulud trúa og gjöra; því ad þessum ordum, sem Kristur sagdi: þad er minn líkami, sem fyrir ydur verdur gefinn og: þad er mitt blód, sem fyrir ydur úthellist til fyrirgefningar syndanna, skulud þér fullkomlega trúa ad svo í sannleika er; því ad Jesús Kristur er þar sannarlega sjálfur hjá, med sínum líkama og blódi í sakramentinu, eptir ordanna hljódun. Þar næst skulud þér einnig trúa Krists ordum, til syndanna fyrirgefningar, þad: ad Jesús Kristur skeinkti ydur sinn líkama og blód til innsiglis og stadfestingar upp á allra ydar synda fyrirgefningu. Ad sídustu skulud þér fyllilega gjöra Krists skipun, þar hann svo býdur ydur segjandi: medtakid og etid! sömuleidis: drekkid hér af allir! og: gjörid þad í mína minningu: því hann hefir gefid oss sinn líkama og blód ad eta og drekka til fyrirgefningar syndanna, og þar med ad minnast hans

heilögu pinu og dauda. Par fyrir, þegar þér svo trúid þessum Krists ordum og gjörid eptir hans skipun, þá erud þér rétt prófadir og reyndir, sem postulinn Páll segir, og megid svo maklega eta Krists líkama og drekka hans blód til fyrirgefningar syndanna. Par til gefi ydur gud himneskur fadir sins heilaga anda nád, fyrir þann sama Jesúm Krist vorn herra! Par um viljum vér allir gud bidja af hjarta og segja:

Presturinn snýr sér ad bordinu og les hátt, skýrt og stödugt:

Fadir vor! þú, sem ert á himnum; helgist þitt nafn; tilkomi þitt ríki; verdi þinn vilji, svo á jördu, sem á himni; gef oss í dag vort daglegt braud; fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgefum vorum skuldunautum; eigi leid þú oss í freistni; heldur frelsa oss frá illu. Amen!

Vor herra Jesús Kristur, á þeirri nátt, sem hann svikinn var, tók hann braudid, gjördi þakkir og braut þad, og gaf sinum lærisveinum og sagdi: takid og etid, þad er minn líkami, sem fyrir ydur verdur gefinn. Gjörid þad í mina minningu.

Sömuleidis eptir kvöldmáltidina, tók hann kaleikinn, gjördi þakkir, gaf þeim hann og sagdi: drekkid allir hér af, þad er kaleikur ens nýa testamentis í minu blódi, sem fyrir ydur úthellist, til fyrirgefningar syndanna. Gjörid þetta, svo opt, sem þér þad drekkid, í mina minningu.

Þegar presturinn réttir braudid ad þeim sjúka, skal hann tala þessi ord:

Þessi sannarlegi líkami Jesú Krists, sem er í daudann gefinn fyrir ydur og allar ydar syndir, hann styrki og vidhaldi ydur í sannri trú til eilífs lífs.

Í sama máta, þegar hann réttir ad honum kaleikinn, talar hann þannig:

Þetta sannarlega blód Jesú Krists, sem er á krossinum úthellt fyrir ydar synda skuld, þad styrki og vidhaldi ydur í trúnni til þess eilífa lífs.

Svo geingur presturinn ad bordinu aptur og les þá venjulegu bæn.

**Látum oss alla bidja:**

Vér þökkum þér, drottinn, almáttugur og eilífur gud! ad þú med þessari heilsusamlegri gjöf hefir oss alla nært. Vér bidjum þína miskunsemi, ad þú látir nú þessa þína gáfu koma oss til alls gagns og góda, og til vorrar sannrar trúarstyrkingar á þér, og til brennanda kærleika og elsku á medal vor innbyrdis. Fyrir sakir nafns þíns elskulegasta sonar, Jesú Krists, vors drottins og herra, amen!

Sídan lýsir presturinn blessun yfir þeim sjúka og segir:

Drottinn sé med ydur!

Drottinn blessi þig og vardveiti þig, drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir þig, og sé þér nádugur, drottinn upplypti sínu augliti yfir þig, og gefi þér frid, amen!

Þar eptir kemur presturinn nær til hins sjúka og í nálægd þeirra, sem vidstaddir eru, huggar hann í sínum krossburdi, og setur honum fyrir sjónir þá miklu nád og sáluhjálp, sem honum í þessa sakramentis meddeilingu er veitt, hvad ske kann med eptirfylgjandi edur ödrum vid líkum hætti:

Svo hafid þér nú, kæri guds vinur! enn þá ad nýu aptur forlíkad ydur vid ydar elskulega himneska fødur, fullvíssir um, ad hvad helzt ydur kann framvegis til handa bera, þá mun þó hvorki hid nálæga né hid eptirkomanda, hvorki daudi né líf megna ad fá ydur skilid vid þann kærleika guds, sem er í Jesú Kristi, Róm. 8, 38. 39., þar gud hefir sjálfur í dag endurnýad sinn nádarsáttmála vid ydur, og til stödugs og óbifanlegs teikns þar upp á gjört ydur hluttakandi í síns eingetins sonar, ydar frelsara heilaga líkama og blódi, med hverjum hann algjörlega hefir fullnægju gjört fyrir allar ydar syndir, og leyst ydur frá þeim eilífa dauda. Gledjizt nú í drottni, ydar gudi, og segid

med Davíd: þótt eg gángi í daudans myrkva dal, vil eg einga ólukku hrædast, því þú, drottinn! ert hjá mér, þinn vendur og stafur hugga mig, fullviss um, ad þú munir leida mig í þitt hús, til ad búa þar ætíd og æfinlega, Sálm. 73, 4—6. Jafnvel þótt þér enn þá í þessum ydar líkamans sjúkdómi megid veina, eins og Davíd veinadi fordum' yfir hinum andlega sjúkdómi: þar er ekkert heilbrigt á mínu holdi fyrir hans reidi; þar er einginn fridur í mínum beinum søkum minna synda; mitt hjarta skelfur, minn kraptur hefir yfirgefid mig, og ljósid minna augna daprast daglega, Sálm. 38, 4. 11., samt veit eg þó, þér hafid og finnid sérlegan guds krapt í ydar sálu, vegna þess huggunarfulla og kroptuga guds ords, sem talad er til ydar, ad allar ydar syndir séu fyrirgefnar, fyrir hvert þér megnid ad móttstanda øllum ydar harmkvælum og gánga þar frá, sem sigurvegari ad síduslunni, Róm. 8, 37. Þér hafid makt á móti syndinni, þegar hún freistar ydar, því drottinn hefir í dag talad til ydar fyrir mig — sinn óverduga þénara — þad, sem hann fordum fyrir Natans spámanns munn taladi vid Davíd: drottinn hefir tekid allar ydar syndir frá ydur, 2. Sam. 12, 13. Þér hafid makt á mót satan, þá hann vill freista ydar, því Krists blód, hvers þér vordnir erud hluttakandi, hefir sigrad hann, Op. 12, 11. Hvad skyldud þér daudann óttast, þar þér hafid neytt Krists líkama, sem hefir frelsad ydur frá daudanum, og gefid ydur þad eilífa líf, Jóh. 6, 54. Verid því hughraustir í krossburdinum, og látid ydur ekki hugfallast, þó þér verdid typtadir af drottni, Ordsk. 3, 11., heldur hagid ydur med hlýdni og spekt eptir ydar guds vilja. Þad er frá gudi komid, sem þér nú lída megid, og þad mun færa ydur til hans, ef þér lídid þolinmódlega, og erud stødugir í trúnni, því oss byrjar fyrir mikla ángist og harmkvæli ad inngánga í guds og Jesú Krists ríki, Post. g. 14, 22. Þér vitid, ad þad er guds vilji, ad þér þannig reyndir verdid, því án hans vilja kann ekki eitt hár ad

falla af ydar höfdi, Matt. 10, 30. Þér vitid og, ad þad kemur af guds elsku og ydar himneska födurs góda hjartalagi vid ydur, ad þér svo typtadir verdid, þvi hvern gud elskar, þann agar hann, Ebr. 12, 6. Þótt þad nú mætti virdast ydur, sem gud væri ydur reidur, þá ályktid þó med sjálfum ydur, og segid med Israel: eg vil seginn bera reidi drottins, þvi eg hefi syndgad á móti honum, Mikk. 7, 9. Svo áminnid þvi ydar sálu til lofgjördar og þakklætis vid drottinn sinn gud, er svo kroptuglega hefir endurnært ydur i þessari ydar eymd; kallid til hans nótt og dag med Mariu, og segid: min sál lofi drottinn, og minn andi gledji sig i gudi, heilsugjafara minum, Lúk. 1, 46. 47. Hrópid aptur med David, og segid: lofa þú drottinn, sála min! og gleym aldrei þvi góda, sem hann hefir gjort þér; þvi hann hefir fyrirgefid þér allar þinar syndir, og hann mun lækna allan þinn veikleika; hann frelsadi lif þitt frá fordjörfuninni, hann mun og krýna þig med miskun og medaumkun ætid og æfinlega, Sálm. 103, 2. — 4. Þeinkid med sjálfum ydur, þá harmkvælin eru sem hördust: þegar eg hefi þig, drottinn! þá hirdi eg hvorki um himin né jörd, Sálm. 37, 25., og bidid svo ydar tid med þolinmædi, og segid med Job: eg vil bida alla mina stridsdaga, þar til min umskipti verda, Job. 14, 14. Þótt þér nú eigid ad bida daudann hér af, þá vitid, ad þér hafid útgáng aptur frá daudanum, Sálm. 68, 21. Þar fyrir skulud þér, eins og guds barn, stadfesta ydar von til guds, nú á þessum ydar sjúkdóms tima, eins og á öllum ödrum timum og fullkomlega einsetja ydur, ad sleppa honum ekki, hvad sem hann lætur ydur til handa bera. Segid med Jakob: Drottinn, eg sleppi þér ekki, fyrr en þú blessar mig, 1. Mós. 37, 26. Segid med Job: Drottinn! þótt þú viljir deyda mig, þá skal eg samt vona á þig, þú skalt vera hlutskipti mins hjarta æfinlega, Job. 13, 15. I hverri huggun, von og trúartrausti eg skilst nú

við ydur, og vona, að sá, sem hefir uppbyrjað hið góða með ydur, muni fullkomna það á þann dag drottins Jesú Krists, hann léni ydur þar til stöðugleika allt til ydar síðustu endaloka, fyrir Jesú skuld.

Allra seinast endar presturinn ræðu sína með eptirfylgjandi bænarorðum:

Svo afhendi eg ydur guðs náð og miskunsemi, hann láti ydar harmkvæli verða bærileg og ydar þolinmæði staðfasta, ydar von og traust öldúngis óbifanlegt, hann láti sinn frið ætíð hvíla yfir ydur, frá því nú er og til eilífrar tíðar, amen!

Sé hinn sjúki svo veikur, að ekki geti lesið skriptagánginn, en prestur finni þó hjá honum sönn iðrunarmerki og innilega laungun eptir sakramentinu, þá byrjar hann strax aflausnina og síðan Communionem, sem fyrr segir. En ef sjúklingurinn er svo staddur, að hann hvorki má heyra né tala, skal þó presturinn ekki yfirgefa hann, ekki heldur neita honum sakramentisins, ef hann getur með einhverju teikni til vitundar gefið sína laungun þar til, og skilur, það við hann er talað. En sé hann bæði mál- og rænu-laus, skal presturinn fela hann guði á hendur til náðugra umskipta, áminna þá, sem hjá standa, að þeir sameiginlega framberi hann fyrir guði í bænum sínum, að hann vilji í náð líta til þessarar þjáðu skepnu sinnar, hvað presturinn þá enn betur útmálar eptir ástandi og kringumstæðum.

Ef þeir, sem alla æfi sína hafa forsmáð guð og hans orð, eða lifað ógudlega, vilja láta sér af prestinum umvenda að síðustu, þá er það gott. En vilji þeir það ekki, þá má sakramentið ekki veitast þeim, svo þeir ekki meðtaki það til enn þá stærri fordæmingar. En hverjir, sem meðkenna Krist og þekkja sinn illan lifnað, og rétt af alvöru biðja um sakramentið, þeim má að ósekju veitast það; því presturinn kann þó ekki að dæma framar, en hann sér er heyrir.

# 8. Um freistada.

Verdi nokkur á sinni sóttarsæng eda og endrarnær freistadur, sokum sinna synda, svo hann hlýtur ad klaga med David, ad hans syndir séu jafnan fyrir honum, og séu honum vordnar ofþúng byrdi, Sálm. 38, þá skal presturinn, fái hann því vidkomid, vitja hans nokkrum sinnum á hverjum degi; skal hann leggja alla áfúsu á ad koma sálu hans aptur til rósemi, svo hann ekki falli í efasemi um sína sálar velferd, og hrygd hans verdi ekki hrygd til dauda, 2. Kor. 7, og skal presturinn einkum framsetja fyrir hann:

1.) Guds óendanlegu og grunnlausu miskunsemi, sem sé lángtum stærri og kroptugri en allar vorar syndir, Róm. 5.

2.) Skal hann setja honum fyrir sjónir herrann Krist og hans almennu verdskuldun, med hverri hann hafi fullkomlega bætt fyrir vorar syndir, sé útgefinn fyrir oss alla, Róm. 8, sé dáinn fyrir alla, 2. Kor, 5. Ebr. 2, hafi endurleyst alla, 1. Tím. 1, því hann hafi borid vorar syndir, Es. 53, lidid fyrir þær allar, Jóh. 1, og borgad fyrir þær allar, þegar hann vard forlíkan fyrir alls heimsins syndir, 1. Jóh. 1, syndarinn sé því viss um, ad syndin liggur ekki framar meir á honum, heldur á frelsaranum Jesú, sem burttók allar heimsins syndir, Jóh. 1. En svo hinn freistadi megi þess heldur hughreystast, skal presturinn

3.) Framsetja fyrir hann guds dýru fyrirheit og þann eid, sem hann hefir svarid, ollum þeim, er gjora sanna idrun, hversu stórsyndugir sem þeir eru: svo sannarlega, sem eg lifi, segir drottinn, þá hefi eg einga þókknun á dauda ens ógudlega, heldur ad hann betri sig og lifi, Ezek. 33; því þegar hinn ógudlegi snýr frá sínu ránglæti, sem hann hefir framid, og breytir rétt og vel, þá skal sál hans lifa, hann skal lifa og ekki deya, Ezek. 18. Þegar syndarinn kemst svo lángt, ad hann þekkir synd sína, sem hann hefir drýgt á móti gudi, en þar á

móti þá náð, sem guð hefir honum auðsýnt í Kristi Jesú, þá þarf hann ekki að skelfast vegna synda sinna, hversu stórar sem vera kunna, því drottinn er miskunsamur og vill ekki reiðast æfinlega, Jer. 3. Þó að vorar syndir séu rauðar sem blóð, þá skulu þær samt verða hvítar sem snjór, ef oss einúngis iðrar þess vonda og látum af að syndga þverúðarsamlega á móti drottni, Es. 1. Þar upp á höfum vér

4.) Svo mörg huggunarfull dæmi bæði í gamla og nýa testamentinu, sem mikillega fá hughreyst freistaðan og ángraðan syndara. Hversu stórkostlega reitti Davíð ekki guð til reiði, bæði með hórdómi og manndrápi og fleirum stórsyndum? Þó tók guð hann til náðar, þegar hann meðkenndi synd sína, og fyrirgaf honum ránglætið, þegar hann iðraðist þess, Sálm. 32. Hversu mikillega syndgaði Manasses ekki móti guði með afguðadýrkun, sem hann framfylgði í Júda, með göldrum, með offrum hans barna til Mólok, sem hann lét gánga í gegnum eldinn, með ofsókn guðs orðs þénara, þar hann lét saga Esajam spámann sundur með trésög? þó fékk hann náð hjá guði, þegar hann kannaðist við sína synd, og auðmýkti sig fyrir drottni, Kron. 33. Var ekki Páll guðs spottari og ofsóknari? þó sýndi guð honum miskunsemi, þegar hann umventi sér til guðs, og lét af ránglæti sínu, 1. Tím. 1. Var ekki Pétur meinsærismaður á móti guði, hver eð þrisvar neitaði og afsór sinn eigin herra og frelsara? Þó aumkaði guð sig yfir hann, þegar hann grét synd sína, og lét sig ángra hana, Matt. 26. Einginn er útiluktur frá guðs náð, hversu mikið sem hann hefir syndgað, nema þeir, sem með iðrunarleysi og örvæntingum útskúfa sjálfum sér, eins og Kain og Júdas, 1. Mós. 4.; Matt. 27.

Ef þeim freistaða virðist, að hans syndir séu margar og miklar, þá vísa honum til þeirrar bersyndugu kvinnu, Lúk. 7; hennar syndir voru og margar, en guð fyrirgaf henni þær allar. Virðist honum, að hans iðran sé sein,

þá vísa honum til ræningjans á krossinum, hann gjørdi allra fyrst idrun á sinni daudastundu, og fékk þó þad andsvar af Kristi: í dag skaltu vera med mér í Paradís, Lúk. 23. Virdist honum, ad hans trú sé eingin, med hverri hann kunni ad reida sig upp á guds miskunsemi fyrir Krist, þá áminn hann ad bidja gud þar um, en á medan láta sér nægja med þá veiku trú og eptirlaungun, sem hann hefir, ad mega finna til trúarinnar. Gud heyrir girnd þeirra fátæku, segir David, Sálm. 10. Svo leingi sem syndarinn stendur ekki á móti gudi med þverúd, svo leingi er líka trúin hjá honum, þó hann þykist ekki til hennar finna. Já, í því hann kvartar yfir sínum trúar bresti, þá má hann álykta, ad hann þó hefir trúna, þó veik sé; því hún er opt og tídum sem neisti í øsku, og gullstykki, sem er hulid í jørdunni. Virdist hinum freistada, ad gud hafi hann yfirgefid, af því hann skelfist vegna syndanna, þá framset fyrir hann, þad gud sagdi til Zion: eg hefi ekki yfirgefid þig, mína hønd vil ekki frá þér taka, Ebr. 13. Þó honum virdist, sem gud hafi hann yfirrgefid, muni hann þó med mikilli miskunsemi til hans líta.

Ef syndarinn er hræddur um þad, ad hann fái ekki haldid sér stadføstum vid gud, þá skal hann vita, ad gud freistar einkis manns yfir megn fram, 1. Kor. 10. Hafi hann þegar uppbyrjad hid góda hjá honum, þá mun hann og einninn þad fullkomna allt til þess dags Jesú Krists, Fil. 1. Fyrst hann uppbyrjar viljann til ens góda hjá syndaranum, þá gefur hann honum einnig nád til ad framkvæma þad, Fil. 2., þar ed gud freistar einkis til hins vonda, heldur vill, ad allir hlutir þéni þeim til góds, sem elska gud, Róm. 8. Opt reynir gud líka hinn syndugа, til þess ad hans trúarljós skíni því fegra í heiminum, Matt. 5. Þar fyrir ber sérhverju guds barni í þvílíkum freistingum ad þakka gudi af hjarta, ad hann á þenna hátt virdist ad vitja hans, og bidja gud um stadfestu allt til enda, svo hann fái

barizt gódri baráttu, vardveitt trúna og góda samvizku, svo hann ødlast mætti dýrdarinnar kórónu, 2. Tim. 4.

Þetta og þvíumlíkt á presturinn nákvæmlega ad útmála fyrir enum freistada, og heimfæra þad upp á hann sjálfan; leida honum fyrir sjónir, ad gud hafi losad þeim øllum nád sinni, sem idrast og betra sig, því eigi hann ad varast alla ørvæntingu, en treysta guds miskunsemi, sem øllum idrandi er reidubúin. Hann skal minna hann á sinn skírnar sáttmála, fyrir hvern hann sé guds barn og hafi feingid syndanna fyrirgefningu, ad gud hafi opinberad honum sitt heilaga ord, látid sinn þénara boda honum syndanna fyrirgefningu, látid hann verda hluttakandi í Jesú Krists heilaga líkama og blódi. Ad gud vilji ekki, ad þetta verdi til ónýtis, heldur segja: kom til mín þú ángrada sála, eg vil hressa og endurnæra þig, Matt. 11.

Þegar nú sá freistadi kemst ad raun um, ad gud beri svo mikla umhyggju fyrir sér til ad frelsa hann, þá skal presturinn áminna hann til ad gledja sig í guds gæzku, og segja med Davíd: Drottinn! eg gled mig og er gladvær af þinni miskunsemi, því þú álítur eymd mína og þekkir sálu mína í neyd stadda, Sálm. 31. Áminn hann ad gledja sig í gudi, frelsara sínum og segja med Job: eg veit minn endurlausnari lifir, og eg mun sjá hann í gledi med mínum augum, Job. 19. Áminn hann ad hugleida med Davíd, hversu gott þad sé ad halda sér til guds, setja sína von á drottinn, hann leidi hann eptir sínu rádi, og medtaki hann sídan til æru, Sálm. 83. Áminn hann ad eptirfylgja Péturs rádleggingu, og med stødugri trú ad mótstanda djøflinum, vitandi, ad adrir heilagir, sem í heiminum eru, lída þá sømu ánaud, 1. Pét. 5. Þessar og þvílíkar greinir ber prestinum ad útdraga af guds heilaga ordi, þeim freistada til huggunar, og leggja alúd á, ad fá syndaranum snúid í frá villu hans vegar og frelsa hans ønd frá dauda, Jak. 5.

5.) Skal hann kostgæfilega áminna þann freistada til bænarinnar, ad hann ætíd og idugleg bidji til guds med David, Sálm. 51.: miskuna þú mér gud, eptir mikilleik miskunsemda þinna, og fleirum þess háttar hjartnæmum bænum. Líka svo stuttlega med tollheimtumanninum: Gud! vertú mér syndugum líknsamur, Lúk. 18. Ellegar og eptir Krists eigin formi: Fadir! fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vér fyrirgefum vorum skuldunautum, Matt. 6. Þeir, sem nálægir eru þvílíkum sturludum manneskjum, skulu med lestrum og saungum daglega uppörfa sálir þeirra, til ad gledja sig í gudi, frelsara þeirra, og verda æ fullkomnari í þekkíngu yfirfljótanlegrar guds nádar, þeim til huggunar og hugsvolunar og ad sídustu til nádarsamlegrar frelsunar frá þessum hördu freistingum. Þeir lesi opt eptirfylgjandi ágæta bæn:

Drottinn minn gud! þegar eg kalla til þín, þá gjörir þú mig heilbrigdan. Um kvöldtímann varir gráturinn, en ad morgni dags fognudurinn, Sálm. 30.

O þú gæzkuríki gud! af því þad er mér gagnlegt, ad eg heimsóktur verdi med ávaxtarsömu ángri, svo eg því heldur hjartanlega andvarpi um þína guddómlegu huggun mér til sáluhjálpar, þá bid eg þig ad vardveita mig fyrir lángvarandi rænuleysi og sturlun. Láttú mig ekki í mörg ár og lángan tíma þar med plágadan verda, heldur hughreystú mig eptir freistinguna, og láttú mig eptir hirtinguna finna nád hjá þér, svo eg med fögnudi fái mitt lífsskeid í þessum heimi útendad, amen!

## 9. Um Fánga.

Prestarnir skulu nokkrum sinnum vitja þeirra fánga og ódádamanna, sem med illverkum hafa fyrigjört lífi sínu,

ádur en þeir meddeili þeim sakramentid, svo þeir fái þá verduglega undirbúid til þess medtekningar. Um fram allt skulu prestarnir áminna þá til sannleikans medkenningar, ad þeir hvorki blygdist fyrir veröldinni, né innibyrgi syndina med sjálfum sér, hvar med þeir safni synd á synd ofan, og uppveki gud til meiri hefndar, ef þeir forherda sig á móti honum. Þeir skuli því opinberlega medkenna sínar yfirsjónir og gefa gudi dýrdina, svo samvizkan særi þá ekki í daudanum. Þeir skulu einnig áminna þá til sannarlegs ángurs og trega fyrir þeirra drýgdar syndir, med hverjum þeir svo mikillega hafa styggt hinn góda gud. Þeir skulu útmála þeim af guds ordi svívirdingu allra synda yfir höfud, en einkum þá synd, fyrir hverja þeir eigi nú ad straffast. Hann skal láta þá yfirvega þeirra undanfarid liferni, hvert þeir ekki med ofdrykkju, lostasemi, ágirnd, hatri, öfundsýki vid náúngann, óhlýdni vid foreldra og yfirbodara, vanhelgun hvíldardagsins, guds ords forsoktun og ödrum þvílíkum syndum, opt og tídum hafi fram anad í þessa ólukku, hvers vegna þeir nú um sídir, eptir guds réttvísu tillátsemi, eru fallnir í svo stóra og hrædilega synd, eins og drottinn hótar þvílíkum forhertum hjörtum fyrir munn spámannsins: eg vil setja ásteytingu fyrir hann, hann skal deyja, Ezek. 3. Samt skuli þeir ekki falla í örvæntingu eda meina, idranin sé gagnslaus, heldur skal presturinn sannfæra þá um af ritningunni, ad gud vilji ekki nokkurn þann frá sér reka, sem til hans kemur, med fleirum þess háttar guds fyrirheitum. En þar hann med gæzku sinni hefir hingad til ekki feingid þá leidda til umvendunar, þá hafi hann ordid ad grípa til þessa medals, ad þeir fyrir píntingar, þrúganir, fángelsi og sjálfan daudann skuli koma til réttrar þekkingar synda sinna, eins og hann fordum gjördi vid Manasses, 2. Kron. 33, Akan, Jós 7, ræningjann á krossinum, Lúk. 23. Þeir skuli því bidja og dýrka gud

i þessu þeirra fángelsi, eins og Páll í myrkvastofunni í Filippis, Post. Gb. 16.

Þegar dómur er yfir þá fallinn, skal presturinn opt og tíðum vitja þeirra, og minna þá á, að þeir nú alvarlega leiti fyrirgefníngar hjá guði, gjöri sig undirgefna uppsögðum dómi, hvern þeir með réttu verðskuldað hafi, og viðurkenni opinberlega með ræníngjanum, að nú meðtaki þeir það, sem gjörðir þeirra hafi tilunnið. Presturinn skal þá ítreka þær helztu játníngar af guðs orði, sem stórsyndarar hafa áður gjört, svo sem: Akans, Jós. 7, Davíðs, Sálm. 51, Manassis, Israels, Mík. 7, ræníngjans, Lúk. 23, og annara fleiri. Þeir skulu einnig áminna þá til staðfastrar trúar og vonar til guðs, sem vissulega vilji vera þeim náðugur fyrir Jesúm Krist, og gefa þeim sama huggunar-ríka svar sem ræníngjanum: í dag skaltú vera með mér í Paradís. Með þessum og þvílíkum orðum skal presturinn leiða þeim fyrir sjónir guðs fyrirheit, eptir því sem hér að framan umgetur um freistaða.

Þegar prestarnir finna þá kristilega undirbúna, má þeim veitast sakramentið, áður en þeim er réttað, á sama hátt og fyrr er mælt hjá sjúkum hafast eigi, biður svo presturinn hjá fánganum til að hugga hann, sýngja, lesa og biðja með honum. En tjái fángar sig harðsvíraða, verða þeir ekki þar til meðteknir, heldur felast guði á hendur, að hann af náð sinni vilji hjá þeim öfluga umvendun og yfirbót verka, svo þeir ekki deyi í syndunum, heldur komist til sannleiksins viðurkenníngar, og deyi sáluhjálplega.

Þegar dagurinn kemur, á hverjum sakamaðurinn skal líflátast, skal þeirrar sóknar prestur, hvar það sker, vera árla hjá honum um einn eða tvo klukkutíma, áður dóminum sé fullnægt, skal hann þá minna fángann á það, sem hann að undanförnu hefur fyrir honum talað, uppörfa hann til staðfestu í því góða og að skelfast ekki fyrir dauðanum, því þessi dagur sé hans

lausnardagur og inngángur til sælufullrar gledi í himninum. Hann skuli því innilega bidja gud ad koma sér til hjálpar med sínum góda anda, ad hann sem fullhugi fái geingid á hólm vid daudann og sigrad þenna sídasta óvin. Presturinn skal iduglega lesa, bidja og sýngja med honum, svo hann fái haldid honum í stødugri andakt til guds. Hann skal opt ítreka fyrir honum høfudgreinir trúarinnar, og stuttlega útskýra þær honum til huggunar, einnig lesa fyrir honum ein og ønnur hjartnæm vers og bænir, sem þar til hlýda. Finni presturinn hjá syndaranum ótta og ángursemi, þá skal hann láta gefa honum vín, því gud hefir sjálfur skipad ad gefa syrgendum vín, sem líflátast eiga, svo þeir gleymi eymd sinni á jørdunni, og hugsi ekki framar til sinnar ángistar og ólukku, Ordsk. 31. Þó skal presturinn hafa gát á, ad hann ekki ofmikid drekki, svo hann ekki þýngi hjarta sitt med ofdrykkju, móti Krists vidvorun, Lúk. 21. Þegar sakamanninn skal útleida til aftøkustadarins, skal presturinn fylgja honum og ætíd áminna hann, ad hann í Jesú nafni gángi med hughreysti hédan og íhugi, hversu ervidan gáng hans kærasti frelsari hafi á undan honum geingid, sem var hreinn og heilagur, en hlaut þó ad lída eins og ódáda-madur. Ad hann nálgist nú sitt frelsi, og sælufull eilífd sé honum fyrirbúin annars heims. Hann hugleidi sitt undanfarna líferni, bidji gud um styrk og nád til ad bera straff sitt þolinmódlega, og bidji med David:

Vertú ánægd, sála mín! því drottinn veitir þér hid góda; sálu minni hefir þú útrykkt úr daudanum, augum mínum af tárafollunum og fótum mínum frá hrøsuninni. Nú vil eg gánga fyrir drottni á landi enna lifendu, Sálm. 116.

Svo ad sakamadurinn falli ekki í annarlega þánka, skal presturinn halda áfram ad tala vid hann af guds

ordi, minna hann á þær helztu ritningar greinir, sem höndla um vora endurlausn fyrir Krist, um guds miklu miskunsemi vid alla þá, sem betra sig og um sáluhjálplegan útgáng trúadra frá heiminum. Eru þær einkum þessar: Es. 43. 53. Ezek. 33. Hós. 11. Jer. 3. Mik. 7. Jóh. 3. og 5. Róm. 5. og 8. 1. Tim. 1. 1. Jóh. 1. og 2. Opinb. 14 og fl. Skal presturinn vel athuga, ad hann fái svar af þeim sakada upp á sérhvert, sem hann framsetur; hann skal því spyrja hann, hvort hann hafi skilid þad honum hefir sagt verid, hvort hann trúi því, og reidi sig þar á, og finni til endurnæringar þar af í hjartanu. Presturinn skal, svo mikid sem mögulegt er, leitast vid ad taka frá honum kvida fyrir daudanum, en halda honum í stödugri umþeinkingu til þess himneska og eilífa; skal hann því þess á millum knýa syndarann til ad bidja og syngja med sér þá sálma, sem presturinn hér til velur. Þegar hann er kominn til aftökustadarins, skal presturinn áminna hann til andans hugprýdi, ad hann nú ekki í sínu sídasta veiklist né blygist fyrir daudanum, þar hans endurlausn sé nú nálæg, Lúk. 21, og hvort sem hann lifir eda deyr, þá sé hann drottins, Róm. 14. En svo bædi presturinn og adrir, sem vidstaddir eru, megi þess vissari vera um syndarans sanna idran og yfirbót, skal hann tilsegja honum, ad gjöra sína seinustu játningu opinberlega og í heyrenda hljódi upplesi sínar trúar höfudgreinir. Ad því búnu framsetur presturinn fyrir hann eptirfylgjandi spurningar:

1. Er þetta ydar stadfost trú og játning um gud, í hverri þér áformid ad enda ydar líf í þessum heimi? Já!

2. Trúid þér þá, ad þér séud stórsyndari, sem í margan máta hafid stórkostlega módgad ydar gud, einkum med þessari ydar drýgdu N. synd, fyrir hverja þér eigid nú ad straffast? Já!

3. Játid þér einnig skýlaust, ad þér hafid fyrir þá skuld verdskuldad daudann, og ydur idri þess innilega af hjarta? Já!

4. Trúid þér einnig, ad þér, fyrir Krists skuld, hafid fundid nád hjá gudi, fyrir þessa og allar adrar ydar syndir, og ad þessi daudi skuli verda ydur inngángur til eilífs lífs? Já!

5. Hafid þér einnig af hjarta fyrirgefid einum og sérhverjum, sem ydur hafa nokkud á móti brotid, svo þér hafid ekkert hatur né reidi í hjarta ydar, hvorki vid yfirvaldid, sem réttvísinnar vegna hlaut ad áleggja þann yfir ydur geingna dóm, né heldur nokkurn annan af ydar samkristnum náúngum? Já!

6. Erud þér nú í herrans Jesú nafni fullkomlega reidubúnir og viljugir ad deya fyrir ydar drýgdar syndir? Já!

Hér upp á segir presturinn: svo vil eg þá í herrans Jesú nafni, til enn þá meiri styrkingar þessarar ydar trúar og frekari vissu og stadfestu um guds nád, eptir þeirri magt og myndugleika, sem gud sjálfur hefir gefid mér hér ad ofan, ad hvad eg fyrirgef hér á jördu, skuli á himnum fyrirgefid verda, tilsegja ydur þessarar ydar drýgdrar N. syndar og allra annara ydar synda fyrirgefningu, í nafni guds födurs, sonar og heilags anda.

Um allt þetta stendur sakamadurinn á knjám, og leggur presturinn hönd sína á höfud honum, og þannig, sem sagt er, bodar honum syndanna fyrirgefningu. Framvegis les presturinn þessa litlu bæn:

Drottinn Jesús styrki og vidhaldi ydur í

sannri og réttri trú allt til enda, vegna sinnar heilögu pínu og dauda, amen!

Fánginn stendur þá upp aptur, en presturinn byrjar þá sálminn No. 106, í Messusaungs-bókinni, en þegar út er súngid, segir presturinn vid hann: látid þér nú sjá, ad þér fyrir krapt anda drottins svo huggid og haldid ydur, ad þér forsmáid alla vanvirdu veraldarinnar, sem þér hér megid útstanda, en festid huganu vid þá eilífu himnaríkis gledi, hvar þér med ydar Jesú dýrdlegir verda munud, þegar þér fyrir sáluhjálplegan dauda erud laus vid þetta mædufulla líf. Presturinn áminnir hann svo ad sýngja med sér sálminn No. 146, edur annan, sem hann þar til velur. Þar eptir segir presturinn: svo vona eg þá, ad þér séud nú tilreiddir ad gánga til móts vid ydar gud, en hrædist ekki daudann, sem liggur á vegi fyrir ydur. Tilreidid ydar sinni, sál og hjarta fyrir gudi, og medtakid blessun drottins:

Drottinn sé med ydur!

Drottinn blessi þig og vardveiti þig, etc.

Gakk hédan í fridi drottins, amen!

Sídan skal búa fángan ad öllu til síns lífláts; en á medan er presturinn kyrr hjá honum, huggar hann og minnir hann á — ef hann bundinn er — hvílík fjötur Kristur, guds eigin sonur, mátti hans vegna lída, en þó hann nú ekki fái hrært sig, þá skuli hann innan stundar audsýna sig réttan Samson og sundurrykkja jafnvel þeim hördustu daudans fjötrum, þar Kristur hafi vorra vegna alla daudans makt ad eingu gjört, svo hann megi nú fulloruggur segja: Daudi! hvar er þinn broddur? Helvíti! hvar er þinn sigur? lofadur sé gud, sem oss hefir sigurinn gefid, fyrir drottinn vorn Jesúm Krist, 1. Kor. 15.

Þegar hann er nú öldúngis reidubúinn ad lída straffid, skal presturinn áminna hann ad sídustu, ad halda sér fastlega vid gud, og standa stödugur í trúnni

á hann, svo ødlast mætti lífsins kórónu, því þeim, sem yfirvinni, verði hún gefin, Opinb. 2. Hann skuli ekki kvíða fyrir dauðanum, því þetta sé tíminn, á hverjum guð muni gjøra hann sigri hrósandi yfir øllum sínum óvinum og jafnvel sjálfum dauðanum; hann skuli því ekkert óttast, heldur standa og sjá hjálpræði drottins, 2. Mós. 14. Verið því styrkvir í drottni og standið stødugir í trúnni, fyrir krapt guðs styrkleika, 1. Kor. 13. Ef. 6. Í sama máta áminnir presturinn alla viðstadda, að þeir af hjarta biðji fyrir þessum auma syndara til guðs, að hann veiti honum miskunsamlega ásjá, og fyrirgefi honum allar hans syndir, styrki, viðhaldi og verndi hann í trúnni. Loksins lætur hann syndarann krjúpa á kné, sem presturinn einnig gjørir, og les skýrlega fyrir honum stutta bæn, sem efninu hlýðir og síðast: Faðir vor, etc.

Verði sakamaðurinn annaðhvort heingdur eða limfestur, eða og lifandi píntaður og parteraður, má presturinn ekki yfirgefa hann, fyrr en hann er dauður, heldur kalla hárri roddu til hans, á meðan hann enn þá lifir, að hann hugsi til Jesú og innilega andvarpi til hans með þessum orðum:

Herra Jesú! miskuna þig yfir mig!
Heilagi herra guð!
Heilagi herra guð!
Heilagi herra guð! miskuna þú mér!
Herra Jesú! eg fel mína sálu í þínar hendur, amen!

## 10. Um hjónabandið.

Þau, sem vilja inngánga heilagan ektaskap, skulu fyrir fram gefa sig til kynna fyrir viðkomandi sóknarpresti, en vilji hann ekki kannast við þau, ber þeim að framvísa honum løgmæta vitnisburði og sannanir, að

á hvorugs þeirra sidu sé neitt það, sem eptir løgum kunni að hindra þeirra hjónaband.

Lýsa skal með hjónaefnum af prédikunarstól, innan þess safnaðar, hvar brúðurin á heima, þrjá sunnudaga í røð, utan á þeim stórhátíðum, hvítasunnu, páskum og þá jóladag ber upp á sunnudag; þá er lýst á annan.

## Lýsingin stedur þannig:

Lýsist til ektaskapar í fyrsta sinni, með N. N. og N. N. Þessar persónur blessi guð af hæðum, að þeirra kristileg fyrirtekt megi vel uppbyrjast, lukkulega framgánga, og farsællega endast, þeim til góðrar samvizku og øðrum til góðra eptirdæma og fyrirmyndar. Ef einhver veit þar nokkra meinbugi á, þá skal hann segja til þeirra í tíma, ella þegja síðan.

Eins er lýst í annað og þriðja sinn þar eptir; en gjøri nokkur løglegt forboð þann tíma á hjónabandinu, þá eru persónurnar ekki samanvígðar, fyrr en dómur er geinginn í sokinni. Ef hjónaefnin af ásetningi án orsaka gjøra lángan undandrátt eptir lýsingarnar, og láti sig ekki samanvígja, þá skal presturinn setja þeim vissan tíma, hvenær þau skulu samanvígast, undir straff eptir sakarinnar á sigkomulagi. Framfari vígslan á helgum degi, þegar embættað er, á hún að ske fyrir prédikun, milli pistils og guðspjalls, og ætíð í kirkjunni fyrir altarinu, nema leyfisbréf sé feingið, að hjónavígslan megi framfara í heimahúsum. Fyrir hana skal sýngja No. 308 eða 309 og 307 í Messusaungsbókinni, en eptir No. 310 eða 311 ellegar aðra sálma, sem við eiga. Þegar hjónavígslan á að framfara, geingur presturinn fram fyrir brúðhjónin, heldur stutta ræðu um

hjónabandið, hvar til hann brúkar grein úr ritningunni, hverja hann með fám orðum útleggur, sem því efni viðkemur, og endar með blessunar óskum.

Síðan spyr hann þau, hvort fyrir sig, fyrst brúðgumann þannig:

N. N. Eg aðspyr, yður:

1. Hvert þér hafið ráðfært yður við guð í himninum, þar næst við yðar eigið hjartalag, og svo þar eptir við ættingja yðar og vini, að þér viljið taka þessa *(Titul)* meyn (konu), sem hjá yður stendur, yður til ektakvinnu?

Hann svarar Já!

2. Hvert þér hér eptir viljið lifa svo með henni, bæði í meðlæti og mótlæti, í hverri helzt lukku guð almáttugur vill ykkur til færa, sem sérhverjum dánumanni ber að lifa með sinni ektakvinnu?

Hann svarar aptur: Já!

3. Hvert þér vitið yður frían fyrir, að hafa gefið nokkurri annari kvennmanns persónu, sem nú lifir, yðar ektaskapar trú, er þetta kynni að hindra?

Hann svarar: Já!

Þær sömu þrjár spurningar brúkar hann við brúðina strax þar eptir.

Í sama máta aðspyr eg yður N. N.

1. Hvert þér hafið ráðfært yður við guð, etc. mutatis mutandis.

Þegar hún hefir játad, segir presturinn:

Svo gefid hvort ødru ydar hendur hér upp á.

Leggur þá presturinn sína hønd yfir þeirra hendur, og segir:

Eptir því þid hafid innbyrdis samþykk vordid, hvort vid annad, ad vilja lifa saman í heiløgu hjónabandi, og hafid nú þad sama opinberlega medkennt fyrir gudi og þessum kristnum søfnudi, og þar upp á gefid hvort ødru ydar hendur, svo segi eg ykkur ad vera rétt ektahjón bædi fyrir gudi og mønnum, í nafni guds fødurs, guds sonar og guds heilags anda, amen! Hvad almáttugur gud hefir samteingt, skal madurinn ekki ad skilja.

Séu fleiri en ein brúdhjón ad samanvigja, þá skal hafa þetta allt upp aptur vid hver brúdhjón fyrir sig.

Presturinn les svo framvegis:

Med því þid hafid gefid ykkur í guds nafni í þá heiløgu hjónabands stétt, þá heyrid nú fyrst guds ord, sem hlýdir upp á þessa stétt: Í 1. Mós. b, 2. kap. stendur svo: Og gud drottinn sagdi: þad er ekki gott, ad madurinn sé einsamall, vér viljum gjøra honum hjálp, þá med honum sé. Þá lét gud drottinn svefnhøfga falla á manninn, hann sofnadi, og gud tók eitt af hans rifjum, og fyllti upp aptur í stadinn med hold.

Og guð drottinn skapaði konuna af því rifi, sem hann tók af manninum, og leiddi hana til hans. Þá sagði maðurinn: þetta er bein af minum beinum og hold af minu holdi, þar fyrir mun hún karlinna kallast, því hún er af karlmanninum komin. Þess vegna skal maðurinn yfirgefa föður og móður og samteingjast sinni eiginkonu, og þau tvo skulu eitt hold vera.

Þessu næst þá heyrið guðs boðorð, hvernig hann vill þið lifið í þessari hjónabands stétt; postulinn Páll segir í sendibréfinu til Efes. 5. kap.: Þér menn! elskið yðar húsfreyur, eins og Kristur söfnuðinn, og gaf sig sjálfan út fyrir hann, upp á það hann helgaði hann, og hreinsaði fyrir skírnarsáinn í orðinu, svo hann tilbyggi sjálfum sér dýrðlegan söfnuð, sem einga flekkun eða hrukku eður þess konar hefði, heldar að hann sé heilagur og óstraffanlegur. Svo skulu og mennirnir elska sínar eiginkonur, sem sína eigin líkami; hver sína eiginkonu elskar, hann elskar sjálfan sig; því eingin hefir um aldur sitt eigið hold hatað, heldur nærir hann það og fóstrar, eins og drottinn söfnuðinn.

Kvinnurnar veri bændum sínum undirgefn-

ar, eins og drottni; því madurinn er kvinn-unnar høfud, eins og Kristur er safnadarins høfud, og hann er frelsari síns líkama. En eins og søfnudurinn er Kristi undirgefinn, svo skulu og einnig kvinnurnar bændum sínum í øllu.

Í þridja lagi megid þid heyra þann mót-lætis kross, sem gud hefir lagt á þessa stétt: Svo sagdi gud til konunnar (1. Mós. b. 3.): fjøldga mun eg eymdir þínar: þegar þú verd-ur ólétt, skaltú þín børn med sótt og harmi fæda, undir bónda þíns valdi skaltú vera, og hann skal þinn herra vera. Og til Adams sagdi gud: fyrir þá skuld ad þú hlýddir raust konu þinnar og ázt af því tré, hverju eg bann-adi þér, og sagdi: þú skalt ekki þar af eta, þá sé jørdin bølvud fyrir þína skuld; med erfidi skaltu þig af henni næra alla þína líf-daga, þyrna og þistla skal hún þér bera, og þú skalt jardarinnar jurtir eta; í sveita þíns andlitis skaltu þíns brauds neyta, þar til þú aptur ad jørdu verdur, sem þú ert af kominn; því þú ert mold, og ad moldu skaltú aptur verda.

Í fjórdu grein er ykkur þad til huggunar,

ad þid vitid og trúid, ad ykkar stétt er fyrir gudi þægileg og blessud; því svo segir ritningin: Gud skapadi manninn eptir sjálfs síns mynd, já, eptir guds mynd skapadi hann hann, og hann skapadi þau karlmann og kvennmann, og blessadi þau og sagdi til þeirra: varid og fjöldgizt, og fyllid jördina og leggid hana undir ykkur; drottnid yfir sjáfarins fiskum og yfir himinisns fuglum og öllum þeim kvikindum, sem hrærast á jardríki. Og gud leit allt þad, er hann hafdi skapad, og sjá þú! þad var allt saman harla gott. Þar fyrir segir Salómon svo: hver, sem eignast eina kvinnu, hann fær gódan hlut, og medtekur þókknun af drottni.

Þar eptir leggur presturinn hönd sína á höfud þeim og segir:

Látum oss bidja:

Fadir vor! þú, sem ert á himnum, etc.

Látum oss enn framar bidja:

Allsvaldindi gud drottinn! þú, sem karlmann og kvennmann hefir skapad og skikkad til hjónabands stéttar, þar til med líkamlegu afkvæmi blessad, og þad sakramenti þíns elskulega sonar Jesú Krists og kristninnar, hans brúdur, þar med teiknandi. Vér bidjum þína ómæli-

legu góðgirni, að þú viljir ekki þína þvílíka skøpun, skikkun og blessun láta til ónýtis verða né fyrirfarast, heldur miskunnsamlega varðveita, fyrir drottinn vorn Jesúm Krist, etc.

Drottinn sé með yður!

Drottinn blessi þig og varðveiti, etc.

Almáttugi, eilífi guð og miskunnsami faðir! þú, sem sjálfur hefir skikkað, að maður og kvinna skyldu vera eitt hold, og hefir þessa samteingingu staðfest með þinni náð og blessun. Vér biðjum þína miskunnsemi, að þú gefir þessum hjónum, sem hér eru nú samanvígð í þínu nafni, náð, lukku og blessun til lífs og sálar, að þau mættu trúlega og réttilega þjóna þér í kærleika og samþykki, og ætíð vera hlýðin þínu heilaga orði, svo þau mættu á þann síðasta dag verða fundin í tølu réttkristinna manna, í þínum syni, Jesú Kristi, vorum herra, hver með þér og heiløgum anda, etc.

## 11. Um greptrun framliðinna.

Þegar einhver deyr í sókninni, skulu nánustu vinir eða yfirvaldið, ef hann er framandi, sorga fyrir því, að líkið verði jarðað. Á sunnudøgum mega lík grafast, áður en samhringt er. Einginn má taka grøf í kirkju, ekki heldur í

kirkjugardi án prests eda kirkjuverjarans leyfis; ekki heldur mega lík þegjandi grafast, án þess prestur kasti mold á þau, heldur skulu vidkomendur gefa honum þad til kynna, og óska líkprédikunar, ef hana girnast. Þeir daudu skulu skrifast med nafni og aldri í þar til gjørda bók, med degi og dató.

Þegar líkid kemur til grafarinnar, skal þad strax setjast nidur í hana, og sídan skiptir sér einginn af því, fyrr en presturinn kemur, og kastar þrisvar mold á þad med reku.

Fyrst segir hann:

Af jørdu ertú kominn.

Þar næst:

Ad jørdu skaltú aptur verda.

Og í þridja sinn:

Af jørdu skaltú upp aptur rísa.

Sídan fylla líkmennirnir grøfina med mold, en presturinn velur til þá líksálma, er sýngjast skulu vid greptrunina. Sé líkid grafid í kirkjugardinum, þá standa þeir, sem sýngja, hjá grøfinni á medan, en sé þad í kirkjunni, þá þar, sem þeim er sagt.

Eigi líkprédikun ad haldast, velur presturinn til þá sálma, er sýngjast skulu bædi fyrir hana og eptir. Hann útleggur stuttlega þénanlegan texta úr ritningunni, þeim sorgandi til huggunar, en ødrum guds børnum til áminningar og undirvísunar. Hann skal, eptir þad hann hefir skipt greinum, og ádur en hann fer ad útleggja textann, upp lesa þad af lífssøgu ens

dána fyrir syndinum, sem helzt þurfa þykir. Hafi hann nokkud gefid til kirkna, skóla, fátækra eda annarar gudlegrar brúkunar, þá skal þad í hana innfærast, gudi til dýrdar og ødrum til gódra eptirdæma. Bidji nokkur prestinn um sérlegan líkterta, þá leyfist þad, ef hann þénar þar til. Prestarnir skulu í þessum líkprédikunum einkum tala um syndina, sem hafi verid orsøk til daudans; um gódan undirbúning dandans; um Krists endurlausn frá daudanum; um upprisuna frá daudum; um himnaríki, sáluhjálpina og eilíft líf eptir daudann. Þeir skulu taka sér vara fyrir heidinglegri hrósun ens dauda í þeirra líkprédikunum, svo þeir hvorki hæli honum um of, sínu kalli til nidrunar og samvizku til saurgunar, né heldur segi neitt ósæmilegt um hann, ødrum til hneykslunar og náúngum hans til blygdunar; en þad satt er og øllum er vitanlegt, mega þeir med hóffsemi og gódri skikkun útmála. Líkprédikun má ekki vara yfir eina klukkustund, en í næmum sjúkdómum er prédikad helsíngi skemur, og sé þad í kirkjugardinum, er gjørd stutt áminning í stadinn fyrir líkprédikun, og endud med drottinlegri bæn.

Seinast er súngid í kirkjugardi, sé þar jardad, eda á kirkjugólfi 2 seinnstu versin af sálminum Nr. 231 í Messusaungs-bókinni:

Sofi hann (hún) nú hér í fridi, etc.

Séu fleiri lík ad jarda í einu, sem prédikast á yfir, þá kastar presturinn mold á hvert fyrir sig, en prédikar yfir þeim í einu lagi, þó svo, ad hvers lífssaga er lesin fyrir sig. Þeir, sem ekki eru hreinnar trúar og sannrar medkenningar med vorri kirkju, eru ad sönnu grafnir í kirkjugardinum, hjá ødrum kristnum, þó er ekki kastad mold á þá né prédikad yfir þeim. Ekki heldur má presturinn kasta mold á þá eda prédika eptir, sem eru af teknir, ellegar hafa fyrirfarid sér, ekki heldur, sem eru óleystir úr banni, eda dæmdir óærlegir, fyrr en þeir eru forliktir vid yfirvaldid og málspartinn. Eingi inn, sem fellur í einvígi má jardast í kirkju edur í kirkjugardi, ekki heldur þeir, sem sig sjálfir med vilja firra lífi.

Finnist nokkur bráddaudur úti á vídavángi edur annarstadar, svo menn viti ekki, hvernig hann er daudur, þá má hann ekki jardast, ádur en presturinn hefir þar um advarad yfirvaldid, og gefid því þad til vitundar, og ályktt-

an er síðan skeð. Hvert og einnig á að skiljast um þau børn, sem koma fyrir utan hjónaband, en finnast dauð strax eptir fæðinguna.

Líkprédikanir yfir prestum og þeirra náúngum gjørir viðkomandi prófastur. Sama sker og að gæta um hjónavígslur og barnaskírn, þegar það við ber.

---

Bókin er prentuð á kostnað prentsmiðjunnar, og kostar óinnbundin 80 sk. r. S.

